UT AF
DROTTens Vors JESU Christi
Pijningar Historiu
SJÖ

# Predikan=
# ER /

Af hvorium SEX eru giordar;
Af
Byskupenum yfer Skaalhollts Stifte.
Sml. Mag Jone Thorkelssyne
VIDALIN.
Eñ Su SJÖUNDA
Af
Sml. Mag. Steine Jonssyne/
Byskupe Hoola Stiftis.
EDITIO III.

Seliast Alment Jnbundnar 15. Fiskum.

Pryckar a Hoolum i Hialltadal, Af
Halldore Eriks-Syne Anno 1746.

# Formaale.

## Gudhræddum Lesara, Heilsa og Fridur, Fyrer JEsum Christum.

Miñed er ein stoor Giøf af Gude, sierdeilis tillagt skilningsfullre Saal Mañaña: Þad er Geymslu-Hyrdsla, vorra Vitsmuna: Þad er Verkfære Uppfrædingareñar: Þad er Verndare Lærdooms-sins, og Geimare allra goodra Uppvakninga. Sa er sæll, sem alleinasta i Miñe hefur þad sem Naudsynlegt og Nytsamlegt er. Þar er til margt hvad, sem þess Haattar er, ad so sem þad stodar lijted til Saaluhialpareñar, ad festa þad i Miñe, so skadar þad og lijted ad gleyma þvi. Þad Illa sem oss þvingar, er oss optastnær Miñis-fiætt, eins sem þad være a Steinum grafed: Eñ þad Gooda, sem þad være skrifad a Sande. Hier af kiemur þad, ad Meñ gleyma fliootl Guds Velgiørningum. Vier telium þa Vondu Daga vorra Æfestunda: Pa Goodu munum vier, og reiknum ecke. Miñed gleymer þvi skiøst, sem Kiærast er. Sa brukar vel sitt Miñe, sem jafnañ i Miñe hefur: Fyrst sinar Synder, so hañ ydrest þeirra, og bidie Gud um Fyrergiefning a þeim, og þar med hugge sig vid Blooduga Forþienustu JEsu Christi. I Añañ Maata brukum vier vort Miñe, ef vier miñunst Daglega Guds Velgiørninga, og þøckum hønum fyrer þa Audmiuklega, og knijum hañ so til frekare Naadar vid oss. I Þridia Lage brukar sa riettelega sitt Miñe, sem miñest yduglega sijns Dauda, og huxar um hañ, svo ad hañ, nær Lijfssins-Ende kiemur, kuñe med Hughraustu Giede ad seigia, sem Simeon: Nu laattu DRottEñ Þioon þiñ i Fride fara, Luc. 2. Eingeñ hefur betre Nytseme af sijnu Miñe, eñ sa, sem yduglega miñest a JEsum. Hier til erum vier aaminter af Postulanum Paale, þar hañ seiger til Timotheum: Haf i Miñe JEsum Christum, 2.

Tim. 2. Item, Miñest a hañ sem Mootmælеñ i giegn sialfum sier, af Syndugum þolde, Heb. 12. Pharaonis Skeinkiare gleymde Joseph, Gen. 40. JEsus gleymer oss alldrei: J siinum Høndum hefur hañ teiknad oss, Esa. 49. Miñing Riettlaatra bliifur i Blessan hier a Jørduñe, eirneñ a Himnum hiaa Gude: Þvi er og skillt, ad Miñing JEsu Christi bliife hiaa oss Møñunum (hvøria hañ hefur Riettlaata giørt med siinum Dauda og Upprisu) i stadfastre Lofgiørd og Packlæte vid hañ. Hañ miñtest vor, þegar vier vorum Synduger, þegar vier vorum Guds Oviner. Eñ hvørneñ kuñum vier ad miñast hañs, hønum til nockurs Giedþocka? Þegar vier i riettre Gudhrædslu miñunst Piinu og Dauda DRottens vors JEsu Christi, þa brukum vier og vel vort Miñe. Til þessa hefur Vel-Edla og Vel Ehruverdugur Biskupeñ i Skaalholts Stifte, Saal: Mag: Jon Vidalin, haft sitt Miñe, Hvørs vegna hañ hefur giørt i Miñing JEsu Christi Piinu, Sex Predikaner, sem þier Vinsamlege Lesare, koma nu fyrer Siooner. Eñ af þvi hañ endtest ecke til, (sem eg hefe vænt, hañs Asetning vered hafa) ad laata hinum Sex filgia þa Siøundu, hefe eg hana tilsett; Og epter Ost Vel-Edla Frur, Mad: Sigriidar Jons-Doottur, Miins Saal: Collegæ Epterlifande Eckiu, þessar Predikaner a Prent utganga laated: Eñ þu O Herra JEsu Christe, sem miñtest vors þunga Prældooms-Oks, under hvert þiins Riettlaata Fødurs breñande Grimdar Reide hafde oss fært, og giørder oss med þiinu Blood-Sveita-Bade, og þeim forsmaanarlegasta Krossens Dauda, Guds Børn, þiina Samarfa og Erfingia Eyliifs Liifs, þar vier vorum aadur Reideñar-Børn, og riettkallader Erfingiar þess Eyliifa Dauda, og Andskotans Samarfar. Laat oss alldrei ur Miñe falla, þeñañ stoora Velgiørning þiins Himneska Fødurs, ad hañ til Endurlausnar øllu Mañkynenu sette þig eina Fridþæging i þiinu eigeñ Bloode, Rom. 8. Svo hañ þurfe þar eige yfer ad klaga, ad Snioореñ sie leingur a Steinunum i Mørkeñe, og Regn-Vatned reñe ei so skiootlega burt sem siin Miñing vare a

 hañs

hans Velgiørningum, Jer. 18. Helldur gief oss, ad vier ei sijdur en Moises, mindum vort Unburdarlynde og Polinmæde i Krossenum, epter þeirre Lijking, er vier sioaum a þier, sem ert þess heilaga Ziońs Fialls Eylijfur Konungur, Ps. 2. sem þig sioalfan hefur sett oss til Fyrermyndar. Gief oss vor JEsu, ad vier med vorre upplijstre Trwar-Sioon, horfum alltijd a þig, huggum oss vid þijna Bloodugu Pijnu, hier i Lijfe, og af hene ødlunst Dijrd og Farsælld Eylislega.

Þess Oskar af Hiarta allra Guds Barna Elskare og Lesarans Þienare,

Skrifad ad Hoolum i Hialltadal, Pan 26. Febr. 1722.

## Steinn Jonsson.

## Til Eptcrrettingar.

Aptan vid þessar Predikaner eru þryckter Sio Psalmar, sem ecke eru fleire i Toluńe, og i sier inebinda mestan Hluta af Pijslar-Søgu Vors DRottens, en þad hefe eg giøra lated i þvi Skine, ad Psalmarner eru vijda Hiartnæmer, en þo ecke i hvørin Hwse, sem og hins vegna, ad Einhvørium munde kuña þocknast, ad sijngia þa a þeim Sio Midviku-Døgum i Føstuñe epter Lestur Predikanana.

H. V. S.



# Bæn fyrer Priedikun.

Þu Riettviiſe og Myſkunſame Gud, hvørium eins ſkylld er þijn Giæſka og þitt Riettlæte; Hver ed hefur gefed þiñ Son i Daudañ fyrer oß, Lijflauſa Sakameñ, og læted hañ giallda þad hañ ecke rænte. Vier fæœdar Mañeſkiur føllum i Dag til Skarar Foota þiña, og medkieñum, ad vier høfum lagt ſyndugar Hendur a hiñ Saklauſa og Riettlæta, og hefur oß þad ecke noog vered, ad Illgiørder vorar hafa hañ a Gaalgañ neglt, helldur jafnvel þott vier vitum, ad þetta ſkied ſie af þiñe Alvijſu Raadſtofun til Myſkunar oß, þa høfum vier ecke heyrt þad Orded af Kroſſenum, med ſo bliugum edur Angurfullum Hiørtum, ad Miñing hañs Kvala hafe kvaled i oß Gyrndena til þeirra Illgiørdaña, er hañ Saklauſañ kvolldu, og vier høfum fært med oß marga Ovine Kroſſens under þiña Orda Heyrn, ſem eru Obættar Synder vegna Toomlætes vors og Ydrunarleyſes, ſo ſem ad ecke kiæmum vier þangad til ad miñaſt Dauda DRottens, helldur til ad endurnija hañ og ſpotta med toomre Lijkamans Hegdan, eñ ecke til ad Elſka hañ af Gnægd Hiartans. Og hvørt Straff er þa Offtoort fyrer oß DRotteñ, ſem þañig høfum trodeð Guds Son under Footunum, og Sættmaalans Blood Almeñelegt hallded? Ei ad ſijdur vor Gud, þa er þetta þijns Eingetens Sonar Blood vort einaſta Trauſt. O! læt þad ſætta oß vid þig

 DRott

DRottenn minn. Hvar fyrer uthellte hann þvi? Alleina til ad giora syndugա Menn hoolpna. Ecke kann Fiollde Syndanna nie Stærd þeirra, ad giora þad Ogyldt, sem þu hefur sialfur ætlad oss til Skulldalukningar, þvi þad er Guds Blood, sem er meire Hiarta voru, er fordæmer oss. Og i þeirre Von, ad þijn Giæska mune uppgiefa oss Sekternar: Pa beigium vier Knie vor i Nafne DRottens JEsu Christi, og drepum oss nidur a Footskor þijna, HErra; Laat ecke þijns Sonar Blood Vanmaattugt verda a oss Syndugum Ormum, og veit oss ad so sem oss eru margar Synder fyrergiefnar; So meigum vier og elska, ad þvi Leite vier finnum til þinnar Reide DRottenn, enn hylium oss þo i Biargskorunum. J þijns Sonar blessudum Undum vilium vier hylia oss, a medann hun framm hia geingur, og nær vier nu so funded hofum Hitann af henne, ad hun kiemur ut a oss Taarunum: Pa gief ad vier so meigum þvo Hiarta vort i þeim, ad þad þess hæfelegra sie til ad verda þveiged i JEsu Bloode. Veit oss nu Styrk þijns Anda til þess, ad vier so minnunst Kvala þijns Sonar a þessum Fostu-Tijma, ad þu alldrei framar vilier minnast Jllgiorda vorra; Og gief þessu þijnu Eyrende Framgaang.

Bænheyr þad fyrer JEsu Arnan og Medalgaungu.

Fader vor, etc.

* * * * * *
* * *

# Bæn epter Predikun.

Þier þockum þier Herra JEsu Christe, sañur Gud og sañur Madur, ad þu med þiñe heilogu Pijnu og Dauda, og blessadre Bloods Uthellingu, hefur Endurleyst oss aumar, syndugar og fordæmdar Mañeskiur, an allra vorra Verka, Forþienustu og Verdugleika. O! HErra JEsu Christe, hvorsu stoor hefur þijn Pijna vered, og hvorsu þung Kvol og Pijsl þad hefur vered, Hvorsu margfallda Neyd hefur þu lided, Hvorsu diupar eru þijnar Under og Beniar, Hvorsu beiskur og saar þiñ Daude, Hvorsu Oseigiañleg er þijn Elska, med hvörre þu hefur sætt oss vid þiñ Elskulegañ Fodur, þar þu sveittest þeim blooduga Sveita vid Fialled Oliveti, af þeirre Daudans Angist; So Blood-droparner hrundu a Jordena, og þar þu varst af öllum þijnum Lærisveinum yfergiefeñ, og gafst þig viliugañ i Hendur þeirra leidu Gydinga, og þess Ogudlega Skara, hvörier þig þvijngudu hardlega, og leiddu þig bundeñ, an allrar Vægdar, fra Einum Ranglaatum Doomara til Añars, hvar þu varst falsklega aklagadur, hræktur og hardudlega svijvirdtur, og med Hnefum sleigeñ i þijna Asioonu, Vegna vorra Misgiörninga varstu særdur, og fyrer vorra Synda-Saker varstu sleigeñ og Hwdstryktur, med Þyrnum Koronadur og hryggelega utleiddur, so sem eirn slæmur Ormur, sa ecke er neinum Mañe

 lijkur,

lijkur, þvi þu varst þiñ allra Fyrerlitlegaste og aud-virdelegaste, fullur af Kvøl og Kraᴂnkleika; So Heidens Mañs Hiarta hefur eirneñ aumkad sig þar yfer, og sagt: Siaed hvilijk Mañeskia þad er. Þu varst fyrer vorra Misgiorninga Saker a medal Tveggia Spillvirkia reiknadur, og so sem ein Bølvan uppheingdur, og med Nøglum stungeñ i giegnum Hendur og Fætur, Þar ad auke i þijn-um Þorsta, med Galle og Edike dryckiadur, og med storre Kvøl hefur þu uppgiefed þiñ Anda, so ad þu betalader vora Skulld, og ad vier yrdum fyrer þijnar Beniar Heilbrygder. Fyrer þessa þijna Pijnu, og alla adra Kvøl og Piᴂning, Seigium vier þier Lof og Packer, og bidium þig, ad þu lᴂt-er þessa þijna heilogu og beisku Pijnu, ecke vera skie-da oss til Onijtes, helldur ad vier huggum oss vid hana af ollu Hiarta, og hroosum oss af heñe, og Hugleidum hana so, og fyrer oss vyrdum, ad all-ar vondar Gyrnder i oss verde nidurþricktar og ut-slecktar; Eñ þar a moote meige allar goodar Dyg-der i oss iñplantast og aukast. So ad vier deyum fra Syndunum, eñ lifum Riettlᴂtenu, og epter-fylgium þier, sem oss ert settur til Fyrermyndunar, og gaungum i þijn Footspor, og umberum hid Bonda med Poleñmᴂde, og lijdum Oriettindeñ med goodre Samvitsku. Fad-er vor, etc.

* * * * * *
* * *

Fyrst-



# Fyrsta Midvikudags Predikun i Føstu.

## Textenn.

OG þa þeir høfdu Lof-Saungenn sunged, gieck JEsus wt sem hann var vanur, yfer umm Lækenn Kedron til Fiallsins Oliveti. Enn hanns Lærisveinar fylgdu hønnum epter. Pa sagde hann til þeirra: A þessare Noottu munud þier aller hneixlast a mier, þviad skrifad er: Hyrderenn mun eg slaa, og Sauder Hiardarennar munu i sundurtvistrast; Enn nær eg rijs upp aptur, þa mun eg gaanga fyrer ydur i Galilæam. Petur svarade og sagde til hanns: Po aller hneixle sig a þier, þa skal eg þo alldrei hneixlast. JEsus sagde til hanns: Sannlega seige eg þier, ad i Dag ædur enn Hanenn galar Tvisvar, muntu afneita mier Þrisvar. Enn hann, Petur, talade þa enn

frekar, Jaa, þo eg ætte ad deya med þier, þa skal eg ecke Afneita þier. Slijkt hid sama søgdu aller Læresveinarner.

Þa kom JEsus med þeim i þad Akur-Gierde sem hiet Gethsemane, þar var eitt Gras-Gardur, þar gieck JEsus iñ og hañs Læresveinar, Eñ Judas, sa ed sveik hañ, visse og þeñañ Stad, þvlad JEsus safnadest opt þangad med sijnum Læresveinum. Þa JEsus kom i þañ Stad, sagde hañ til siña Læresveina: Setied ydur hier a medañ eg fer burt og bidst þar fyrer. Bidied so ad þier falled ecke i Freistne.

Og hañ took med sier Petrum og Jacobum og Johañem, þa tvo Sonu Zebedæi, og took til ad hryggiast, titra af Hrædslu og Harmþrungeñ ad verda, og þa sagde hañ til þeirra: Mijn Saala er hrygg allt i Daudañ, blijfed hier og vaked med mier.

Og hañ sleit sig i burt fra þeim, og gieck litlu fram̃ leingra nær einu Steinsnare, og kraup a Knie, fiell fram̃ a sijna Asioonu til Jardar, og bad: Ef þad møgulegt være ad su Stund hiaa sier lide, og sagde: Miñ Fader, Ef møgulegt er, þa vijke þesse

Kaleikur

Kaleikur fra mier, Abba Fader miñ, allt er þier møgulegt, Tak burt þeñañ Kaleik fra mier, Þo ei hvad eg vil, Helldur hvad þu villt. Og hañ kom til síña Lærefveina, og fañ þa Sofande, og ſagde til Peturs: Simon, Sefur þu? Formætter þu ecke eina Stund ad vaka med mier? Vaked og Bidied ſo þier falled ecke i Freiſtne. Andeñ er Reidubueñ, eñ Hollded er veikt.

J Aña d Siñ gieck hañ eñ burt aptur, badſt fyrer, talade þeim ſømu Ordum, og ſagde: Miñ Fader, Ef þad er ecke møgulegt ad þeſſe Kaleikur vijke fra mier, utañ eg drecke hañ, þa verde þiñ Vilie. Og hañ ſnere aptur, kom og fañ þa eñ Sofande, þviad þeirra Augu voru þrungeñ af Svefne, og þeir viſſu ecke hvøriu þeir ſvørudu hønum. Og hañ ſkilde vid þa, og gieck burt aptur, og bad i Pridia Siñ med ſømu Ordum, og ſagde: Fader, Ef þu villt ſo, þa tak þeñañ Kaleik fra mier, þo ecke miñ, helldur verde þiñ Vilie. Eñ hønum byrteſt Eingell af Himne, ſa ed ſtyrkte hañ. Og þa hañ var ſtaddur i Daudans Strijde, took hañ ákaflega ad bidia. Eñ hañs Sveite vard ſo ſem Blood-Hniklar,

þeir ed fiellu a Jørdena. Og hañ stood upp fra Bæneñe, og kom til siña Lære-sveina i þridia Siñ, og fañ þa Sofande wt af Hrygd, Og sagde til þeirra: Sofed þier nu þad epter er og hvijlest. Hvad Sofed þier? Þad er noog, standed upp og bidied, so þier falled ecke i Freistne. Siaaed sw Stund tekur ad naalgast, og er komeñ, ad Mañsens Son mun Ofurseliast i Syndugra Hendur, Standed upp og gaungum hiedañ, Siaaed, saa ed mig Svijkur, hañ er i Naand.

## Exordium.

MArgt er lijkt med Skylldum, seiger Ordshaattur gamall: Þad lesum vier um̃ David Konung, ad þegar hañ flude fyrer Ofrijke Sonar sijns Absalons; Þa hafe hañ geinged fra Jerusalem, yfer um̃ Lækeñ Kedron, med huldu Høfde graatande, og hañs Þienarar fylgdu aa epter hønum. 2. Sam. 15. Eñ i Andverdre Pijslar-Søgu DRottens JEsu Christi Sonar Davids; er hañ gieck yfer um̃ hiñ sama Læk Kedron, til Vidsmiørs-vidar Fiallsens, þa heyrum vier, ad hid Saklausa Guds Lamb, sem bored hefur Veralldareñar Synder, geingur hiñ sama Veg, og þad Høfuded, sem er Þusundsiñum biartara eñ Sooleñ, var huled med Nockurskonar Sorgar-Skije, i þeim svarta Myrkraña Dal vid Oliveti, þar hañ so sem ad Afsijdes lagdre þeirre Konunglegre Tign, sem hañ aatte i Upphafe hiaa sijnum Fødur, andvyrdte sialfañ sig, og giørdest Madke eñ ecke Mañe lijkur. David gieck graatande a sijnum Flotta; Eñ hvad nærre ad Sorgeñ hafe geinged Hiar-

ta

ta Frelsarans, þad giesur hañ til Vitundar i Grasgarden-um, seigiande: Meyn Saal Er Hrygg Allt i Daudañ. Absalon villde ei lida Stioornan Fodur sijns, hvør Ofmetnadur sieppte hønum i þa Olucku, ad hañ liet sier ei nægia, ad vera Kongjens Sonur, helldur villde brioota sig til Rijkes. Absaloni voru Ogudleger Gydingar lijker, þeir ed søgdu: Vier viliumm ei læta þeñañ Drottna yfer oss, Luc. 19. Absaloni var Adam lijkur, hvør ed fyrer Skøpunena var Guds Sonur; Eñ fyrer Høggormsens Raadleggingu villde verda Gude lijkur, Gen. 3. Og vard so fyrer Metnadar-Gyrndena Ormenum lijkur; Hvar fyrer hiñ Añar Adam, sem er DRotteñ af Himnum, hañ giørdest einum Madke, og ecke Mañe lijkur, Ps. 22. Absaloni er ecke Einasta Adam lijkur, helldur og hañs Nidiar, aller þeir ed eige vilia skipast under Guds Stiornan, edur leidast læta af DRottens Anda; Þeir ed seigia: Vier erum Herrarner og viliumm ei hlaupa epter þier, og hafa so Oted i sundurbroted, Jer. 5. Þessar Landrææda-Saker, bar hiñ Eingietne Sonur Guds hier yfer uñ Kedron, og fyrer vorrar Ohlydnes Saker, sem kolludumm Gud vorn Fodur, Eñ ræntum hañ þo sijnnur Heidre, þa giørdest hañ Fødurnum hlijdeñ; allt til Dauda, Jaa, allt til Krossens Dauda, Phil. 2. Achitophel sem var Raadgiafe Davids Konungs, hañ sat a Svikrædum vid Herra siñ; So skiede þad og vid DRotteñ vorn; Hañs eigeñ Lærisveirn, hañs Vinur, sem æt og drack med hønum, hañ giørdest Forgaungu-Madur þeirra er sviku hañ. David var hlijdugur Gude og hañs Poleñmæde var mikel, er hañ sagde: Ef DRotteñ hefur Lyst til mijn, þa lætur hañ mig koma aptur og sian miñ Bwstad; Eñ seige hañ so vid mig; Eg hefe ecke Pocknan a þier, siaa, þa er eg hier, giøre hañ vid mig, hvad hønum lijkar. Hvad skulum vier seigia uñ hina Oumrædelegu Hlijdne Lausnarans? Þegar Sorgeñ gieck allt iñ ad hañs Saalu, og Mañlegre Nattuuru toot til ad myklast Ofbod Helvijtes Kvala, þa

Andvarpade hañ i Himeneñ med hiñe mestu Hoogværd, seigiande: Fader; Ef Pad er møgulegt, þa tak fra mier þeña Kaleik, þo eige miñ, helldur verde þiñ Vilie. So er nu vor JEsus, David i øllu þessu nærsta lijkur; Eñ hvad miklu skielfelegre Pijsl, ad hafe DRotteñ vorn kvaled, eñ David; Pad vilium vier i Tveimur Smæagreinum Hugleida ut af Textanum: Og i Drottens Nafne høndla i hiñe Fyrre um JEsu Reynsubuning og Ferdalag til Fiallsens Oliveti. Eñ um hañs beisku Kvøl og Piæning i Grasgardenum i hiñe Sijdare. Eñ þu HErra JEsu, sem allt þetta leidst oss til Sælu-hiaalpar og Myskunar, styrk oss i þessu Verke med Krapte þijns Anda, Fyrer þijna Forþienustu, Amen.

## Utleggingeñ.

HAA DEJR HØFDU LOFSAUNG-ENN SUNGED, Seigia Gudspiallameñerner: Ad søñu visse Lausnareñ allt þad yfer hañ ætte ad koma, Joh. 18. Ecke var hønum þad Okuñugt, ad ælyktad var i þeirre Himnesku Raad-Stofu, ad hañ skyllde Ofurseldur verda i Syndugra Hendur, og hvad herfeleg Pijna þad verda munde, þeckte hañ giørla, þvi hañ visse alla Hlute, sagde Petur Fordum: Hvørrar skielfeleg Miñing ad miøg so nærre hefur geinged hañs Hiarta, þegar hañ sææm Døgum ædur eñ þetta skiede, Iñreid til Jerusalems Borgar, um þeña sama Veg med Vegsemd mykille, og Fognude þess Foolksens sem æ epterfylgde, og hroopade Hosiaña Syne Davids, Blessadur sie sæ sem kiemur i Nafne DRotteñs, Eñ hañ Andvarpade siælfur og sagde: Mijn Sæala hryggest i mier, og hvad

Hvad skal eg giora? Fader, hiaalpa mier af þessum Tijma, Joh. 12. Enn þo hann visse allt þetta, samt gleymer hann ecke sijnum Himneska Fodur Packer ad giora. Þegar hiner Ogudlegu Gydingar med Juda vóru ad Raadslaga umm Nætur-Tijma, hver nig þeir skylldu hann af Døgum raada, og hann visse alla þeirra Raadagiord, þa var su hans Ydia, ad Lof sijngia Gude og Fodur. Umm Svanenn er þad Ritad, ad hann sijnge hvad fegurst, adkomenn Dauda. JEsus vor Brwdgume er Einum Svan lijkur, hans Rodd er Pusundsinnum fegre enn Svana-Saungur, Pad er Evangelij Predikun, og sa Hlioomurenn sem wt er geingenn umm alla Heims-Bygdena, og þoott ad oss ætte Brwdgumans Raust jafnann fogur ad þykia, Christner Menn, þa mætte hun þo hvad best laata i Eyrum vorum a Deyanda-Deige, þar Evangelij Lærdoomur og allt Guds Ord tekur allann sinn Krapt og Megn af hans Vanmætte, i hans Dauda-Strijde, so þad fyrer hans bitru Pijnu og Dauda-Skulld, verdur Kraptur Guds til Saaluhiaalpar øllum þeim sem trwa: Med þessum Lofsaung hefur DRottenn giefed oss Eitt blessad Dæme, til ad þacka Gude, bæde fyrer Medlæte og Mootlæte. Hvorsu brennheitur Ofn meinar þu Christenn Madur, ad Guds Heiptar-Reide vered hafe hans Eingietnum Syne, þar hann sveittest Bloodenu, og hans Saala vard hrigg allt i Daudann: Enn ei ad sijdur aadur hann gieck til þessa Bads, þa sijngur hann Lof sijnum Fodur.

Vilier þu nu vera hañs Læresveiñ, þa giør slijkt hid sama. Hvad kom DRottne vorum til ad audvyrda so sialfañ sig i þijnu Hollde? Hvad þrijste honum til ad þola Kvøl og Krossens-Dauda, þa hañ mætte vel Sælu hafa? Hvad añad eñ hin Guddoomlega Elska med hvorre hañ þig Elskade, þa þu eñ varst hañs Oviuur: Elldur Kvalaña var ad søñu heitur, eñ þo sie eg hier, ad Elldur Elskuñar yfergnæfer hañ: Helvijte kuñe alldrei ad verda so kroptugt til ad pijna þiñ Brwdguma, ad hañs Guddoomleg Elska til þijn (sem þo hafder drygt Hooraner med mørgum Elskhuga) ad hun ei yrde kroptugre til ad vilia þiña vegna lijda: Gud er øflugre i þvi Gooda eñ Andskoteñ kañ ad verda i þvi Vonda. Elskañ til Syndugra Maña i Gude, er heitare i siñe Kynslood, helldur eñ Straff Syndareñar, sem er Daudeñ i siñe: Pad sie eg a Christo, þar hañ seiger: Verde þiñ, ecke miñ Vilie. Ef nu ad hañs Eiska var so mættug i hiñe bitru Pijnu til þijn, ad hañ jafnvel giorde Gude Packer fyrer þad sem hañ leid Saklaus, Kañ þa ecke þijn Elska til hañs so myked ad megna, ad þu þoleñmood lega lijder þad þu fyrer þijnar Synder lijdur, og hiñ kallar þo ad þu lijder siña vegna? O! hvad sælañ maa eg David kalla, sem midt i sijnum Mootlætingum sagde? Po Lijf og Saal vanmegnest, þa ertu samt mitt Hiartans-Traust og Hlutskipte. O! hvad farsælañ Job, er talade þessum Ordum: Po ad DRotteñ deyde mig, vil eg þo samt vona

æ hañ. O! hvad sæla JEsu Christi Postula', hvorier er þeir Hwdstrykter, Kvalder og Kross-fester voru, hielldu þeir þad hina mestu Sæmd, ad meiga lijda allskonar Hrellingar Christi vegna. Þegar JEsus gieck wt af Herbergenu, þa var Noott, þvi Johañes seiger, Joh. 13. Ad þa Judas gieck wt, hafe Noott vered, og er hañ kom i Gethsemane, kom Judas med Blisum so sem æ Noottu: Af þessu kiemur mier i Hug, ad bañad var ad gaanga wt þa somu Noott, sem Paaska-Lambed var eted, so ecke fiellu Meñ i Hendur Fordiarfarans, Exod. 12. Eñ DRottem JEsus, uppæ þad hañ audsijnde sig ad vera þad Saklausa Guds-Lamb, sem ber Heimsens Synder, þad sama Paaska-Lamb, sem slatrad er i fraa Heimsens Upphafe: Vort Paaska Lamb sem fyrer oss er Foornfært, hañ gieck wt þa somu Nott er hañ hafde Paaska-Lambsens neytt, til þess ad giefa sig viliande i Hendur Forrædarans. Þegar DRotteñ var wt af Herbergenu geingeñ, þa seiger Sagañ: Ad hañ hafe geinged yfer uñ Lækeñ Kedron: Hañ rañ epter þeim Dal, sem liggur æ millum Jerusalem og Fiallsins Oliveti. Yfer uñ þeñañ Dal gieck JEsus fraa Jerusalem til hiñar fyrstu Orustu, sem hañ hæde vid Daudañ: Sa Dalur var miog Ofrægur, hañ var Gehenna nefndur. J honum voru Hræ Odaada-Maña til Osku brend, og þau Saurende er wt voru boreñ af Jerusalem, og med þvi Nafne var Helvijte æ Stundum teiknad: So seiger

DRottenn, talande þo epter Mannlegum Plagsid, hvad myked ad gyllde jafnvel hinar minnstu Synder fyrer Guds Doome, (Hann seiger) Hvor sem seiger vid Broodur sinn, Pu Vitfyrringur, hann er sekur Baals Gehennæ, Matth 5. O! HErra Gud, Skule nu Reikningskapur gioraſt fyrer hvert Onytiu Ord i Doomenum, hvad Obæreleg munu þa verda øll Reide-Yrde, Spott-Gloosur, Bryxle, Bakmælge, Smaanar-Ord, Roogur, Lijge, Jllmæle og Flaattskapur, ad hvorium Synduger Menn leika sier eins og ad odru Table? So audvitad er, ad vier vorum alleina þess vegna, ecke Einunges Tijmannlegs Ellds-Loga verduger, helldur og Guds ſaarheita Reide-Ellds, sem brennur allt til nedsta Helvijtes, Devt. 32. Þess vegna er þa JEsus i giegnum Gehenna geingenn, til ad laata sig Fiotra af Ogudlegum Skaalkum, so vier skylldum ecke bundner aa Hondum og Footum verda Ofurselldder Kvolurunum og vtſnarader i hin ystu Myrkur, hvar vera mun Op og Tannagnijſtran. Hvad skulum vier seigia Born mijn? Hvad eru Synduger Menn annad enn eitt lifande Hrææ, eins Obootamanns sem hefur fyrergiort Fie og Fride vid hinn Riettlaata Doomara? Hvad eru þeir ed Yrdrunarlauſt i Syndunum framfara, annad enn Uthreinsun af Jeruſalem, þad er af Christelegre Kyrkiu, Eitt Avaxtarlauſt Trie, sem ei duger nema til ad upphoggvaſt og i Elld kaſtaſt, Matth. 3. Eitt Hey-Straa, sem til alls er Onijtt, nema i Ofnenum ad upp-

uppbreñaſt? Hvad añad, eñ Pyrnar og Pyſtlar, hvorier Bølvaneñe eru nalæger, og hvorra Enda lok eru afbrender ad verda, og þad i Eilijfum Hel-vijtes Loga, Heb. 6. Eñ JEſus hefur i Gehenna bruñed i Ellde Gudlegrar Reide, ſo hañ frelſte oſs fra þvi Eilijfa Gehenna, og Oendañlegu Helvijtes Baale. Þar voru Hræeñ uppbrend, ſem ſtrax ſagda eg, eñ vier vorum fyrer Vanſkøpun Synd-areñar dauder i heñe, Rom. 5. Og lifande Hræ-um lijker ordner, Þar allt Høfuded var ſiwkt, allt Hiartad veykt, fra Hvirfle og allt til Ylia, var þar eckert nema Saar, Benjar og Prote, Eſa. 1. Þvi hefur nu Sonur Guds lifanda, gegnum þeña Vid urſtyggelega Reit daudra Beina geinged til ſijns Dauda-Strijds, og er vorra vegna ſo ſem Eitt Hræ wtſnaradur. O! HErra Gud, Hvorneñ er hiñ Fegurſte a medal Mañaña Sona wtleikeñ herfelega, Vier ſaaum hañ ſeiger Eſajas, Cap. 53. Og þar var eckert Alit ad vier gyrntuſtum hañ. Hañ er burt kaſtadur medal Mañaña, og Madur Hørmungaña ordeñ, Forſmaadur er hañ, og vier koñuduſtum ei vid hañ framar. Þeſſe Dalur var og ſo Tophet kalladur, og hefur hañ þad Nafn af Ordenu Toph, hvort ad Trumbu merker, þeirrar Ordſakar vegna, ad þegar Heidingiar Offrudu Børnum ſijnum Moloch i þeſſum Stad, og bren-du þau lifande i Fadme hañs, þa uppa þad, ad For elldrunum ecke Ofbiooda ſkyllde Vein Barnaña, þa lietu þeir Trumbur ſla: Þetta giefur mier Or-

sok til ad Hugleida þad, ad vier høfum allt of-myk-ed Mañ-Bloot giort Andskotanum, og allt of-dautt sadmad Diøfuleñ, og elskad hañs Alþæse, eñ kast-ad Guds Elsku og hañs Bodum a Bak oss apt-ur, so nærre hefur leiged tijtt og opt, ad Saal og Lijf mundu standa i biørtu Baale, þar fyrer høfum vier og forþienad Eilijflega ad Foornfærast i þeim swla Ilfrunar-Dal, hvør ed rijkur af Ellde og Breñe-steine, og þad ei til Sætleiks-Ilms, helldur ad kæ-la Guds Reide, so sem seiger hiaa Ezech. 16. Eñ IEsus er þeigiande geingeñ i giegnum Tophet til ad Foornfæra sialfum sier Gude, so vier skylldum ecke Eylijflega enna i Helvijte, Honum sie Prijs og Vegsemd ad Eylijfu, Amen.

Hvad þvi Sijdara vidvijkur, þa høfum vier fyrst ad athuga, ad Gudspiallameñerner seigia: Ad Christur hafe geinged iñ i eirn Alldengard, sem hiet Gethsemane. Adam var settur af Gude i eirn All-dengard, i allskonar Sælu, hvøria hañ braut af sier med Oleiselegre Nautn af þvi Trienu sem hon-um bañad var, Gen. 3. Þar fyrer vard hid saña Lijfsens Trie, hvørs Blod ad gagna til Lækningar Heidingiaña: Þad vard plantad i Alldengarden-um, þegar hañ laa flatur a Jordu og þolde allskon-ar Hørmung, ad hañ afrekade oss Eilijfa Sælu, og eirn Arf a Himnum, sa ed ecke maa skemast, og ecke saurgast og ecke rotna. Í Exodi 24. Lesum vier, ad þegar Moyses gieck uppa Fialled fyrer Gud, þa liet hañ þa 70. Olldungana epter vid Fialls-Ræt-

urnar,

urnar, Eñ took med sier þa þriar, Aaron, Nadab og Abihu, eñ gieck so sijdarst allra Alleirn iñ fyrer DRotteñ i Elldeñ: Ei er JEsus i þessu Moysi Olijkur, og er þad hier medal añarra rætt, sem hañ hafde ædur fyrersagt, ad Spaamañ munde Gud uppvekia þeim af Brædrum þeirra lijkañ sier, þegar hañ iñgieck i sijns Himneska Fodurs breñande Reide-Elld i Grasgardenum, til ad forlijka fyrer þær Syndernar sem moote Moysis Logmaale giordar voru, og gioraſt mundu, þa tekur hañ med sier Petrum, Jacobum og Johañem, Eñ sijdarst allra geingur hañ alleina i hid bitra Daudans Strijd, sem þad alleina kuñe ad wtstanda. Hañ alleina lagde siñ Hrigg under Guds Elldlegar Reide-Svipur, sem alleina hafde þær ecke forþienad: Hañ alleina drack hiñ Fleite-fulla Guds Reide Kaleik, i hvorium honum alleina Velþocknast, Matth. 3. Hañ gieck alleina Assijdes i Alldengardenum, sem alleina hefur Vijn-Pressuna troded, og þar var eingeñ af Foolkenu medur honum, Esa. 63. Eñ hvilijka Vijn-Pressu Christner Meñ? Vier vilium strax siaa, hvorsu miked þad hefur kostad hiñ Frum getna, ad lita siñ Mottul i Vijn-Beria Bloode, Gen. 49. Hañ took til ad hryggiast og skiælfa og Harmþrungeñ ad verda. Vidlijkt wtmæla Guds-spiallameñerner þessa skielfelegu Daudans Angist, so sem þa nockur tekur hastarlega Bana-Soott, og þar er eingeñ Lijfs-Von framar, hvorier med sterku Ofboде plaga ad slijtast i sundur, Lim fra Lim allt

til

til Daudans, hvad ecke er ad undra a þeim sem ad Syndareñar vegna eru Soottum og Siwkdoomum undervorpner, Eñ ad hañ sem er ꜳn Synda gieteñ og fæddur, hañ sem er Gud alleina sæll, hañ i hverium ad bioo øll Fylling Guddoomsins Lijkamlega, ad hañ skyllde wt af hiñe bitru Daudans Angist titra og skiælfa, sokum uppꜳlagdra Synda, fyrer hvoriar Dauden er iñkomeñ i Heimeñ, þad er undarlegt frañ yfer alla Hlute. David seiger: Ad þegar Israel gieck wt af Egypto, þa hafe Fiolleñ dansad fyrer Gude, so sem Sauda-Hiørd, og Hæsarner stocked upp, so sem hin ungu Lombeñ. Eñ hier meigum vier siꜳ, ad hañ Jskæddur voru Hollde, sem þesse Stoormerke giørde, Hañ siælfur tekur til ad skiælfa, og Harmþrungeñ ad verda. Esajas seiger: Ad hañ sie so sterkur, ad hañ veige Hæsana og Fiolleñ a Vigt, og iñelyke Siꜳfar-Hafed i sijnum Hnefa. Eñ hier er hañ þo so Vanburda orden wt af Megne Kvalaña, ad hañ fellur frañ a Asioonu sijna. Pad lesum vier vijda hia Gudspiallamøñunum, ad þa hañ beiddest fyrer, hafe hañ Augu sijn til Himens hafed, Eñ hier hefur hañ ecke Mꜳtt edur Megn til, Uppriettur ad standa. Hier liggur þad saña Forlijkunar Offur a einu Jard-Alltare, sem Moyses umgietur, Exod. 20. Einglaña DRotteñ liggur flatur a Jordu, og beiger sig samañ af Hørmung, eins og eirn Madkur, Ps. 22. Og hañ sem talar eitt Ord, og þa skiedur hvad hañ seiger: Hañ fær ecke

ecke med morgum og heitum Bænum, Lausn fra hinum swra Kaleik: Og er hier af audsied, hvad Synden munde hafa orded Obæreleg ollu Holl-de, þar han sem ber alla Hlute med Orde sijns Kraptar, Han verdur so Vanburda under hene fyrer uppaulagda Syndaña Byrde. Mijn Saala er hrygg allt i Daudan, seiger Lausnaren: J Lofkvæd-enu seiger han: Ad Elskan sie sier so sterk sem Dauden, Hier verdur honum Hrygden þung in til Daudans. Þetta Ord, Allt til Daudans, merker so stora Angist, ad hun sie Reidubuen ad taka hans Lijf af honum; Sama Ord brukar Paulus um Epaphroditum, ad han hafe vered sinkur allt til Daudans, Phil. 2. Þad er, Daudsiukur: Og um Ezechiam seiger Esajas hid sama, Esa. 38. Jonas sagdest vera reidur allt til Daudans, þar han vard sokum Angurs og Oþarfrar Vandlætingar so reidur, ad han villde helldur deya, en lifa. En Frelsaren, sokum breñande Elsku til Syndugra Maña, han vard Hryggur allt til Daudans, þvi hn var Reidu buen ad giefa sitt Lijf wt fyrer sijna Saude.

Mijn Saal er hrygg, seiger Lausnaren: Hvar af vier siaaum hans sañan Mañdoom, ad han hefur ei sijdur funded til Saalar og Lijkamans Hörmungar, helldur en adrer Men: Þvi kallar og Paulus han Freistadan a allan Hatt lijka sem oss, þo aan Syndar, Hebr. 5. Ei i þeirre Meiningu, ad i Christo hafe vered nockur Ofullkomlegleike, þo hans Saala hrygg giordest, helldur va-

rd hans Endurlausnar Embætte, þar fyrer full-
komnara, þvi fyrer siina Hrygd, hefur han wtveg-
ad oss Eylijfa Glede. Vier hryggiumst giarnan
nauduger, han Olldunges viliugur: Vier fyrer
vorar eigen Synder, Han fyrer Annarlegar: Vor
Hrygd forblyndar Skynseme vora, Christur
hrygdest epter Raade sinar Alvitsku: Vor Hrygd
er ætijd blondud med Synd, Christur var allur
aan Syndar: Vorar Tilhneigingar standa i gie-
gn Gude, Christi Tilhneigingar giordust Fodur-
num hlijdugar, in til Daudans, Og so sem eingen
tekur hans Saalu fraa honum, helldur leggur han
hana siaalfur fraa sier, so hrygger og eingen hans
Saalu, aan hans Vilia. En epter þvi vier med
Tilhneigingunum, sem hvad mest eru Bwstadur
hinar Syndumspilltu Naatturu: Vier hofdum
med þeim allra hellst Gud stygdan, Pa byriade
Christo ad lijda aa hans Allra Heilogustu Tilhneig
ingum, Po aan Syndar, so vorar yrdu hreinsad-
ar. Mina hefde han veitt oss, hefde han ei Hrygd
ena lided, han er þar fyrer vor vegna hryggur ord-
en, ad han hafde eckert til Hrygdar fyrer siaalfan
sig. Han villde ecke aa medan hafa Unadsemd,
af Fagnade Guddoomsens sem i honum bioo, ad
han kyne hryggur ad verda, og sampijnast vorum
Eymdum. Han villde Hrygd hafa i voru Holl-
de, ad vier i honum hefdum Eylijfa Glede. Han
gieck eirn Hrygdar-Ferel allt til Daudans, so ad
han þar med leidde oss til Eylijfs Fagnadar aa

Veg Lijffsens. Hønum byriade Hrygdena ad sig ad taka, ad hañ ecke fære ad Mis vid, helldur sig=rade Hrygdena. Pu ert hryggur orden O! HErra fyrer vorar, eige fyrer þijnar Synder, eige Saker þijns Dauda, helldur vors Veikleika, Pier sie Lof, Heidur og Packer ad Eylijfu, Amen.

Framar stendur i Textanum: Hañs Sveite vard sem Blood=Dropar þeir ed fiellu ad Jordena. O! HErra Gud, hvør hefur þvilijkt heyrt? Hvør vill nu ecke med Bloodugum Taarum medkieña þad satt ad vera, sem Esajas fyrerspaaer, Cap. 53. Sañlega bar hañ vorn Siwkdoom, og hlood ad sig voru Kraankdæme, vorra Synda vegna er hañ sleigeñ, og Hegningeñ hefur ad hønum leiged, ad vier hefdum Frideñ, og fyrer hañs Beniar erum vier Heilbrygder ordner. Meñ vita, ad þegar eirn Erfidar Kappsamlega, þa dynur Sveite af hañs Lijkama: Hvilijk Ofraun mun þa hafa kvaled Saalu vors Frelsara? Par hañ hrærde sig ecke, helldur laa framfalleñ ad Jordu, ad hañ sveittest Bloodenu: Meñ vita, ad þeir sem eru plaagader af Bañvænum Soottum, þeir sveita ecke Bloodenu, helldur Raudlitum Sveita, sem þo er ecke Blood, helldur hefur Farfa lijkañ Bloode. Eñ JEsus var ad soñu Heilbrygdur fyrer utañ vora Siwkdooma sem hañ bar, og þau Orkumsleñ er hañ ad sig hlood; Hañs Sveite var og ei sem añarra Maña, þvi Gudspialla=Meñerner seigia, ad hañs Sveite hafe vered so sem Blood=Hniklar þeir

ed fiellu a Jordena. O! HErra Gud, þegar ad-rer Meñ lijda nockra Kvøl a Saaluñe, þa safnast Blooded ad Hiartanu, hvort ad er eins og Slot Lijkamans, hvar Saaleñ hefur siñ Bwstad sier-deiles, eins og þa eiñ Lands-Her a Ofridar-Tijm-anum safnast ad Kastalanum til ad forda sier og veria siñ Hofdingia. Eñ i JEsu Dauda-Strij-de skiedur þad ødruvijse, hier stockur Blooded, i hvøriu Saaleñ er seiger Moyses, þad stockur wt af Lijkamanum, þvi Søkum þess ad Guds Kraptur, var i hønum, so hañ giæte stadest Ofbod Kvalaña, þa hafa Natturuñar Kraptar matt vijkia, Ed-arnar sundur-þanest, og Samteingd Lijkamans glidnad, þa Gudlegur Kraptur bardest i Mañlegu Hollde, ecke Einungis vid Daudañ, helldur og vid þañ sem Daudans Valld hefur, siaed hier ydar Lausnar-Gialld, Christner Meñ, hier er sw Laugeñ, hvørre þier erud i Skijrneñe þvegner, i hvørre þier eiged ad faga ydar Skrwda, Apoc. 7. sijdañ: Hier er Guds eiged Blood, Act. 20. med hveriu hañ hefur Endurkeypt Hiord sijna, hier er Leoned af Kyne Juda, sem hefur litad sijn Klæde i Vijne, og siñ Mottul i Vijnberia-Bloode, Gen. 49. Miñ HErra JEsu, hver er saa sem kiemur af Edom, i Raudum Kyrtle, hañ sem er so Skrautlegur i sijn-um Bwninge, og frambrunar i Magt siñe, hiñe mykle, Esa. 63. Þad em eg sem tala Riettvijsena, og er Mattugur ad hialpa, seiger DRotteñ: Hvar fyrer er þitt Fat so Raudt, og þijn Klæde so sem

sem þeß, er Vijn-Preßu tredur, þviad þiñ Vijngardur vid hvørn þu hafder þo allt giort, sem Eirn kuñe ad giøra vid siñ Vijngard, Esa. 5. Hañ hefur bored þier siwr Vijnber, þar fyrer ertu iñ i Alldeñgardeñ geingeñ, Einsamall Vijn-Preßuna ad troda, og hefur litad Mottul þiñ, ecke einasta i þijnu eigeñ, helldur og i Edoms-Barna hiña Slægu, hiña Stolltu Jsraels Fiandmaña Bloode. Jord eñ var bølvud fyrer Adams Blood; So kallast Syndeñ optlega i Ritninguñe, hveriu hañ steypte yfer sitt og allra Barna siña Høfud. Eñ fyrer þiñ Blooduga Sveita, DRotteñ miñ, þa er hun oß aptur bleßud. Adams Synda-Straff var þad hañ skyllde i Sveita sijns Andlites sijns Brauds neyta, Gen. 3. Eñ fyrer þiñ Sveita, er vor Sveite og vort Erfide bleßad. Uñ Eirn Orm er þad skrifad, ad hvørn hañ bijtur, sa verde Allbloodugur: Eñ Satan hiñ Gamle Dreke og Høggormur, hañ hafde so bited oß til Bloods, ad vier laaum i voru Bloode, og vor Nable var Ouñskoreñ, og þar var eckert Auga sem Myskunade oß, þegar þu gieckst þar fraũ hiaa og sagder til vor i voru Bloode, þad vier skylldum lifa, þeß vegna ertu i einum Elld-Raudum Orme fyrermyndadur, Joh. 3. og aa Gaalgañ Bloodrisa uppheingdur, ad vor Skrwde sem af oß sialfum til var verr wtleikeñ, eñ Nidlags-Fat, ad hañ yrde fagadur i þijnu Bloode, þu Lambed Guds sem bored hefur Veralldareñar Synder: Laatum oß nu reña

nockud i Skap vid sialfa ofs, Guds Viner, hver-ra Blood-Skamer ad eru med Guds Sonar Bloode kvittadar. Hversu Ovidurkvæmelegt er nu þad, ad HErrañ pijnest, eñ Prælleñ er all-kat-ur? Christur sveitest Bloodenu fyrer vorar Synd er, Eñ vier fyrer hinar somu, er þo hafa Gud Kross festañ, Vier fellum ecke Eitt Taar af Augum vor-um, Ecke Einunges hañs Augu grietu, helldur all-ur hañs Blessadur Lijkame floode i Taarum; Eñ ofs kiemur ecke til Hugar, ad wtausa beyskum Taara-Floode sañrar Ydruñar af Hiarta voru, þegar hñs Kvol i Grasgardenum verdur ofs fyrer Augun af-maalud. Vorar Synder voru so sterkar, ad þær gaatu pressad Blooded wt af hañs Hollde; Er þa Miñing DRottens Dauda ecke so sterk hia ofs, ad hañ fare Eirn Vatns-Dropa af Augum vorum? Valla eru Hiortu vor mijkre eñ eirn Kletur, þvi Moyses fieck þo Vatn wt af Biargenu, er hañ sloo Sprotanum þar aa, Eñ Guds Ord, sem er bitra-ra eñ Tvijeggiad Sverd, þad viñur nærsta lijted aa Gedsmune sumra Maña: Eg Grætbæne ydur, þo fyrer Guds og vorrar Velferdar saker: Hug-leidum þau Ord er skrifar St. Paall, ad Jordeñ hver ed iñdreckur Regned sem yfer hana fellur, hun bere Þyrna og Þystla, hverier Bolvaneñe eru naalæger, og þeirra Endalok eru ad uppbreñast, Hebr. 6. So eru og Ydrunarlaus Hiortu, sem med heilnæmu Regne JEsu Bloods-Sveita eru aa-dreifd, eñ skipast þo ecke þar vid, þau munu ecke

laangt

lanngt frá Eilijfre Fordæmingu, og hinum sára Kvalaña Ellde, sem ecke slocknar, hvørs Reikur uppstijga mun uñ Allder Allda: Hugsum til þess, ad sá Dagur kiemur, þad vier skulum og so þreyta vid Daudañ, hvør ed vard Gude Odaudlegum so hardur, ad hañ strijdde vid hañ, og took ákaflega ad bidia, ad Daudans Skaal mætte frá sier takast. Hvad beyskur mun hañ þa verda þier, sem valla añad giører, eñ ad viña til Daudans? nema þu hafer ádur so bwed þig i Alvæpne Guds, ad hañ vilie veita þier Lid, sem Daudañ hefur uppsvelgt, hver ad er Helvijtes Dreysoott og Daudans Daude, og þu vogier i þijnu Dauda-Strijde ad seigia med Paulo, fulltruggur i Gude Heilsugiafara þijnum: Daude, hvar er þiñ Broddur? Helvijte, hvar er þiñ Sigur? Gud er sá oss hefur Sigureñ giefed, fyrer Son siñ JEsum Christum. So ad Lifa, og so ad Deya, uñ þu oss goode Gud, Eylijfe Konungur Dijrdareñar,

Fyrer hañ sama þiñ Eingieteñ

Son, AMEN.

* * *

## Auñur Midvikudags Predikun i Føstu.

Texteñ

OG Jafnsnart sem hañ var eñ ad tala um̃ þetta, siaa, eirn af þeim Tolf sem Judas hiet, þa er hañ hafde nu til sijn teked Flock Mañа, og Pienara Kieñe-Mañа Høfdinglaña og Phariseaaña, kom hañ þangad, og med hønum Flockur mikell, med Blisum, Lompum, Sverdum, Stañgum og Vopnum, wtsender af Kieñemaña Høfdingium, Skriftlærdum og Plldungum, og hañ gieck fyrer þeim.

Sem JEsus visse nu allt hvad yfer hañ aatte ad koma, gieck hañ fram̃ og sagde til þeirra: Ad hvørium leited þier? Peir svørudu hønum: Ad JEsu af Nazareth. JEsus sagde til þeirra: Eg em hañ. Eñ Judas saa ed sveik hañ, stood eirneñ hia þeim; Eñ sem JEsus sagde til þeirra: Eg em hañ, hørfudu þeir Bak aptur og duttu til Jardar. Hañ spurde þa eñ Einusiñe, Ad hvørium leited þier? Eñ þeir søgdu: Ad JEsu af Nazareth. JEsus svarade: Eg sagda ydur þad; Eg em hañ. Par fyrer, ef þier leited ad mier, þa laated þessa i burt fara. So ad uppfylldest þad Ord, hvad hañ hafde sagt: Ad aungvum glatade eg af þeim sem

ſem þu gafſt mier. (Joh. 17.)

Eñ Svikareñ hafde giefed þeim Sameigeñlegt Teikn, og ſagt: Hvørn hellſt eg kyſſe, ſaa er þad, grijped hañ og leided i burtu Vareigdarlega. Og þa hañ kom, naalgadeſt hañ JEſum ad hañ kyſte hañ, og jafnſnart gieck hañ til hañs, og ſagde: Heill ſiertu Rabbi, og kyſte hañ. Eñ JEſus ſagde til hañs: Vinur, hvar fyrer ertu komeñ? Juda, Svijkur þu Mañſins Son med Koſſe? Þa geingu þeir þaungad, og løgdu ſijnar Hendur a JEſum og gripu hañ. Eñ þa ed þeir ſem hia hønum voru, ſaau hvad verda villde, ſøgdu þeir til hañs: HErra, ſkulum vier ſlaa med Sverde? Og ſiaa, ad eirn af þeim ſem med JEſu voru og þar ſtoodu, Simon Petur, hafde eitt Sverd, riette wt Hendena, og rickte þvi, og ſloo til Preſta Høfdingians Þienara, og hioo af hønum hañs hid hægra Eyra. Og ſaa Þienare hiet Malchus.

Eñ JEſus ſvarade og ſagde: Leifed þeim ad giøra eñ frekar, og ſagde til Peturs: Sticktu þijnu Sverde i Slijdrer, þviad hvør ad Sverded tekur, ſaa mun fyrer Sverde faraſt. Eda meinar þu ad eg kuñe

ecke nu ad bidia miñ Fødur þad hañ sende mier meir eñ tolf Legion Eingla? Skal eg ecke drecka þañ Kaleik, hvørn ed miñ Fader hefur mier giefed? Eñ hvorneñ skylldu þa Ritningarnar uppfylldar verda? Þvi þad hlijtur so ad skie. Og hañ æhrærde hañs Eyra og Lægnade hañ.

A þeim Tijma svarade JEsus og sagde til Foolksins, og þeirra Presta-Høfdingia, og Høfudsmaña Mustereſins og Ølldung aña, sem til hañs voru komner. Þier erud so sem til añars Ræningia wtgeingner med Sverdum og Staungum ad grijpa mig. Daglega hefe eg hia ydur vered, seted og kient i Musterenu, og þier hafed aungvar Hendur a mig lagt, og ecke griped mig, helldur er þetta ydar Tijme og Magt Mirkrañа, so ad Ritningarnar uppfylldust. Eñ allt þetta er skied, so ad uppfyllest Ritningar Spamañaña. Þa forlietu hañ aller Læresveinarner og flijdu. Og þar var eirn ungur Mañ, sa ed hønum epterfylgde, hañ var med Lijne klæddur yfer bert Hørund, og Ungmeñe gripu hañ. Eñ hañ snarade Lijnklædenu og flijde Nakeñ i burt fra þeim.

Exor-

# Exordium.

I Fyrre Samuelis Bookar 28. Cap. Lesum vier, ad þegar Saul Konungur for til Frietta vid Galdra Konuna i Endor, þa hafe hun sagt: Eg sie Gudena uppstijga af Jørdune; Og er Saul spurde ad, hvernig hønum hœttad være, svarade hun: Ad þad være Madur nockur Alldradur i sijdum Stacke. Mœlmuren er Gud Verallðar þessarar, han er af Jørdune uppstijgen, þvi sijdan ad Mankyned ecke villde nægiast med, þad sem a hene vex og fosirast oss til Næringar af Gude gefed, þa hafa Men grafest i Ydur heñar, til ad leita epter meire Giœfu, sem þo Mørgum hefur ad Ogiœfu orded: Padan er kømed Gull og Sylfur, af hveriu sumer Men steipa Baal, so sem DRotten ad Orde kiemst fyrer Munn Spœmanñsens: Pad skedur þegar Men leggia meire Trwnad a þena þietta Leyr, helldur en hin lifanda Gud, sem bæde han og alla Verølldena skapad hefur. Ecke veit eg til þess, ad Samuel hafe Kienemadur vered, so ad Men kune þar fyrer ad seigia; Ad han hafe byrst Konn þessare i Arons Skrwda. Spœmadur var han og Doomare i Israel, Act. 13. Hitt er vijst, ad han hefur andþecktur vered af Buninge sijnum, þvi Saul kañadest strax vid, ad han være þad, þegar Konan sagde hønum fra Syn sine, hafe hun þo nockurn sied, sem Konungurin sœ ecke siœlfur, og þetta hafe ei alleina vered Prettur henar, til ad villa han Rœdlausan Man og af Gude forlœten. En hvernig sem þvi er vared, þa er eg viss þar um, ad ecke hefur Gud giefed Fiandanum Magt yfer Lijkama Samuelis, helldur hefur þetta vered Apaspil Satans og Missyningar einar, og blijder þar vel uppa, þad sem Paulus skrifar, 2. Cor. 11. Er hn talar um falska Posinla, og seiger: ad Satan umm myndest i Liwossens Eingel, þvi sie þad ei ad undra, þott hans Pienarar breyte sier so sem væru þeir Piiønar Riettlætesens. Tvo Hlute brwkar Andskoten sier i Lage til þessa; sem er, Fe og Flœttskapur: Han steiper fyrst eitt God

af Sylfre og Gulle, og sijdan bijr han þad i Skart med Samuelis Kyrtle; So kalla eg skaræda Vinættu, og Skyn Heilagleikans. Fyrer þvi er Guds Børnum vanfared, ad ei læte þaug sig locka af þvilijku Taale, til ad syndga og styggia Gud. Optlega hefur Dioſullen þenna Prett i frame hast, en þo hefur han syndt Meistara Sticke sitt a Glotunareñar Syne Juda, sem med øllum Rette kallast maa Høfdinge Fals-Postulaña, og þeirra Forgaungu-Madur, þvi skoñu epter þad, ad Dioſullen hafde giørt eirn Afgud i hans Hiarta ur þeim 30. Silfur-Peningum, er han took af Keñemaña Høfdingiunum, til ad svijkia siñ Herra, þa gaf han hønum fagran Kyrtel, þad er Blijdskapar Ord og Liufmæle, til ad fullgiøra sitt Verk, so sem framar mun sagt verda i Textans Utleggingu: Af hvørium vier vilium Tvent Hugleida. 1. Hvad vier eigum af Svikarans Dæme ad fordast. 2. Hvad vier eigum af Frelsarans Hoogværdar Andsvare ad læra. Vil þu sialfur i þijnu Orde DRottenn miñ, og læt Eingañ so kyssa þad i Dag med sijnum Eyrum, sem Judas þig kyste med sijnum skaræda Muñe: Bænheyr þad O! HErra, fyrer þijna Forþienustu, Amen.

## Utleggingen.

HVad hinu Fyrra Vidvijkur, þa hofum vier Tvent ad varast af Dæme Judæ, Sem er Agyrne og Flaattskapur. Hans Agyrne siaaum vier af þvi, ad han selde Herra siñ fyrer 30. Silfur-Peninga, og hefur Svikare þesse, hvorium Maũons-Præl heimskare vered, þar han selde han, sem allt Gull og Sylfur aa, og øll Endemerk Jardareñar fyrer 30. Sylfur-Peninga, hañ er situr og bræder og Sylfred hreinsar, fyrer so lijted Sylfur, og hid Saklausa Lamb Guds, med

hvørs

hvørs dijrmætu Bloode øll Verølldeñ er Endurkeypt fyrer so litla Femune. Priaatiju Sylfur-Peningar voru Almeñelegar Præls-Bætur, epter Løgmaalenu, Exod. 21. Og þo Utlendings, og ecke hins Jñlenda. Fyrer so Smaanarlegt Lijtelræde, er Konungur Himens og Jardar seldur, af Einum Gudlausum Odygda-Præl, og hefur hañ Blessadur i þvi hvad mest audsynt, ad hañ hafe aud-vyrdt sialfañ sig, ad Præls-Mynd aa sig tekeñe, Phil. 2. Var Frelsare allra Maña, er þo ecke so sem Friaals Madur, helldur so sem Anaudigur i burtu seldur. O! HErra, hvar fyrer ertu so Mijnkunlega seldur? Ad vier ei yrdum Kvølurunum Ofurselder. Hvar fyrer ertu so sem Eirn Præll keyptur? So þu keypter oss eylijft Vellde aa Himnum uppe. Hvar fyrer ertu fyrer soddañ Lijtelræde seldur? So ad Guds Blood sem i eiñe Pioons-Mynd var lijtels meted, þad yrde þess dijrmætara fyrer Gude: Eñ glæted þess, Christner Meñ, ad eingañ af þeim hende neitt, þad er aa nockurn Haatt sambiooda meige edur lijkiast þessu Meistara-Stycke Andskotans, þar vier høfum slijkañ Vidbiood aa þessu Dæme. Hvad giøra þa aller þeir, ed laata Oleifelega Aura-Elsku, Agyrnd og Fesykne, draga sig fraa þeim Kiærleika sem er i Christo JEsu? Hafa þeir ecke ad nockru Leite med Juda sellt sinn HErra? Vel talar Paulus hier um̃, er hañ seiger: Ad þeir ed Rijker vilie verda, falle i Dioful-fens Snørur: Eñ hvad er añad ad vera fastur i

hañs

hañs Snoru, eñ ad hafa sellt, þad er yfergiefed Christum? Sioaum hvad naakvæmlega Andskoteñ foor ad veida Judam; Ei hefur hañ Raaded hönum i Fyrstu, ad selia DRotteñ fyrer Peninga, helldur skoted hönum i Briooſt Or Gierplægneñar, ad hañ skyllde plocka nockud af þvi, sem Christs og hañs Lærefveinum lagdest til Upphelldes, þvi seiger Johañes, Cap. 12. Ad hañ hafe Piovfur vered, og bored Fie-Piingiuna. So leikur Dioflulleñ vid þa, sem giarner eru aa Fie: Hañ telur þeim þessar Tolur, þott eg gyrnest þetta, þad er eckert Stoor-Ræde, ecke Piovfnadur nockur, hier af maa eingeñ stooraȓ Skada bijda: Margur hefur meira J-raadest og hefur ei til Raanglætes reiknad vered: Eg vil ad eins siaa mig vid þeim stærre Glæpunum sem adrer fremia: Eñ þu Heimskur Madur, þu giæter ecke ad þvi, ad aadur eñ Gelltureñ vard so stoor, ad hañ giørdest Mañskiædur, þa var hañ ungur Griis, og aadur eñ eirn myrdte Mañ til Fiaar, þa stal hañ Saudnum. Andskoteñ lædest iñ i Syndarans Hiarta, eins og Purfa-Madur, eñ nær hañ er iñkomeñ, setur hañ sig i Boonda-Sæted, og rædur slijku er hañ vill, og giører Salomonis-Svipur ad Roboams-Hogg-Ormum, þar til hañ drottnar i Syndeñe, eñ Synd eñ i þess auma Mañs Daudlegum Lijkama. Nu þar ed Judas meinte ad Lausnareñ sem visse alla Hlute, hañ munde siaa i giegnum Fijngur vid sig, og lijda so Tijma Ovitskuñar, þott hañ Smaa-

Stæle,

Stæle, þa giordest hañ diarfur i Heimskuñe, hvar fyrer hañ Reiddest Mariu, er hun smurde Fætur Christi med dijrmætu Salve, þa gat hiñ bølvade Agyrndar-Ormur ecke þolad vid, og giægdest wt med Høfdenu, er hañ sagde: Hvar fyrer voru ei Smyrsle þesse seld fyrer 300. Peninga og giefed Fatækum? Joh. 12. Eige sagde hañ þad af þvi, seiger Johañes, ad hañ hyrdte uñ Fatæka, helldur sokum þess, ad hañ var Pioofur. Og allra sijdarst lagde Diøfulleñ hier Smids-Høgged a Ohæf una, og sijnde þad, ad hñ være med øllu i hñ farveñ, þar hañ kom honum til ad selia siñ eigeñ Herra: Þañeñ er nu Syndeñ, hvør ad er Andskotans Dotter: Hun er eitt friofsamt Kvikinde, þvi nær hun fædest, geingur hun Pungud med adra, hun hætter ei þar siñ hun byriar, helldur gietur af sier eirn vondañ Jñblastur, Jñblastureñ Samþycke Viliaus, Vilieñ Giorningeñ, af Giorningenum framkiemur Uggaleysed, af Uggaleysenu Forherdingeñ, af Forherdinguñe Orvæntingeñ, af Orvæntinguñe eilijf Helvijtes Pijna, sem er Verdlaun allra Ogudlegra, uñ Allder Allda med Dioflenum og hañs Arum i þvi Dijke, sem vellur af Ellde og Breñesteine: Þetta vottar Jacob i sijns Pistels Cap. 1. med fære Ordum, seigiande: Sierhvør verdur freistadur, nær hañ tilteigest af siñe eigeñ Gyrnd, og lockadur verdur, og sijdañ þad Gyrndeñ hefur gieted, fæder hun Syndena, eñ nær Syndeñ er fullkomnuđ, fæd er hun Daudañ. Þar fyrer skylldu Christner Meñ

siaa

fiaa til, ad þeir kiesie hina fyrstu Neista Agyrnenn ar, so ad Guds Hws, sem er vort Hiarta, brenne ei til kalldra Kola. Pannig byriar ad skioota Dreka Unganñ i Bælenu, aadur hanñ verdur fleigur, og slijta Hoggormenñ, þad er Diosulenñ wr Barme sijnum, aadur enn hanñ stijngur til Hiartans, vel sie þeim er so kunña ad taka Babylons Smaa-Born a medann þau Hraa-Blaut eru, og slaa þeirra Hofde nidur vid Stein, Ps. 137. Þvi hvad gagnar þad Mann enum, ad hann eigneft allann Heim þenna, og lijde so Topun aa Saalu sinne, seiger Frelsarenn, Matth. 16.

J odru Lage heyrum vier af Historiunne, ad Judas, þa hann hafde til sijn teked Flock Manna og Pioonustu-Menn Biskupanna, Phariseanna, Olldungannaog þeirra Skriftlærdu, þa hafe hann viked ad JEsu, Kyst hanñ og sagt: Heill Vertu Meistare. Þetta er hin mesta Ohæfa, er Diosulenñ framed hefur i Syndugu Hollde. Margur hefur Vine og Frændur af Dogum raaded. Nero liet fyrerkoma Moodur sinne. Absalon offsokte Fodur sinn. Joab sveik sinn Vin. Cain, vo Broodur sinn. Enn ad brugga Svikræde sijnum Gude og Skapara, þad eru Faadæme Satans, þar ed eirn syndugur Ormur forrædur þann sem er hanns Fader fyrer Skøpunena, hanns HErra fyrer Verndena, hanns Brooder fyrer Manndoomstekninguna, hanns Heilsugiafare fyrer Endurlausnena, hanns Meistare fyrer Uppfrædinguna, hanns Doomare fyrer Urskurd Verdlaynanna. Hann sem Mann vegur, hann

hañ er Mañdrapare: Hañ sem myrder, hañ er Mordinge: Hañ ed siñ Herra forrædur, Drottens Svike: Hañ sem Frændur edur Vine af Lijfe tekur, hañ er Nijdingur kalladur. Eñ hveriu Nafne skal eg hañ þa nefna, sem rædst a moote Drottne Gude sijnum, fyrer hvørs Skulld, vier ecke alleina skyllduger erum Fødur og Moodur ad yfergiefa, helldur og eirneñ Lijfed ad lꜳta, ef hañ þad bijdur? Nu veit eg mijner Elskuleger, ad þar er eingeñ af ydur, sem ecke i Hiarta sijnu fordæme Svikarañ Judas: Eñ giætum þess ad nu er Christur ad sijnelegum Vistum fra oss vikeñ, og situr til Kraptarens hægre Handar, so eingeñ Mañlegur Kraptur, og ecke sialfur Andskoteñ fær hønum Mein uñed: Eñ ei ad sijdur er hañ oss a margañ Hatt nalægur. Paulus seiger, 2. Cor. 11. Ad Christur sie Safnadarens Hofud: Hygge þar ad aller þeir ed heita vilia hañs Limer. Judas kyste Høfuded med flarꜳdum Kosse: Siꜳum til Limerner, ad vier ei þañig Jñbyrdes kyssunst, þvi hver ed JEsu Lime Falsklega kysser, hañ kysser hañs Andlegañ Lijkama, sem er hin christelega Kyrkia. Guds Børn a fyrstu Døgum Christneñar, høfdu þa Veniu, ad, nær þeir hielldu sijnar Agapas edur Kiærleiks Samkomur, þa kyste hver añañ med Heiløgum Kosse, um hvern Paulus talar, 1. Cor. 16. Hvers og Petur mineñst, er hañ seiger: Heilsed hver ødrum med Kiærleikans Kosse, 1. Pet. 5. Þadañ er eñ nu

i Dag su Venia medal vor, ad vier miñunst hver vid añañ, ædur eñ vier etum Guds Lijkama og dreckum hañs Blood i heilagre Kvølld-Maaltijd DRottens: Þesse Sidur christeña Maña, ætte ad miña oss a Brooderlegañ Kiærleika Jñbyrdes: Eñ Gud næde oss Syndarana: Ad valla mun af þvi veita a stundum, þegar vier gaungum til HErrans Alltares, til ad Fridmælast vid Gud i helgum Stad, ad sumer af oss hafe þa vel þurkad allt Flærttskapar Kaam af Vorum Hiarta sijns, og er þa nærsta hætt vid, ad þeim verde hid sama og Judæ, ad biooda JEsu falskañ Koss. A Jerusalems Mustere var eitt Port, iñ um hvert ad geingu ydrande Mañeskiur, med huldum Vørum: Hvad oss miñer þar a, ad JEsus er þær Dyrnar, um hveriar vier, sem stondum rauder af Ovyrdingu fyrer Hædungar vors Ungdooms, eins og Ephraim: Vier eigum ad gaunga iñ i Jerusalem fyrer Gud, til ad offra vorre Saasu fyrer Alltarenu: Eñ þad er ei meir eñ skylldugt, ad vier a medañ hylium Varer vorar, med hvorium kañske margur hefur tijdt boded sijnum Nærunga flærædañ Koss, og hvatt Tungu sijna, eins og Hoggormur, og smurt Varer sijnar med Nodru Galle, Ps. 140. Eg vil ei um þa tala, sem med Heiptræku Giede miñast vid Holld og Blood DRottens, og ætla þo ad sier mune i þeim heilaga Stad uppgefeñ verda þau Tiju Þusund Punda, um hver þeir eru hinum Riettlæta Dijrdar-

eñar Konunge skylldugen, eñ ecke vilia þeir upp-giefa siinum Samþioon, þa Hundrad Peninga, er þeir áttu honum ad lwka. Uñ Joseph, hvorn hañs Brædur seldu i Prældoom, ei Olijkt og Judas siñ Herra, Uñ hañ stendur skrifad, Gen. 45. Ad hañ hafe falled uñ Hals þeirra, og kyst þa med grætande Tárum: Gud giæfe ad aller þeir er sig Christna nefna, væru eins lynder, og sæi Guds Madur var i þvi, ad fyrergiefa hvør odrum wt af Hiarta siinar Misgiørder, þvi añars mun vor Himneskur Fader ei tilgiefa oss vorar Synder, Matth. 6. Eg vil spyria, Hvad skilur Judam, er kyste JEsum og sagde: Heill Vertu Rabbi, Eñ droo þo epter sier Flock Maña, med Sverdum og Staungum til ad griipa hañ? Hvad skilur hañ, seige eg, og þa, sem stadder i Heilogum Stad, seigia: Herra, Herra, Forlæt mier Synder mijnar: Eñ i þeim sama Muñe, med hvorium þeir JEsu Lijkama og Blood medtaka, þa geymer hañ ecke Joabs, helldur Jessabels Sverd, og hañ er Nockurskonar Orva-Mæler, fullur af Mord-Pijlum til ad skioota ad siinum Naunga, þegar honum Fære giefst. Pad var Sidvane Gydinga, ad þa þeir sau Aleingdar nockurt Gofugmeñe, og gatu ei til hañs nad ad kyssa hañs Hond, epter þvi sem Sidur var til, þa kystu þeir siinar eigeñ, og veittu honum Lotning þar med. Petta miñer mig a, ad vier stondum stærre vorum Lausnara, So sem hiner Lijkþrau i Gamla-

Testamentenu: Vier erum hæser eins og þeir, so vier gietum ecke Gud ækallad so sem ber. Vorar Synder adskilia millum hañs og vor, og vier stondum længt fræ med Tollheimtu-Mañenum, og þorum ei upp ad lypta vorum Augum til Himens, þvi vier hofum stiggt hañ sem i Himnenum bijr; Eñ ei ad sijdur vilium vier kyssa vorar eigeñ Hendur, þad er Lime þess Lijkama, hvors Limer vier erum, og vera ei af-undner, þeim sem oss bidia, Edur þeim sem vid oss misgiora, og under eins beria oss æ Briooft, med vorum eigeñ Hondum, seigiande: Gud vertu mier Syndugum Lijknsamur: Pañig byriar ad leita ad JEsu, med Einum Audmyktar og Kiærleiks-Kosse, eñ ei so sem Judas og hañs Foruneite, med Lyktum og Logbrondum. Gydingar leitudu DRottens med Lyktum og Blisum, ad eige meiddu þeir um Nætur-Tijmañ Fætur sijnar æ Steinunum, eda fiellu i Grysiur: Eñ þeir giættu þess ecke, ad þeir steittu allt of-fast æ þeim Hyrningar-Steinenum, um hvorn talad verdur, Esa. 28. Og fiellu þess vegna i Grysiu þa, hvar eckert Vatn er iñe. Eñ þu skallt ei so leita ad JEsu, Christeñ Saala, helldur med Angre og Trega Hiarta þijns: Eige med Lyktum, helldur med Hiartgrooeñe Elsku, Eige med Logbrondum, helldur med einum Hor-Kveik sañrar Trwar, sie hañ Log-lijtell, þa vill hañ þo ei slockva hañ, Eige med Sverdum og Staungum, helldur med Brækudum Reyr Vonareñar: Sie hañ veikur, þa er hañ

samt

samt i þijnum Veikleika Mættugur: Hañ talade einasta Eitt Ord, seigiande: Eg Em Hañ, og þo fiellu hinar Vopnudu Hetiurnar æ Bak aptur, hinum somu Ordum mun hañ til þijn tala, nær þier mest æliggur: Bloskre þier Synder þijnar, þa muntu heyra: Eg Em Hañ, sem afplaana allar þijnar Synder, og afmææ þijnar Misgiørder: Ef Mootlæted kremur þig, so ad þu valla edur ei þykest meiga under-rijsa, og þu kallar til hañs i Neydeñe, þa svarar hañ þier: Ottast Ecke, þvi Eg Em Hañ, sem er Trwr, og freista einkis yfer Megn fram, og gief Freistinguñe þañ Enda, ad þu fææer vel stad-est. Ofbioode þier Guds Reide, þa seiger þiñ Frelsare: Eg Em Hañ, sem Gud hefur þiña vegna straffad, Eg em Bølvan orðeñ þiña vegna, so þu yrder Blessan Guds i mier, Hegningeñ hefur æ mier leiged, uppæ þad þu hefder Frideñ. Mun Fader miñ Himneskur taka Giølld af bædum ock-ur fyrer Syndena? Siertu Trwar-veikur, þa seiger hañ: Laat þier nægiast mijna Nææd, þvi Eg Em Hañ, Hvørs Kraptur ad fullkomnast i Breyskleikanum. Kvijder þu vid Daudanum, af þvi þu hefur illa lifad, þa mun hañ senda siñ goda Anda i Hiarta þitt, til ad dreipa æ Sææln þijna i hinum sijdurstu Andarslitrum af þessum Kaleik: Vertu Hughraustur Sonur, þier eru þijnar Synder fyrergiefnar, þvi Eg Em Hañ, sem þad hefe af-rekad i miñe Kvøl med mijnum Dauda, ad hver sem trwer æ mig, hañ skal lifa, þoott hañ deye.

Honum sie Lof og Dijrd ad Eylijfu, Amen. Og er þad nu so ut-talad um̃ hid Fyrra.

Vier vilium med faum Ordum yfervega hid Sijdara. Vinur, Hvar Til Komstu Hijngad, seiger Endurlausnaren̄: Af hvørre Spurningu þijns Frelsara, þier ætte fyrst til Hugar ad koma Guds Barn, hin Oum̃rædelega Hoogværd og Polen̄mæde Guds Eingietens Sonar; Hvørsu Smaanarlega ad Judas hafe breitt, þad hofum vier heyrt til Forna, og hvad saart þad mune hafa run̄ed DRottne til Rifia ofan̄ a alla adra han̄s Kvøl og Angist, ad han̄ svikeñ var af sijnum eigeñ Læresveine: Þvi mær hvør eirn nærre gieta, sem nockra Tilfiñing hefur i sijnu Hiarta: Eñ i øllu þessu er JEsu Guddomlega Hoogværd hin sama, og hañ talar ecke eitt Stygdaryrde vid þeña Skalk. Hvør kañ nu med Hiartanu ad J-mynda sier, laangt sijdur med Ordum ut ad skijra, so Oum̃rædelega Gied-Giæsku. Margur þykest giøra vel, ad hañ þeiger vid Ovin sijnum, og vyrder hañ ei Vidtals. Fabio Maximo er hroosad fyrer þad, ad hañ þagde eins og Fiskur, þegar hañ aa-kiærdur var af Romverium fyrer sijn morgu Afreks Verk. Socrates er og vijdfrægur, fyrer hans Hoogværd, þar hañ ecke lauk upp Muñe sijnam, þegar hans eigeñ Kviña giørde honum þungar Araaser. Lijklegt er, ad soddañ Meñ hafe þagad i Mootgaange sijnum þess vegna, ad þeir hafe ei þokst geta hañ med Ordum utmaalad, edur og drepeð

drepeð Reiðena með sier, að hun ei giörðe Tungu- na Ostoðuga. JEsus þeiger ecke við Juda, helldur talar til hañs með Hæglæte: Hañ er ecke einasta i Paunkunum hoogvær, helldur syner hañ Gnægð Hiartans með Muñenum: Ecke þeig- er hañ við hinum Guðlausa Svikara, helldur aa- miñer hañ með hoogværum Anda. Það hef- ur skieð, að þegar einum Konunge hefur byrluð ver- eð nockurskonar Olysian, og þeir hafa þess aaskyn- ia orðeð, að þeir hafa laateð hiñ sama afdrecka sem aaskeinkte. Hvør kañ i moote að mæla, að það sie riettvijst i allañ Maata? Hvað skulum vier hier til seigia? Kuña nockuð Verallðleger Konungar að hafa soddañ Riett yfer Þegnum sijnum, so sem JEsus hafðe yfer Juda? Kañ Maður Mañe so Riettvislega að reiðast, so sem Guð Mañenum? Kañ ein Skepna añare Skepnu so undergefiñ að vera, so sem Skepnañ Skaparanum? Kañ eiñ Syndugur so stoorlega a moote oðrum Syndug- um að brioota, eins og Syndareñ moote Guðe? Hveriu er þa lijk su Outseigianlega Poleñmæðe, að JEsus brukar ecke siñ Riett við Judam? Judas var fremstur i Flocke að byrla honum þañ swra Kaleik, sem hañ graatandi beidde, að mætte fra sier takast, og maatte þo ecke Bænheyrður verða, hañ, i hvørs Nafne allar Guðs Barna Bæner eru þo Jaa og Amen. Miñ HErra, hvað myk- lu verdugre var hiñ Flærðarfulle Svikarans Muñ- ur, að afdrecka þeña hiñ bañvæna Kaleik, helldur

eñ þijnar blessudu Varer, a hveriar Naadeñ er uthellt? Hvad hægt var þier ad laata Jordena opnast og svelgia Skaalkeñ; Eins og Chore, Datan og Abiram? Pad var Furda, ad hun skyllde taka vid þijnum Blooduga Sveita; Eñ þola ad slijkur Diøfuls Sonur skyllde standa a Jørduñe: Hvad lijted kostade þig ad laata Lijkþraa uppeta hañs Holld, eins og Mariæ? Hvar var nu þijn Vandlæting, sem eydde Sodoma og Gomorra med Ellde, hvør ed sloo Egyptaland med Plaagum, og dreckte Pharaoni og hañs Lide, sem lietst uppvisna Hond Jedechiæ Prests, er laust Jeremjam Kyñ-Heste, sem uppbrende þa Tveña Fimtyge Ahasiæ Konungs og þeirra Hofdingia, sem umsnerer Nebucadnesar i Villudijr, Pu, er sloost Hesi med Lijkþraa, sem lietst Hunda sleikia Achabs Blood a Nabots-Akre, og drapst Huzza, er hañ snerte DRottenñs Ørk af Gaaleyse? Eñ hañ er minnest vid þig med sølskum Kosse, sem ert hin saña Guds Ørk, hañ lietstu heilañ standa: Fyrer adra vandlætter þu O! HErra, Eñ fyrer siaalfañ þig villder þu i þetta Siñ ecke vandlæta. Hier mætte eirn Syndugur Ormur skamast sijn, sem er glarn a Reide, hvørs Bræde er þijngre eñ Sandur, og þrongbærare eñ Kletturen, hvør aavallt hefur þau Ord i Muñe, so sem hañ hefur giort mier, so vil eg giora honum, og giallda Lijku Lijkt.

Pu aumur Madur, sem ei kant upp ad reikna hvad opt þu syndgar: Ef nockur giorer Oriett

þijnu Hwȯse, hvad gott hefur þu þar af, ad þu hlaup- er til þiña Mord-Vopna med Levi og Simeon? Ef eirn vyrder þig ecke so sem þier sijnest þiñ uppblæseñ Nodrubelgur skiled eiga, þa fyllest þu af Reide, eins og Haman, og ert ecke sættur med eins Hofud. Ef þiñ Yfer-Madur talar þier nockud nær, eñ þiñ Eyrna Klæde bijdur, þa virder þu ecke fyrer þier, ad giora so sem Abner vid Ysbozet. Vilie nockur forsvara Sakleyse sitt moote þijnum raungum Aburde og illum A-Austre, munder þu þa ei læta kasta honum i Fiotur, eins og Zedechiæ Konungs Hofdingiar vid Jeremiam breittu, ef þad stæde i þijnu Vallde? Gæange nockrum vel, muntu lijta riettara Auga til hañs, eñ Saul til Davids? Vilie nockur Dæd og Dugnad fremia, hvad sliootur verdur Eliab til ad smæna David i Ordum? Sie nockur Gude og Moñum þeckur, hvad snart Rijs Cain upp og slær siñ Broodur i Hel, ef ecke med Sverde, þa med bañvæñe Tungu? Talar Eirn Guds Eyrende, hvad sliott hitna Balachs Naser æ moote Bileam? Mun ecke hiñ Heimske Asa Konungur breña af Reide vid Siæandans Atol- ur? Ef Nabot vill ei standa af sijnum Vijngarde og siñe Fodurleifd, þa verdur Achab siwkur af Heipt. Vill nockur forsvara siñ Broodur, þa hlijsest Sauls Reide ecke vid Son siñ Jonathan. Hefur nockur uñslwed Viel og Prette hiñs Hreck vijsa, þa tekur Herodes Stefnuna af Smæ-Born unum. Ef hinum Agiarna Bloot-Mañe er Hind-

run giord i hañs Rangsñwnum Fe-Drætte, þa bleipur hañ med Demetrio, og vill hafa Christs-Pienara af Dogum radded. Sier nockur Aum-ur a einum Vesæling, sem villt hefur fared, þa reid est hañs Brooder, og fæst meir uñ hiñ slatrada Kalf, eñ siñ Broodur aptur-fundeñ. Hiñ Lijk-þrar Naaman fær ei uñbored þad, ad Elisæus ei gieck wt til hañs, og bad siñ Gud fyrer honum standande, so þar var skamt til, ad hañ munde fara a Mis vid Heilsu sijna, Sokum Reideñar. Pu villt og kañskie þañig breyta, sem wtvortes ert Heil-brygdur, eñ iñañ hvijtur af Lijkþra, sem utañ ert skijnande, eñ fullur allrar Opeßtar hid Jñra, eins og daudra Mañа Grafer: Ja, verre eñ Thyest-es, hvør ed var Grof siña eigeñ Barna, samt boolg nar þu upp af Hatre, ef nockur þier a moote brijt-ur, og veitst ecke nema þijn Reide þvi vallde, ad þu bliooter ad deya i þiñe Lijkþra, og þo villtu eñ þa Christeñ Madur heita og JEsu Læresveirn, sem ecke eitt Ofug-Yrde talade a moote þeim, er hañ sveik: Eñ þad er ecke noog, ad vera Christi Læresveirn, eins og Judas var: Par fyrer, vilie Reideñ koma þier til, ad stela Hefndeñe fra Gude, giete Stoor-læte þitt ecke þolad Sañleikañ: Ef Ofundeñ vill koma þier til, ad uñsitia Saklaust Blood, edur Skap þitt er a Einhvern Hatt bwed til Hefndar, til ad giora Skada med Orde edur Verke, þa laat sem JEsus til þijn tale: Vinur, hvar til komstu þijngad? Meinar þu, ad þijn Reide verke Guds
Riettlæte?

Riettlæte? Ertu Christeñ, þa ertu miñ Læresveirn: Ertu miñ Læresveirn, þa muntu af mier læra: Vilier þu af mier læra, þa lær, ad vera Hoogvær og af Hiarta Lijtelaatur, so sem eg var, añars ertu mijn ecke verdugur: Vilier þu fylgia mier epter iñ i mijna Dijrd, þa fylg mier epter i miñe Hormungu. Deil ecke meir aa Veige þiñar Saaluhiaalpar vid þijna Brædur i Heimenum, eñ eg deilde aa Veigenum til miñar Pijnu vid þañ er mig sveik: Legg af Reide og Jllgyrne, Col. 3. og laat ei Soolena undergaanga yfer Reide þiñe: Laat ei yferstijga þig hid Vonda, helldur yfervin þad Vonda med Goodu: Mijn er Hefndeñ, eg vil Endurgiallda, Heb. 10. Hvør hañ Oriett giorer, hañ mun þad apt ur medtaka, og nema þu fyrergiefer vel af Hiarta, þijnum Brodur, hañs Misgiorder, þa mun miñ Himneske Fader, ecke tilgiefa þier, þijnar Synder.

Jminda þier JEsum med þessu Tale, standande fyrer Augum þier i Reide þiñe, og muntu skialldnar reidast O-fyrersyniu. Eñ þu saklausa Guds Lamb, sem ecke upplaukst þijnum Muñe, helldur eñ eirn Saudur til Slaatrunar leiddur, þegar þier hallmælt var, þegar þu svikeñ og af Dogum raadeñ varst; Drep þu i oss Potta Spillingareñar, eñ laat oss þykia þad hina mestu Æru, ad lijkiast þier i Angisteñe, i Ossooknunum, i Forsmaaneñe, so ad þegar vier erum veiker, þa sieum vier Maattuger fyrer þig, sem oss Maattuga gior er: Veit oss þad goode JEsu, og styrk oss þar til, med Krapte þijns Anda, Amen.

# Pridia Midvikudags Predikun i Føstu.

## Texten.

ENN Flockureñ og hiñ Ypparste Høfuds Madur, og Pienarar Gydingaña gripu JEsum og bundu hañ, og leiddu hañ fyrst burt til Hañam, sa var Fader Konu Caiphæ, hvør ed þa var þess Aars ædste Prestur, og þeir burtleiddu JEsum faangeñ til Caipham Kieñemaña Høfdingia, Eñ Caiphas var sa sem Gydingum gaf þad Raad, ad betur fære þad eirn Madur dæe fyrer Foolked.

Og þeir iñleiddu hañ i Hws þess Ypparsta Prests, þar ed med hønum aller Kieñemaña Høfdingiar, Skriftlærder og Olldungar voru samañkomner. Eñ Simon Petrus fylgde JEsu epter ælengdar, allt i Forstofu Kieñemaña Høfdingians, og eirn añar Læresveirn, sa same Læresveirn var kuñugur Kieñemaña Høfdingianum, og gieck iñ med JEsu i ForStofu Kieñemaña Høfdingians, Eñ Petur

tur stood þar wte fyrer Dyrunum. Pa gieck wt sa aññar Læresveirn, sem Kieñe-Maña Hofdingianum var kuñugur, og talade vid Dyravordslu Konuna, og leidde Petrum iñ leingra i For-Stofu Kieñe-Maña Høfdingians: Og hañ gieck iñ, þvi ad Pienararner høfdu Elld kveiktañ i midre For-Stofuñe og setst til samans, eñ Petur sette sig a millum þeirra og vermde sig vid Logañ, ad hañ sæe hvør Ender þar a yrde. Eñ Petur sat utar i For-Stofuñe, og þar hañ var framhetur i For-Stofuñe, kom ein af Ambœttum Kieñemaña Høfdingians, og þa hun leit Petrum sitia vid Logañ og verma sig, leit hun til hañs og starde a hañ, gieck til hañs og sagde: Hvørt ert þu og eirn af þess Mañs Læresveinum? Og þu varst med JEsu þeim Galilæiska af Nazareth. Eñ hañ Afneitade honum fyrer øllum, seigiande: Kona, Ei er eg, Eg þecke hañ eige, og ei veit eg hvad þu seiger: Og hañ gieck wt i For-Dyred, og Haneñ gool. Eñ Prælarner og Pienararner stoodu sem giørt høfdu Kola-Elld, og vermdu sig, þviad Kullde var: Petur stood þar hia þeim og vermde sig. Eñ Kieñemaña Høfd-

ingeñ

ingeñ spurde JEsum þa ad uñ hañs Læresveina og hañs Kieñingu. Og JEsus svarade hønum: Eg hefe Opeñberlega talad i Heimenum: Eg hefe og med Jafnade kieñt i Samkundu Hwsum, og i Musterenu þar ed Gydingar Allstadar ad, koma til samans, og eckert hef eg i Leynum talad, Hvad spyr þu mig ad þessu? Spyr þu þa þar ad, sem heyrt hafa hvad eg hefe talad til þeirra: Siaa þu, þeir hinu sömu vita hvad eg hefe sagt: Eñ sem hañ talade þetta, þa gaf eirn Þienarañ sem þar stood hia, hønum eirn Kiñ-Hest, og sagde: Skalltu so svara Bisk upenum? JEsus svarade: Hafe eg illa talad þa bevijsa þad, ad þad sie Oriett, eñ hafe eg satt sagt, hvar fyrer slær þu mig? Og Hañas sende hañ bundeñ til Caiphas Kieñemaña Høfdingia.

Eñ Ambaatteñ þar hun saa Petrum, took hun aptur til ad seigia þeim sem þar hia stoodu, þesse er eirn af þeim. Eñ sem hañ gieck wt uñ Dyrnar, leit hañ ein oñur Ambaatt og sagde til þeirra sem þar voru, Þesse var og med JEsu af Nazareth. Og litlu sijdar þar epter saa hañ eirn añar og sagde: Þu ert og eirn af þeim. Og Simon

mon Petrus stood þar og vermde sig, þa toludu þeir til hañs: Ertu af hañs Lære-sveinum? Og i añad Siñ neitade Petur aptur med Eyde og sagde: Madur, eige em eg, ecke þecke eg þañ Mañ.

Eñ þeir Ædstu Prestar og Ølldungar, og allt Raaded leitudu Liwgvitna i giegn JEsu, so ad þeir giæte hønum i Hel komed, og fundu ecke. Og þo marger Liwg-Vottar geinge þar frām ad, þa fundu þeir eckert, Hviad marger baaru Fals-Vitne i moote hønum, eñ þeirra Vitnisburder voru ecke Samhliooda.

Eñ ad Sijdustu stoodu upp og geingu frañ nockrer Tveir Fals-Vottar, og baaru Liwg-Vitne i moote hønum, og søgdu: Vier høfum heyrt hañ seigia: Eg kañ og vil nidurbriioota þetta Mustere Guds, sem med Høndum er giørt, og a þremur Døgum uppbyggia eitt añad þad ei er med Høndum giørt, Eñ þeirra Vitnisburder urdu eñ þa ecke Samhliooda. Sa ædste Prestur stood þa upp midt a millum þeirra, spurde JEsum ad og sagde til hañs: Svarar þu aungvu? Hvad vitna þesser a moote þier? Eñ JEsus þagde og svarade

aungvu,

aungvu. Pa anſade eñ aptur ſa Ædſte Preſtur, ſpurde hañ ad, og ſagde til hañs: Ertu Chriſtur Sonur hiñs Bleſſada, Eg ſære þig vid lifanda Gud, ad þu ſeiger oſſ ef þu ert Chriſtur Sonur Guds? JEſus ſagde til hañs: Þu ſagder þad, Eg em: Eñ þo ſeige eg ydur, hier epter munud þier ſiaa Mañſins Son ſitia til hægre Handar Kraptarens, og komanda i Skyum Himens. Pa reif Kieñemaña Høfdingeñ ſijn Klæde i ſundur, og ſagde: Hañ Gudlaſtar. Hvad þurfum vier nu framar Vitnaña vid? Siaa, þier heyrdud nu ſiaalfer hañs Gudlaſtan. Hvad virdeſt ydur? Eñ þeir Fordæmdu hañ aller, ſvørudu og ſøgdu: Hañ er Daudans ſekur.

Og litlum Tijma þar epter, nær eirn re Stundu, ſtirkte nockur añar þad, og ſagde: Ad ſøñu var og þeſſe med hønum, þvi hañ er eirn Galilæare. Og aptur geingu þeir ad, er hiaa ſtoodu, og ſøgdu til Peturs: Sañarlega ertu af þeim, þviad þitt Tungumaal er Samhlioóda, og opeñberar þig. Pa ſagde eirn af Kieñemaña Høfdingians Þienurum, Frænde þeſſ ſem Petur hioo af Eyrad. Saa eg þig ecke i Gras-

Gard-

Gardenum med hønum? Þa neitade Petur þvi eñ aptur, og sagde: Madur, Eige veit eg hvad þu seiger. Þa took hañ til ad Formæla sier, og sveria. Eige þecke eg þañ Mañ, uñ hvørn þier taled. Og jafnsnart er hañ nu talade eñ framar, Gool Haneñ i añad Siñ, Og DRotteñ snere sier vid, og leit til Peturs, og Petur miñtest Ordaña JEsu, er hañ hafde sagt til hañs: Adur eñ Haneñ galar Tvisvar, muntu afneita mier Þrisvar, Og hañ gieck wt og griet Beisklega.

## Exordium.

HAd er Plagsidur goodra og Vitugra Hers-Høfdingia, nær þeir draga ut i Hernad!, ad þeir eggia Lid sitt og seigia þeim fyrerfrañ, hvad mykell Hæske þeim bueñ sie, nema þeir beriest vasklega, og so heita þeir øllum þeim Launum sem gooda Frañgaungu veita, eñ siælfur er hañ fremstur i Flocke ef vidþarf, so adrer fylge hønum þess Otraudare a epter. Pañig hefur breitt hin mykla Hetia DRottiñ JEsus, hañ hefur ecke einasta, einsamall Vijnpressuna troded, ædur eñ hañ frañbrunade af Bozra i Edom, i skrautligum Buninge, Esa. 63. Pad er ædur eñ hañ hroosade Sigre, yfer siñum og allra þeirra Ovinum, sem hønum vilia epterfylgia i Kvøleñe og Forsmæneñe, so þeir meige med hønum Hlutskipte taka i Sæluñe og Dijrdeñe: Helldur hefur hañ þar ad auke sagt þeim fyrer, hverra Launa þeir mættu vænta sier: So seiger hañ, Matth. 5. Sæler erud þier, nær þeir Lastmæla ydur og Ofsækia, og tala i giegn ydur alla Vondsku fyrer mijnar Saker, þo liugande, Fagued þier og vered glader, þviad

ydar Verdkaup er nvoglegt a Himnum. Stoor maa sn Sæla vera, sem Guds Børnum ec bueñ i Eylijfdeñe, þar Mootlætingar þessara Tijma, eru so lijtels verdar hia heñe. Paulus sem hier uñ vottar, hañ maa aan Efa hafa feinged nockurn Suteck af heñe, þegar hañ var uppryckur i hiñ þridia Himen, þar hañ hiellt sijdañ alla Hlute Preck ad vera, hiaa þvi ad avinña Christum. Eñ þott ad Gud hafe ecke so giørt øllum Møñum sem Paulo, uñ hvern hid sama maa seigia, so sem DRottiñ sagde vid Thomam Fordum: Af þvi þu saast mig Thoma þa truder þu; Pa skorter þo Gud eñ nu ecke i Dag sijns Anda Krapt, til ad styrkia þær veiku Fæturnar, og hinar Vanmaattugu Hendurnar, þeirra sem ecke siaa og trwa þo, til ad beriast med sijnum Hertoga JEsu, under hans Merkinu; Pad maa vera eirn dausur christeñ, sem ecke er so fullhuga, so sem eirn Strijds-Madur, og þad er verra ad vera Gudlaus eñ Ærulaus. Nu hleipur eirn Raadvandur Strijds-Madur alldrei fra Merkenu, þvi hañ veit þad er Skøm so mykel, ad hañ sijdañ verdur alldrei neirnrar Æru verdur: Skylldu þa Christi Her-Meñ vera so blauder, ad flija fraa hiñe føgru JEsu Blood-Faanu, under hveria þeir svarest hafa i Skijrneñe? EirnFullhuge geingur vrugt fram i Bardaganum, af þvi hañ veit hañ mune heidradur verda og Giøfum sæmdur, og berst hañ þo uppa hid Ovissa, og slær a stundum i Vedred, so sem Paulus ad Orde kiemst. Eñ þad giører ecke hiñ Christne, hañ gietur alldrei Osigur hloted, a medañ hañ brukar sømu Strijds-Atferd og hañs Hertoge, þvi þad sem hinum er hiñ mesie Skade, þad er þessum hiñ mesie Abate, sem er Forsmaan, Brijxle og Haadungar Verallðarenar, og ad sijdurstu Daudeñ, hvern Guds Børn reikna sier fyrer Aviñing med Paulo, þviad Vopn Hersarar vorrar eru ecke Holldleg, 2. Cor. 10. So sem hañ seiger. J þeirre Grein af Pijslarsøgu DRottiñs, sem strax var uppleseñ, verdur oss synt, hversu mykla Smaan, Brixl og Vanvyrdu, ad hañ hefur þolad vor vegna, af Kieñevalldenu i Jerusalem,

salem, og Prælum þeirra: Hvar um eg vil nu nockud framar tala, epter þvi sem Gudspiallameñerner hafa ofs það ritad epterlæted, uppa þad eingeñ skore sig undañ, ad lijda nockud þvilijkt Christi vegna, ef hønum kañ þad til Handa ad bera. Gief þu ofs þiñ heilaga Anda DRotteñ miñ, til ad framkvæma þetta Eyrende, sialfum þier til Lofs og Dijrdar, eñ þiñe Christne til Uppbyggingar, AMEN.

## Utleggingeñ.

ENN þeir Meñ sem hielldu JEsu, spottudu hañ, seiger i Textanum: Hvor er þesse hin fæheyrda Mijnkun DRotteñ miñ, ad þeir blindu Hundar spotta þig Konung Dijrdareñar? David seiger, ad hañ sem a Himnum situr, hæde ad þeim Ogudlegu: Eñ hier sie eg, ad þeir Ogudlegu hæda ad hønum, hvors Hæsæte ad Himeneñ er, og Jordeñ Skør hañs Foota. Stoor var Fæsiña Hanons Ammonita Konungs fordum, er David sende hønum hina bestu Meñ sijna, til ad hugga hañ epter Laat Fodur sijns, þar hañs Rædgiafar komu hønum til þeirrar Jllmensku, ad leggia þeim Hædungar til, og senda þa aptur Hædda og Spieskorna til Davids, 2. Sam. 10. Eñ þo var su Vitfyrring øllu meire, ad Guds eiged Foolk skyllde giøra Gis ad hønum, er sendur var til Fortapadra Sauda af Hwse Jsraels, til ad hugga þa Sundurknosudu i Hiortum epter Dauda sijns Fodur Adams, Rom. 5. J hverium ad doou aller hañs Epterkomendur. Hiñ Heimske Añonita Konungur meinte, ad David

hefde sendt sier Niosnar-Meñ fyrer Huggara, til ad rañsaka Borg sijna og umturna heñe. So blies Diøfulleñ Judum i Briooſt, ad JEsus komeñ være til ad uppleysa Logmaaled, hvørs Eyrende þo var ad uppfylla þad: Ad umturna þeirra Setningum, hvørs Embætte var ad giøra sijns Fødurs Vilia. Rek burt Ambaattena med Syne heñar, seiger Ritningeñ, þvi Sonur Ambaattareñar skal ecke erfa med Syne hiñar Friaalsu: Hvørneñ hefur þa Jsrael broteſt iñ i Jsmaels Kyn, og er ordeñ eirn Spottare lijkur hønum, yfergefande sijna Kynslood, eñ hefur samlagad sig Diøfulsens Hyske, med Hædne og Spotte vid hiñ Eingetna Son Guds, sem er Lioome hañs Dijrdar og Mynd hañs Guddoomlegrar Persoonu. Þetta hefur þu fyrer oss lided miñ HErra, sem forþienad høfdum ad verda til Athlaaturs i Auglite Guds Utvalldra og H. Eingla um alla Eylijfd. Eñ vier Guds Børn, þegar vier nu heyrum þessa Smaanarlegu Atferd Gydinga vid HertogaDijrdareñar, þa ættum vier ad giallda Varhuga vid, ad ecke samløgum vier oss Jllþijde þessu med vidlijkum Athøfnum, a moote Christi Limum og vorum Brædrum i Heimenum. Fyrer hvad var Christur spottadur? Fyrer þad hañ gieck i krijng, giørde gott og grædde alla: Þad sijndeſt er þeir søgdu, ad fyrer Beelzebub Diøfla-Høfdingia ræke hañ ut Diøflana; Jaa, ad hañ Samverskur være og hefde Diøfuleñ: Ecke eru synduger Meñ þess umkomner,

komner, ad giora so myked gott af sier, so sem DRotteñ giorde a Dogum Hollds-vistar siñar. Eñ þo er eñ nu margur sa, sem Christi Anda hefur, ad hañ giorer slijkt gott, er hañ kañ Guds Boludum Saudum og Naudstoddum, og villde, ef hañ giæte i Forsvar taka Eckiuna, hiñ Fodurlausa og þañ sem Nauñgindeñ lijdur: Eñ þetta hafa Veralldareñar Born ad Athlætre, hverium eckert svijdur nema þad sem æ sialfum liggur, og dæra þañ sem nockurs vill J-missa fyrer Naungañ, so sem þañ, er ause wt Gotse sijnu ad Parflausu, og hafe sijdañ ecke ad lifa af, edur hætta Femunum sijnum edur Vyrdingu fyrer Uppreist Logræningsens: So sem þañ, er ecke bere Vitsmune til ad taka Vara æ sijnum eigeñ Efnum, helldur stofne sier i Hæska, og vogie sier i þær Hendur, sem honum eru mattkare: Eñ þvilijkt er riett ad spotta Gud og hañs Christ, hvorium valla nockur Hlutur er kiærare eñ þesse. Hvad vañ Christur meira til þess, ad hañ so hæddur var af þessum Spie-Fugl um? Pad, ad hañ giorde Verk siñar Kallanar Trwlega: Hañ kiende Openberlega i Musterenu, hvervetna i Samkundu-Hwsum, og jafnvel i Eydemorku, so sem Gudspiallsſogurnar votta, og sialfur var hañ allar Nætur æ Bænum. Eñ munu nu ecke fiñast þeir ed giora Gis ad þvi, ef nockur breyter epter sijnum Frelsara i slijku, og hlæa ad Gudrækne hañs Barna, so sem Einum Oþorfum Hlut, þeim er ecke drage laangt æ Veg til

ad lifa farsællega, og ei sie verdur til ad tapa fyrer Gagne sijnu: Soddañ Gaarungar eru riett Eitt Diofulsens Verkfære, þvi þeir ecke einasta gaanga i Lid med Satan, helldur og koma ødrum þar til, sem i siaalfum sier eru þo ecke so miøg vonder edur Gude fraahverfer, þviad Heimsku Mañlegrar Naatturu er so vared, ad hun bygger Meiningu sijna, helldur aa añarra Doome eñ sijnum eigeñ, sierdeiles i þinu Vonda, hvar Diofulleñ og Hollded eru jafnañ samverkande, so ad eg maa hier uñ seigia, þad sem ad sagde Christur Fordum Daga, uñ Fals-Spaameñena, sem ad upprijsa mundu epter sijna Himnafør, Matth. 24. Ad af soddañ Andskotans Gamne kuña i Villu ad leidast, jafnvel ef skie mætte Utvalder. Pad er ein stoor Heimska, ad hlæa ad Einum fyrer Synder sijnar, og eñ þa þoott hañ hafe þær drygt med Asetninge, jafnvel þoott þad sie nu Almeñelegt, ad kasta Einum þvilijku i Naser, þar Meñ ættu þo ad aumka Syndarañ, hvad mest þess vegna, þvi þad steyper hønum i þina mestu Eymd, sem ad er Guds Oblijda. Eñ erum vier þo ecke aller Syndarar? Og hvad braatt kañ oss hid sama ad henda, ef Gud slær Hendeñe af oss, hvort þeim er hvad mest bwed, sem henda Gaman af añars Slisum, i Stadeñ þess þeir ættu ad Leidrietta hañ med hoogværum Anda. O! Madur, Pu sem stendur, siaa til ad þu faller ecke, og ef þu kyñer i nockud þvilijkt ad rata, hvad myklu þyngre mun þa verda þiñ Doomur bædei Guds

og Maña Auglite, sem aadur hefur fellt Haardungar Doom yfer þiñ Broodur, þier kañske Saklausañ, þvi hañ stendur og fellur sijnum Herra, og Maattugur er Gud ad reisa hañ, eñ fella þig, so þu alldrei meir uppstander. Nu er þetta ein stoor Mijnkun, og þo er þad eñ meire Skoñ, ad færa ad Einum fyrer þau Lijte edur Vansa, er hañ fær ei vidgiort, hvort helldur þad er aa Saalu edur Lijkama, þvi saa ed þad giorer, hañ hæder ad Skaparanum, hver ed giorde baada þã epter Villd siñe. Paulus skrifar: Seiger nockud Leyr-Kiered til Smidsens: Hvar fyrer giorder þu mig so? Eñ þa er saa heimskare eñ Leyreñ, sem vill seigia: Hvar fyrer mun Skapareñ hafa giort þeña Mañ so haattadañ? Þu Vitfyrringur, Eru þad Packer þær er þu Gude gielldur, fyrer þad, ad hañ skapade þig fagrañ, eñ hañ liootañ, so sem þu kallar, þig Vitrañ, eñ hañ Faavijsañ, þig Sniallañ, eñ hañ Maalhalltañ? Edur seigest ecke Gud hafa giort yckur baada? Þu skynlaus Madur, þier er myklu verr fared eñ honum, Lijte hañs Lijkama munu ecke standa honum fyrer þvi, ad hañ ei verde aa Sijdañ lijkur JEsu Christi Dijrdlegum Lijkama, hañs Einfelldne, mun ei hindra Guds Utvalningu, sem hefur kiored sier þad, sem er Heimskulegt fyrer Moñum, so hañ giorde Vitringana ad Hæde: Hañs Maalhellte mun ei baña honum ad lofa Gud med Eiglaña Tungu i Dijrdeñe, og eckert af þessu mun varna honum Iñgaungu i þa Himnesku Jerusalem; Eñ þu mu-

nt þar alldrei ad Eylijfu Iñkoma, nema þu stijnger wt þad Augad sem þig hneixlar: Og nu er þetta Tvent so Illt sem þad er, eñ þad er eñ þa myklu argara, þegar Einhvor Veralldar-Sonur giorer Gis ad þeim, sem bera Ok Motteñs, hvoriu hellst Nafne sem heiter, hvort helldur þad er Fatækt, Heilsu-Brestur, Offookner vondra Maña, edur hvad añad sem Gud leggur a nockurn, hver ed alleina kañ ad Fella og Reysa, og eru so Allmeñeleger Veralldareñar Doomar, ad þvilijkt hende suma fyrer þeirra Synda Saker, jafnvel þott eckert vite þeir med þeim, nema Mañlegañ Breyskleika, sem bæde þa og adra hender, og giæta þeir lijtt ad þvi, er Frelsareñ sagde vid Læresveinana, er friettu hañ ad, hvort hañ sem blindur var boreñ, hefde Syndgad edur Forelldrar hañs; Eñ hañ Blessadur svarade: Hvorke syndgade þesse nie hañs Forelldrar, helldur so ad Guds Verk yrde Openber, Joh. 9. Villtu þa hlæa ad þvi Gloopureñ Vitstola? Villtu seige eg, giora Gis ad þvi, sem hiñ Alvijse Drotteñ giorer til Dijrdar sier? Ja, hañ sagde eñ þa, er hañ heyrde uñ þa i Galilæa, hverra Bloode ad Pilatus blandad hafde samañ vid þeirra Foorna-Blood: Meine þier ad þesser Galilæi hafe Syndugre vered ødrum Galilæis, af þvi ad þeir lidu þetta? Luc. 13. Ney, Eg seige ydur, ad nema þier aller ydrest, munu þier eins fyrerfarast: Og hvada Faasiña er þad þa, ad brwka þad til Spotts og Athlaaturs, sem er af Gude giort, til ad vekia i oss Yd

ranena

ranena fyrer vorar eigeñ Synder, er hid sama edur añad verra forþienad høfum, eñ þeir sem Meñ hæda ad, og i Sañleika, þad er so O-Mañlegt, og eg mæ seigia Dioflenum lijkt, ad hafa þad ad Hæde sem Gud leggur æ eirn honum til Reynslu edur Sidboota, eñ ødrum til Vidvorunar; ad valla mæ Ordum ad koma, og talar David uñ þetta so sem hid mesta Gudleyse æ þeñañ Hætt: Þeir hafa Offsokt þa er þu hefur sleiged, og þeir giora Søg ur wt af þeirra Sorg er þu sært hefur, Ps. 69. Aller Christner Meñ vita þad, ad þeim byriar ad hafa hina mestu Medaumkun med þeim sem DRottiñ hefur lagt siñ Kroß æ Herdar, og þar fyrer eru þeir laangt fræ þvi, ad meiga Christner heita, sem vilia auka Sorg þeirra med Spieskap siinum og Athlætre. Hvad eru þeir þa? Dioflsens Born og Helvijtes-Eyrendsrekar.

Nu eru þetta Høfud-Skamer sem eg upp-taled hefe; Eñ hveriu Nafne skal eg þad nefna, er eg fyrst umgat, sem er, ad hæda ad Einum, fyrer þad hañ gott giører, og þad ad Ogudleger. Meñ fæ ei lockad hañ til ad syndga med sier? Eg vil seigia, þar er eckert Nafn til, vilie eg seigia þeir sieu lijker Illmeñsku Gydinga er hæddu ad Christo, þa verdur þeim þo sagt til Umbootar, þad sem Paulus hafde sier til Affsokunar, er hañ seiger: Eg giorde þad i Ovitsku af Vantrw: Vilie eg jafna þeim vid Dioflenum, og verdur þa ecke leingra jafnad eñ til hañs, þa er þo þar uñ ad seigia, ad hañ veit, ad

hañ a eingrar Myskunar Von: Eñ þesser vita, ad a hverium Tijma sem hiñ Ogudlege snijr sier fra sijnu Gudleyse, og fremur Riettvijsena, þa skal hañ lifa og ecke deya, allra hañs Synda skal ecke ad Eylijfu minst verda: Og þo æsa sumer Meñ þvilijkt Gudleyse Ydrunarlaust allt fram i Daudañ, hafa Gaman þar af, og meina litla edur einga Synd ad vera. O! þier hin Skynlausu Börneñ: Legged af þvilijkañ Daarafkap, og læted JEsu saaru Pijsler kvelia i ydur Spottunareñar Anda, þegar hañ tekur til ad kitla ydur, so ei verde þier sijdañ til Eylijfrar Skamar, og Eylijfs Athlæturs a Lande Forsmaanareñar, hvar fra Gud vardveite öll sijn Börn i Jesu Nafne. Peir hrækia i þitt Andlit miñ HErra JEsu. J Devt. 25. Cap. Var þad Straff lagt a hañ, sem ecke villde uppvekia sijnum Broodur Sæde, ad i hañs Andlite skyllde Foolked hrækia. Adam var Brooder DRottens, þvi hañ verdur og Guds Sonur nefndur, Luc. 3. Hañ gat eingeñ Börn epter Guds Mynd, helldur siñe eigeñ og epter Holldsins Villd og Mañsens Vilia, Joh. 1. Eñ JEsus hefur honum Sæde uppvaked, þar vier erum i honum Endurgietner til lifande Vonar, 1. Pet. 1. Og aptur Guds Erfingiar ordner, þo sie eg miñ HErra, ad þu verdur hier straffadur, so sem hañ, er ei villde uppvekia sijnum Broodur Sæde. So hefur Gud giört þig ad Synd, sem ecke varst Synd, og þu ert ein Bölvan ordeñ fyrer vorar

Synder,

Synder, sem ert Gud, blessadur um̃ Allder Allda, so vier yrdum Blessan Guds i þier. Pa Jesus læknade hiñ Dausa og Blynda, þa hrækte hañ ut, Marc. 7. Hia Joh. 9. Cap. Lesum vier, ad hañ giørde Leir af hraka sijnum, og reid a Augu hañs sem blyndur var boreñ. O! HErra Gud, mun Sooleñ nockurn Tijma hafa þvilijka Haadung sied, edur so Vidurstiggelegañ Glæp, ad hañ sem jafnvel med Hraka sijnum giørde þad bert, ad hañ Guds Sonur være, hvor ed græddе þa blyndu. Hañ verdur hier eirn Almeñelegur Hrakastadur þeirra blyndu Hunda, Ps. 22. Sem hañ um̃krijngdañ hofdu? Um̃ Mariam Systur Arons Hofudpresťs, sagde Gud fordum: hefde Fader heñar hrækt i Andlit heñe, þa hefde hun maatt skam̃ast sijn i sie Daga, Num. 12. Par med er meint, ad hefde Fadereñ Ovyrdt hana fyrer Glæp nockurn, þa hefde hun maatt blygdast fyrer honum nockra Stund; Hvad mykklu framar þar hun hafde moglad a moote DRottne Allsheriar. Petta gefur mier ad hugleida, ad Brudur hins Ædsta Hofudpresťs Saalna vorra, hun hafde moglad a moote Gude og kastad hañs Bodordum a Bak sier aptur, þvi hafde hun til þess uñed, ad hrækt være i Andlit heñe, og ad hylia sig fyrer Guds Naadar Auglite, ecke um̃ sio Daga Einunges, helldur um̃ alla Eylijfd Eylijfdaña. Eñ uppa þad, hun yrde keypt undañ Hrakum Dioflaña i Helvijte, þa seiger heñar Brudgume: Esa.

50. Eg hullda ecke mitt Andlit fyrer Hrækunum: Su Ritning er hier uppfylld, þvi hañs Dijrdarfulla Andlit, a hvers Varer Naadeñ er uthellt, hvort ad er þægelegt og miøg elskulegt, hvert ad er fegra eñ allra Mañaña Sona, hvers Augu ad eru skiærare eñ Sooleñ, þad verdur feige eg, afmynd ad af Hrækum Ogudlegra Maña, so ad vor Mynd, su ed af Hrækum og Saurendum vestu Synda og Glæpa var so afskræmd, ad hun vard ecke þveigeñ nema med Guds Bloode, ad hun yrde þess verdug ad kyssa Soneñ so hañ yrde oss ecke reidur, Ps. 2. Og vier þyrftum ei fyrer Haadungar vors Ungdooms, ad standa rauder af Ovyrdingu, fyrer hinum Riettlaata Doomara aa sijdarsta Deige. J Opeñberingar Bokeñe og 3. Cap seiger DRotteñ: Eg være til Frids, þu værer Heitur eda Kalldur: Eñ fyrer þvi, ad þu ert Volgur, þa vil eg skirpa þier wt af mijnum Muñe: Vier meigum þad med bliwgum Muñe jaata, ad vor Gudhrædsla er aa Stundum ecke nema Velgia fyrer Gude. Meñ laatast dyrka Gud i hañs Mustere, eñ offra þo aa Hædunum Verolldeñe eins og Juda giorde. Laun sitt og Giæfu laatast Meñ Gude þacka, so sem vera byriar, eñ færa þo Foorner Nete sijnu margur hver, og giefa sier Dijrdena og Forsiaa siñe, eñ ecke hinum lifanda Gude, og giora Gis ad Naaunganum, sem midur lijdur: Meñ seigiast elska Gud, eñ margur hatar siñ Broodur og þo fyrer litla Sok: Gude laatunst vier þioona, eñ Mamon maa þo ecke

siñar

siñar Pioonustu i missa: Lambsens Brwdkaup vilium vier sitia, ef vier mættum þad vegna Akneytaña og Bwgardsens: So halltra Meñ aa baadar Siidur med Prestum Baals, hvilijk Velgia er nu ecke þetta nema midur sie? Fyrer þessa Ohlutvend ne i Guds Pioonustu, þa hofdum vier til þess uñed, ad hañ spijtte oss wt af Muñenum, i þad Dijked sem rijkur af Ellde og Breñesteine: Par fyrer er nu i JEsu Allra Helgustu Asioonu hrækt, hvør ed bruñed hefur af Guddoomlegre Elsku til vor, og þetta leid hañ af hinum verstu Synda-Prælum. Siaaum nu til, ad vier ecke fyllum þeña Satans Flock i Andlegañ Maata: Vor Samvitska er so sem Andlit Saalar vorrar, sem er Brwdur Christi, Tokum oss Vara, ad ei afmyndum vier Asioonu heñar med fwlum Hraakum Glæpa og Illgiorda. Christur bygger i hreiñe Samvitsku, þviad i heñe lijser Guds Andlit so sem i fogrum Speigle: Par fyrer seiger DRotteñ, Matth. 5. Sæler eru Hrein hiartader, þviad þeir munu Gud siaa, Eñ aller þeir ed Ydrunarlaust framfara i Syndum og Glæpum, og flecka þañig Samvitsku sijna, þeir mættu sijnast ad spijta Hraakum i Andlit DRottens. Gydingar þecktu ecke JEsum er þeir fromdu Ohæfu þessa: Eñ vier þeckium hañ Christner Meñ, hañ er oss fyrer Augum maaladur i sijnu Heilaga Orde, vier jaatum hañ sañañ Gud ad vera. Vier erum i hañs Nafne skijrder til Fyrergiefningar Syndaña, vier medtokum hañs Holld-

og

og Blood i Heilagre Kvolldmaaltijd oss til Mysk-
unar og Saaluhiaalpar: Vier vitum ad hañ er upp
fareñ i Hæderñar, og hefur Moñunum Gaafur
giefed, og sendt siñ Anda, til ad sañfæra Heimeñ uñ
Syndena og uñ Riettlæted og uñ Doomeñ, og
skylldum vier nu gioraſt Lagsmeñ hiñar Vantrw-
udu Kynslooðar, til ad hrækia i Andlit JEsu ad
niju, þar hañ situr til Kraptarens hægre Handar,
þa er oss øllu midur fared eñ þessum blyndu Gyd-
ingum. Þesse Diøfuls Samkunda lætur ei hier
med bwed, helldur auka þeir Smaanena med Hogg-
unum, og slaa JEsum i hañs Andlit, seiger Texteñ:
Þar uñ spaaer DRotteñ, Esa. 50. seigiande: Eg
liet i tie miñ Lijkama þeim er mig sloou, og mijnar
Kiñar, þeim er mig reittu. Þad var Sidvane
hiaa Gryckium, ad nær Prælum var Lausn giefeñ,
þa voru þeir Pustrum sleigner i sijnar Asioonur, eñ
JEsum allrar Veralldareñar Lausnara, slaa þesser
Ogudlegu Skaalkar Kiñ-Hestum: Eñ med þess-
are siñe Præls-Mynd, hefur Frelsareñ wtvegad
oss eylijfa Lausn af Prældoome Syndareñar og
Diøfulsens: Þar fyrer ættu Christner Meñ þess
miñuger ad vera, ad giefa honum ecke Pwstur med
Ogudlegum Verkum. Eg hefe sett mitt Andlit so
sem Tiñu-Stein, seiger hiñ Utvalde Guds, Esa.
50. Hvær med hañ teiknar sijna Osigrande Pol-
eñnæde i Pijnuñe, ad hañ hafe ei viked sier undañ
Hoggum Ogudlegra Maña, helldur eñ þa Sitt
Biarg er sleiged, eñ þad er Graatlegt til ad vita, ad
JEsu

JEsu Prøstur, er hañ Saklaus holde, jafnvel fyrer þa er sloou hañ, þau skule ei viña aa eitt Ydrunar laust Hiarta, meir eñ aa eirn Tiñu-Stein, og þad er hveriun Demant hardara.

Þesser lemia JEsum med Hardud siñe, med hverre þeir og safna sier Reide a Deige Reideñar og Guds Riettlætis Dooms, um hveria Paulus seiger, ad þeir Krossfeste Christum ad niju, og Sattmaalans Blood almeñelegt hallde, med hveriu ad Syndareñ er Endurkeyptur, Heb. 6. Þeir gefa og JEsu Prøstur þung, er heyra hañs Ord med dausum Eyrum og forsmaa hañs Þienara, er boda þeim Veg Fridarens, og leggia þeim Haadungar til fyrer hid besta Verk, sem er Astundan þeirra Saalargagns, fyrer hvert þeir ættu þo tvøfalldlegs Heidurs verduger ad vera epter Paals Bode. Þetta var hañs Sok hvar fyrer hañ var sleigeñ af Gudlausum Moñum, sem er þeirra Herra; Eñ seiger hañ ecke: Hvør hañ forsmaaer ydur, hañ forsmaaer mig: Eñ hvør mig forsmaaer, hañ forsmaaer hañ er mig sende. Faa eru þau Dæme ad soñu, ad Guds Þienarar Hoggum sæte af sijnum Tilheyrendum, jafnvel þoott þau sieu allt ofmørg; Eñ sumum ætla eg ad opt hamle meir Otte eñ Giæska, ad þeir mune gefast, er hyxa þad sama um Prest siñ, er Bileam sagde vid Øsnuna Fordum, er hun ecke vogade ad raadast a Eingeleñ, er stood a Veigenum fyrer heñe: Være nu Sverd i Hende mier, þa munde

munde eg drepa þig. Take Meñ ſier þvi Vara fyrer ſlijku, þvi hvor hañ ſnerter Guds trulynda Þienara med Heiptar Hug edur Hende, hañ ſnerter Guds Auga-Stein. Þeſſa Hædue, þeſſa Hrakka, þeſſe Høgg og Sløg ærettudu Gydingar med eñ þa meire Hædungum: Þeir byrgdu hañs Andlit og ſøgdu: Spaa þu oſs Chriſte; Hvør er ſa þig ſloo? Þeir viſſu ad Folked hafde ſagt, Spaamadur mikell er a medal vor uppriſeñ, og Gud hefur vit:ad ſijns Folks, Luc. 7. Eñ nu vilia þeir med þeſſare Smaanarlegu Atferd kieſia þeſſa Almugans Meiningu: So maa nu Spekeñ Riettlætaſt af ſijnum Sonum, Prov. 8. JEſus var hin eilijfa Spekeñ Guds, og i honum bIuggu aller Fiaarſiooder Viſkuñar, Col. 2. Eñ hier verdur hañ ſo ſem eirn Daare utleikeñ, og ſo ſem eina Leika-Fælu er med hañ høndlad: Þad var Venia, ad þegar eirn blygdadeſt fyrer ødrum, þa huldu þeir Høfud ſitt, ſo ſem Rebecka er hun ſaa Iſaach gangande a Akrenum: Eñ hvad bar þier til Blygdunar DRotteñ miñ, fyrer hverium øll Skiepnañ a Blygdun ad bera, þad þeir Blygdunarlauſu Skaalkar huldu Høfud þitt: Vier vorum til Skamar ordner, og høfum byrgt vort Høfud med Juda, þvi øllu Synder vorar, ſem adſkilia a mille vors Guds og vor, ad vier mættum ecke Guds blijda Auglit ſiaa. Eñ hvad hafde þeſſe giørt, þar hañ var Flecklaus, Hreirn og Heilagur, og fraaſkileñ Syndurunum? Hebr. 7. Þeg
at

ar Adam hafde syndgast, þa skilde hañ sier i Gard enum, þvi Syndeñ gat ei leynt hañs Blygdun: Eñ uppaa þad, ad hañ og allt hañs Hyske, þyrfte ei siin Eiliiflega ad skamast, þa er JEsu bliida And lit huled, sem þo upplijser þa Himnesku Jerusalem. Þeir sem til Dauda dæmder voru, og hvorium Konungureñ reidur var, þeir voru byrgder, so ad ecke sæu þeir hañs Andlit; So giordu Assveri Þienarar vid Haman Fordum, Est. 7. Þad mætte og seigia, ad Gud Fader hafe laated siins Eingietens Sonar Asioonu byrgia, þegar hañ var hönum reidur fyrer uppaalagdar Synder, og hañ hafde aalyktad ad giefa hañ i Daudañ fyrer oss. Eñ fyrer þessa Skijlu þijns Andlites, hefur þu DRotteñ miñ i burt teked þa Skijluna, sem fyrer vorum Augum var, þegar vier ecke þecktum Gud, og skyniudum ecke hvad hans Ande var, hver Skijlañ ad eñ nu hanger fyrer Augum Vesællra Gydinga, so ad Siaaande þa siaæ þeir ecke, og heyrande þa heyre þeir ecke, Rom. 11. Þar fyrer siaaum nu til Christner Meñ, ad vier sem betur upplijster erum eñ Gydingar, ad vier gaungum Forsiaallega, so sem aa Deige, og afleggium Verk Myrkrañа, fylgium ecke Dæmum þeirra Spottarañа, er seigia: Hvar er Dagur hañs Tilkomu? Þeir ed siaa eirn Nakeñ, og klæda hañ ecke, Hwng radañ, og metta hañ ecke, Þyrstañ, og giefa hönum ecke ad drecka, og hylia sig þañig fyrer siinu eigeñ Hollde, Þeir byrgia JEsu Andlit, þvi hañ vill

vill seigia at Essta Deige: Hvad þier giordud ecke einum af þessum mijnum minstu Brædrum, þad giordud þier mier ecke, og þa munu þeir ecke byrgia hans Asioonu, þvi þeir munu sia han, er þeir stwnged hafa, og han þa: En Halsunum munu þeir seigia: byrged oss, og Fiollunum, hrinied yfer oss: Þeir ed draga Synder sijnar i Hlie fyrer Gude, og þær ecke jata vilia, þeir hylia og JEsu Andlit, so han vill þeim ecke Nadugur vera. O! Manneskia, hvor ertu sem þad hyggur, ad þu faier hans Augu blyndad, sem eru Þusundsinnum skiærare en Soolen? Edur sett honum Bryll ur a Naser, sem grant sier hvad i Myrkrunum er huled? Edur mun han ecke sia sem Augad hefur skapad, edur heyra sem Eyrad hefur plantad? Dyl ecke Saar þijn fyrer hinum gooda Meystara, sem fyrer þau Kraankdæme er han bar, og þau Orkumsl er han a sig hlood, kan best ad græda allar vorar Meinsemder, en Manneskian er so farvijs, eins og Sma-Born, ef þau sia Voda nockurn, þa byrgia þau fyrer Augu sier, og meina ad þeim sie eingen Haaske bwen, ef þau sialf eckert sia. So erum og vier, sem siaum i glegnum Fijngur vid sialfa oss, og fyrergiefum oss sialfer marga Hlute, ad vier meinum þad verde þa so alited i Himnenum. En hvad er slijkt anad en ad smyrja Kaun sijn med Purpura-Farfa, hvor þo eru fwen og roten þar under, þvi han sem a Stoolnum situr, han dæmer ecke epter þvi sem hans Au-

ga sier, og ecke so sem hañs Eyra heyrer. Jaatum þvi O Drottne Misgiørder vorar med David, þa mun hañ fyrergiefa oss þær. O ! JEsu allrar Naadar og Myskunar-Bruñur, Lwk þu upp Augum vorum, ad vier þeckium vor Afbrot, og dregum ei Dulur a vora Blygdan; Laat oss kañast vid, ad vier sieum nakter og hofum alls Þorf, so þegar vier a Deige alls Hollds, skulum byrtast fyrer þijnum Doome, ad vier þa ei verdum nakter fundner. Fyrer þa mykla og Oforþientu Skøm er þitt Andlit huled hefur vorra Blood-Skama vegna, þa vyrdstu ad hylia vorar Misgiørder a þeim stræinga Deige, og fær oss i Eitt fagurt Klæde, so ad Blygdan vors Fatleyses ecke Openber verde: Jaa, Eirn hvijtañ Skrwda sem saagadur sie i þijnu Bloode, Þu Saklausa Guds Lamb, sem Veralldarenñar Synder bored hefur, Þier med Fodur og Heilogum Anda, sie Speke og Kraptur, Dijrd og Vellde um Allder Allda, Amen.

* * *
* * * * * *

# Fiorda Midvikudags Predikun i Fostu.

## Textenn.

ÞA tooku nockrer ad spijta a hañ, i hañs Asioonu, og bordu hañ med Knefum, Eñ Þienararner, og þeir

Meñ sem hielldu JEsu, daarudu hañ og sloou, og byrgdu hañs Asioonu, og sloou hañ med Knefum, spurdu hañ og sogdu: Spaa þu oss, Hvør er saa þig sloo? Og margt añad Haaduglegt sogdu þeir vid hñ.

Og strax uñ Morguneñ er Dagur var, søfnuduft samañ og hielldu Raadstefnu aller Ædstu Prestar med Olldungum Lijdsins og Skriftlærdum, og þar ad auk øllu Raadenu, moote JEsu, so ad þeir giæte hønum i Hel komed. Og leiddu hañ upp fyrer sitt Raad, og sogdu: Ef þu ert Christur, seig oss þad? Og hañ sagde til þeirra: Ef eg seige ydur þad, þa trued þier þvi eige, eñ ef eg spyr ydur, þa svared þier mier eige, eda laated mig lausañ. Nu hiedañ i fraa mun Mañsins Sonur sitia til hægre Handar Guds Kraptar. Eñ þeir sogdu aller: Ertu þa Guds Sonur? Hañ sagde þa til þeirra: Þier seiged þad, Eg em hañ. Þa sogdu þeir: Hvad þurfum vier nu Vitnisburdeñ leingur, vier sialfer heyrdum þad af hañs Muñe. Og allur sa þeirra Skare stood upp og bundu JEsum, og leiddu hañ i burt fraa Caiphas, og i Þijng-Hwsed, og Ofurselldu hañ Landsdoomaranum Pon-

tio Pilato, eñ þad var sneiña Morguns.

Þa er Judas sa er hañ hafde For-raad-ed, saa þad hañ var til Dauda dæmdur, Ydradest hañ þess, og færde aptur þeim Ædstu Prestum og Olldungum þa þriaa-tijger Silfur-Peninga, og sagde: Synd-gad hefe eg, ad eg Forrted Saklaust Blood, Eñ þeir søgdu: Hvad kiemur þad vid oss? Siaa þu þar fyrer. Og hañ snarade þeim Silfur-Peningum i Musstered, skundade þadañ, gieck i burt og heingde sialfañ sig. Eñ þeir Ædstu Prestar tooku Silfur-Pen ingana, og søgdu: Eige hæfer ad vier laat-um þa i Guds Kistuna, þviad þad er Bloo-ds-Verd. Eñ þeir hielldu eitt Raad, og keyptu med þeim Leyrsmids-Akur, Fraim-ande Moñum til Greftrunar. Fyrer þad, er sa Akur kalladur Bloods-Akur, allt til þessa Dags. Þa er uppfyllt hvad sagt er fyrer Jeremjam Spaamañ, seigiande: Þeir tooku þa þriaa-tijge Silfur-Penin-ga, er hiñ sellde var med betaladur, hvørn þeir keyptu af Israels Børnum, og hafa giefed þa fyrer Leyrkiera-Smids Akur, ept er þvi sem DRottenñ hafde mier boded.

Og Høfud-Prestarner og Olldungar-

ner, geingu ei sialfer inn i Pijng-Hwsed, ad þeir saurguduft eige, helldur so þeir mættu neyta Paaskana. Pilatus gieck þa wt til þeirra, og sagde: Hvoria Akiæru færed þier i giegn þessum Manne? Þeir svørudu og søgdu til hans: Ef þesse være ei Jllrædis-Madur, þa hefdum vier eige i Hendur feinged þier hann. Þa sagde Pilatus til þeirra: Taked þier hann þa og dæmed epter ydrum Løgum. Gydingar søgdu þa til hans: Oss leifest ecke ad Lijflaata nockurn, So ad þad Orded JEsu uppfyllltest, er hann sagde: Teiknande þar med, hvørium Dauda hann skyllde deya. Enn JEsus stood framme fyrer Landsdoomaranum. Enn þeir tooku ad aaklaga hann, og søgdu: Þennann finnum vier ad hann fraafnijr Foolkenu, og fyrerbijdur Skatt ad giefa Keysaranum, og seiger sig ad vera Kongenn Christum. Þa gieck og i annad sinn inn Lands-Doomarenn Pilatus, kallade JEsum, og sagde til hans: Ertu Kongur Gydinga? JEsus svarade; Talar þu þad af sialfum þier, eda hafa adrer sagt þier þad umm mig? Þa svarade Pilatus: Er eg nockud Gydingur? Þijn Þiood og

Kienne-

Kieñemaña Hofdingiar Ofurseldu þig mier; Hvad hefur þu giort? JEsus svarade: Mitt Rijke er ei af þessum Heime, Ef ad mitt Rijke være af þessum Heime, þa mundu mijner Pienarar strijda þar fyrer, so ad eg Ofurseldest ei Gydingum, eñ nu er mitt Rijke eige þadañ. Pa sagde Pilatus til hañs: Ertu þo samt Kongur? JEsus svarade, og sagde til hañs: Pu seiger þad, Eg em og Kongur, til þess er eg fæddur og i Heimeñ komeñ, ad eg bere Vitne Sañleikanum, og hvør hañ er af Sañleikanum, sa heyrer mijna Rodd. Pilatus sagde til hañs: Hvad er Sañleikureñ? Og þa hañ hafde þetta sagt, Gieck hañ wt aptur til Gydinga, og sagde til þeirra Yppurstu Presta og til Lijdsens: Aungva Søk fiñ eg med þessum Mañe. Og Hofudprestarner aaklogudu hañ hardlega. Og sem hañ aaklagadest af þeim Ædstu Prestum og Alldungum, svarade hañ aungvu. Pilatus spurde hañ aptur ad, og sagde til hañs: Svarar þu aungvu? Heyrer þu ecke? Siaa, hvørsu hardlega þeir aaklaga þig. Eñ JEsus svarade hønum aungvu framar til nockurs Ords, so ad Landsdoomareñ dun-

eg eg hefe fyrer ydar Ohlijdnes Saker straffad, miñ Trwlynda Pivon, sem giordest mier hlijdeñ allt til Daudans; Jæ, allt til Krossens-Dauda; Læted ydur þad svijda, ad Hegningeñ hefur a hønum leiged, so þier kyñud ad hafa Frid vid mig, hverßu hañ er þrælkadur i ydar Syndum, sem er Konungur Konungaña og Drotteñ Drottnaña: Hverßu ad hañ er Bolvan orden, sem er Gud blessadur um̃ Allder: Og ef þad ei kañ ydur til Hiarta ad gaanga, ad hañ er miñ Sonur, þa læted ydur þad Ofbiooda, ad hañ er ydar Brooder, Hollд af ydar Hollde, og Bein af ydar Beinum, Hluttakande Holldz og Bloodz eins og Smaa-Borneñ; Hañ hafe þier sært med ydar Syndum, og auked hønum Mædu med ydar Misgiordum: Pad er hañ, hvers Foorn i ydar Hollde Offrud er, sem ad þvijngar mijn Jdur til Myskunar Dagglega, so eg hlijt ydur Naadugur ad vera: Pad er hañ, sem Oaflaatanlega bidur fyrer ydur, ad eg læte þad Avaxtarlausa Tre standa eñ eitt Ar, ad hañ meige grafa i kringum þad og leggia þar Myke ad; Eñ þier bered swo Vijn-Ber, og vilied ecke aflaata; Eg hefe sleiged ydur, eñ þad hefur ei svided, eg hefe fullkomnad ydur, eñ þier vilied ecke Aganum taka. Pañeg munde Gud til vor tala, ef vær mættum sia hañ og Lijfe hallda: Eñ þad vantar þo ecke, allt hañs Ord sem er a medal vor, þad er fullt af slijkre Klogun, so vier þurfum ecke ad fara i Himeneñ upp til ad

leita

leita ad hañs Vilia. So høfum vier nu þañig heyrt vors Endurlausnara Utgaungu af Jerusalem, og um þa Tveñslags Hoopa er hønum fylgdu.

Nu vilium vier Frañveiges yfervega, hvad Kvalararner hofduſt ad i Aftøku-Stadnum, þar um ſeiger ſo i Textanum: Þeir gaafu hønum Myrrublandad Viin med Galle forblandad. J Ordſkvida Bookareñ ar 30. Cap. ſeiger: Gefed ſterkañ Dryck þeim ed deya ſkal, og Viin þeim Sorgfullu ad drecka, ſo hañ gleyme ſiñe Armædu, og miñeſt ei framar Eymdar ſiñar. Eñ til þeſſa ſyneſt ecke hafa ætlad vered af Kvølurunum, þvi Texteñ ſeiger: Þeir Gaafu Hønum Myrru-bland ad Viin Med Galle For-blandad. Margur hefur þar um talad, hvilijkur ad vered hafe Dryckur þeſſe; Eñ valla er Efe a þvi, ad hañ hefur ſamboded añarre Breitne þeirra vid Frelſarañ. Hvilijk eru nu Oſkop þeſſe? Þar hañ ecke Einaſta alla Noottena var hrakeñ fra Einum Stad til Añars, Sleigeñ, Hwdſtrykur og Þyrnum kriindur ad Morgne. Hiñ þwnga Kroſs bar hañ a Herd um ſier: Hañs Svala-Dryckur voru Hrækar Ogudlegra: Hañs Huggun og Fortølur, Brijxle og Haadungar Gudlauſra Skalka: Helldur og ofañ a allt þetta, bar hañ allra Maña, Vondra og Goodra, Truadra og Vantruadra, Smærre og Stærre, Naalægra og Fiarlægra, Þad er allrar Veralldareñar, Eg ſeige allra þeirra Synder, og allt þeirra Straff, ſo ſem i einum Bagga bunded:

Þad

Pad bar hañ, so ad Dav:d klagar saarlega under hañs Persoonu, Ps. 22 Mijner Kraptar eru uppþornader sem oñur Skúrn, og mijn Tunga loder vid miñ Goom, Pvi þu leggur mig i Daudans Dupt.

Miñ HErra JEsu, ertu ei þetta, sem dryckiader Fedur þeirra af Helluñe i Massa og Meriba? Exod. 17. Pu sem Endurnærder Sæler þeirra med sama Hætte, er þeir mogludu i Cades? Num. 20. Pu sem gafst þrem Konungum Fullsælu Vatns i Edom-Eydemorku ur Grofunum? Ertu ei þad sem dryckiar alla Riett-Trwada med Vellystingaña Straumum af Lijfsens Bruñe, Ps. 36. Pu sem Fedur þeirra hafder læted siuga Hunaang af Helluñe, og Oleum af hinum harda Klettenum, Devt. 32. Er ecke þijnum Muñe Gall bored? Hañ sem alla Hlute ber med Orde sijns Kraptar, Heb. 1. Hañ fær eckert af ollu þvi sem hañ skapad hafde, til ad svala Hiarta sijnu; Saa sem Votneñ hefur utþaned, hañ fær ecke eirn Vatns-Dropa til ad kiæla Tungu sijna, þar hañ kvaldest i þessum Loga, Luc. 16. Lijtum nu Christner Meñ til hins Rijka Vesælings, þar hañ pijndest i Helvijte og Kvolunum, hversu ad Elldureñ er hañs Tungu heitur, ad hañ veinar epter einum Dropa Vatns, af Lazari Fijngre; So Myskunarlaus sem Abraham var vid hañ, þar hañ var Fordæmdur: So litla Myskun feck nu Mañsens Sonur, þa hañ bar Fordæmdra Synder.

Peña

Þeña Kvalaña Þorsta ættum vier Eyliþflega ad ad þola, nema Christur hefde hañ hier af oss teked, so vier i Staden̄ þess, skylldum dryckiader verda af Guds-Hwss Nægdar-Giædum, Ps. 16. Tak-tu þeña Bikar seiger Gud vid Jeremjam, þeña Bikar miñar breñande Heiptar af miñe Hende, og gief þar af ad drecka øllum þeim er eg mun sen-da hañ til, Jer. 25. Þessa Adryckiu hafde allt Syndugt Holld forþienad af Guds Hende, þvi fyrer honum er eingeñ Maña Riettlætur: Eñ hiñ Elskulegaste Guds, mæ þad drecka fyrer Eirn Þverbroteñ Syndara.

O! Jsrael, hvilijkañ Avoxt hefur Guds Vijn-gardur bored honum? Er ecke þetta eirn ville Vijn-Vidur fyrer sætañ, sem hañs Hønd plant-ad hafde, Es. 5. Er ecke þetta eirn añarlegur Vi-jn-Vidur? Er ecke þetta so sem Høggorma og Drekaña Eytur? Er ecke þetta Vijn af Sodoma og Gomorra Akre? Jer. 2. Devt. 32. Er ecke þetta hid Babiloniska Hoorunar Vijn, af hverju Þioodernar drucknar eru? Og eru ei þetta þijnar Rææglætingar syndugur Madur, sem þu Daglega Jñdreckur so sem þurr Jørd Jñdreckur Vatn? Hefur þu ecke øllu þessu blandad vid hiñ sura Dr-yck, sem midt i Kvalaña Bæle var þijnum Lausn-ara boreñ? Þetta liet hañ sier þocknast ad lijda, so ad ef su Mañ-Ræna kiæme einhvern Tijma ad þi-er, ad þig længade epter Gude, so sem Hiorteñ epter fersku Vatne, ad þu i honum sem er Lijfsens

Bruñur

Brunnur, Joh. 6. Hefder eirn Svala-Dryck, so þig þyrste ecke ad Eylijfu; Pina Ræinglætinga Körgur og þær fwlu Dreggiar sem Andskoten haf- de byrlad þier, þad verdur skeinkt a fyrer han, so nær ad Synder þijnar kvelia[illegible]g;) og þier tekur til ad lijda i Briooſt af Offtækiu þeirra, so þig hwong- rar og þyrster epter Riettlæteiu, ad han þa dreipe a þig i Aungvitum Yörunar þinar med sijnu Blo- ode, af þeim Blessunar-Kaleik, sem þier verdur i Heilögu Alltaresens Sacramente boren. O! min HErra, fyrer þin Sorgar-Dryck, hefe eg Ei- rn Glede-Dryck hloted, fyrer Guds Reide-Kaleik hefur þu skeinkt fullt a fyrer mig i einum Vina- Bikar, fyrer þin Kvala-Dryck, hefe eg eirn Sva- la-Dryck feinged, og fyrer Gall og Myrru-bland- ad Vijn, sem þier var bored i Kvolene, mun eg drecka nijtt Vijn med þier i Dijrdene.

Frelsaren villde ecke drecka þenna banvæna Dryck, ecke þad han mælte sig undan Pijslunum, helldur ad han kynne ad endast til ad drecka þan Kaleik ad fullu, er honum var ætladur af Fodurn- um. Han villde ecke deisa Tungu sijna med Eyt- renu, so Munnuren kynne ad bera Vitne um hans Elsku i Hiartanu. Gydingar budu þad, kan- ske i þeirre Meiningu, ad han skyllde ecke eida Ordum til Vandlætis yfer þeim; En han vill- de ecke drecka, so han hefde en þa sijna Tungu O- fferta til ad bidia fyrer þeim, han hafde en þa ecke þeited Ræningianum Paradijs; En þa ecke giort

hina

hina Siidurstu Raadstofun um̃ Moodur siina, hañ hafde eñ þa ecke vitnad fyrer Heimenum, hver su hañ var af Gude yfergiefeñ, so Gud skyllde eirn ydrande Mañ alldrei forlaata: Ecke hafde hañ eñ þa sagt oss hversu miog hañ þyrste epter Velferd vorre, ecke yferlijst Heimsens Endurlausn, og eñ þa ecke faled Anda siñ i Hendur Fødursens, so hañ kiende oss hina Siidurstu Andlaats Bæn. Allt þetta hafde DRotteñ eñ þa Ogiort, og fyrer þvi villde hañ ecke drecka. Þetta Gudlausa Niidings-Verk framfoor i þeim Stad, er a Ebresku kallast Golgatha, Eñ a vora Tungu Hausa-Stadur, og var eitt miog Ofrægt Plaatz, af Straffe Glæpa-Maña, sem þar voru Lijflaatner. Christur gieck uppaa Hausaskelia-Fialled, hvort ad laa eirn ordugur Vegur, so hañ leyste oss fraa Helviite, hvort ad liggur ein breid Gata til Eyliifrar Glotunar. Hañ wthellte siinu Bloode i Ofrægum Stad, so hañ helgade Jordena sem fyrer Mañsens Illsku Saker bølvud var: Hañ lietst i Ohreinu Platze, so ad vier hreiner og kvitter af øllum vorum Syndum, mættum iñgaanga i þa Him nesku Jerusalem, hvar eckert Saurugt maa Iñkomast, Apoc. 22. Judar giordu hañs Hws (sem var Bæna-Hws) ad Ræningia-Bæle; Eñ JEsus giorde Ræningia-Bæled ad Guds Hwse, þar hañ haangande a Krossenum, Offrade sialfum sier Gude til eins Sætleiks-Ilms fyrer Synder vorar; og so Bænum og Audmiukum

H And-

Andvorpunum, med kroptugu Hroope og Taarum til hañs, er hañ frelsa kuñe af Daudanum, Heb. 5. Framar seiger Texteñ; Ad þeir hafe Krossfest hañ i þeim Stad Golgatha : Faa eru þesse Ord, eñ þo full af Krapte, þvi af þeim hænger oll vor Velferd og Saaluhiaalp, sem Christur hefur oss a sijnum Krosse utvegad. Krossfestingeñ var hiñ Smaanarlegaste Daude; þvi seiger so Moises, Devt. 21. Saa hiñ Uppheingde er ein Andstygd fyrer Gude, og þad var so Ofrægt medal Heidingiaña, ad Cicero skrifar, þad er Glæpur ad binda Romverskañ Borgara, Ogiørningur ad Hydstrijkia, Oboota-Verk ad drepa. Hvad skal eg þa kalla þad ad Krossfesta? Eñ hier a urdu nockur Umskipte i Krossfestingu DRottens: Fyrer Kvolurunum var þad sama. Eñ i Guds Dijrdar fulla Auglite laangtum odruvijse, þvi JEsus a Krossenum hangande, er fagur i Guds Augum, og eitt Forlijkunar Offur fyrer vorar, og ecke ad eins fyrer vorar, helldur fyrer allrar Veralldareñar Synder: Og so vidurstiggelegt sem ad var þetta Straff, so var þad og saart og biturt ad lijda. Strijds-meñerner, þeir Ogudlegu Kvalaña Prælar, þeir standa hier til allrar Ohæfu buner i krijngum þad saklausa Guds Lamb; Þeir hrinda Krossenum af hañs Herdum; Þeir framreida Plijslar-Færeñ fyrer hañs Augum; Þeir slijta hañs Klæde fraa hañs Bloodrisa Lijkama; Þeir utþenia hañs blessadañ Fadm, sem

sem hañ utbreider allañ Dageñ til eins Ohlijdugs Foolks; Þeir stegla hañs Hendur og Fætur med Goddunum a Tried, sijdañ hænger allur hñs Lijkamans-Þunge a Premur Jarn-Noglum. Siaaed nu Mañeñ Christner Meñ: Hier hænger hiñ Blessade i Jsrael so sem ein Bølvan mille Himens og Jardar, so þad Ord uppfyllteft, er hañ talade fyrer Muñ Davids, Ps. 22. Þeir hafa mijnar Hendur og Fætur i gegnum grafed; Jaa, ein oñur Ritning er hañ siaalfur talade med sijnum eigeñ Muñe: Þa eg verd fra Jorduñe upphafeñ, mun eg draga alla til mijn: Þetta talade hañ, seiger Johañes: Teiknande med hverium Dauda hañ deya munde, Joh. 12. Bølvadur vere sa sem ecke helldur allt þad sem skrifad stendur i Logmaals-Bookeñe, seiger DRotteñ Zebaoth, Devt 27. Þad giordum vier eingañ veigeñ, þvi vier geingum epter Høfdingia Veralldar þessarar i Gyrndum vors Hollds, giørande þad sem voru Hollde og Hugreñingum þocknadest, og vorum af Naatturuñe Reideñar Born, seiger Paulus: Eph. 2. Þar fyrer høfdum vier ecke einunges Tijmañlegañ Gaalga forskulldad, helldur Eylijfle ga ad steglast a þeim hrædelega Kvalaña Gaalga, ecke med Galle og Edike ad dryckiast, helldur med Ellde og Breñesteine, ecke uñ þriaar Stunder, helldur uñ alla Eylijfd. Bølvadur vere sa sem hænger a Trienu, seiger Logmaaled: Eñ hvad seiger Paull,

Gal. 3. Christur hefur endurleyst oss af Logmalsens Bølvan, orden Bolvan fyrer vorar Saker; Þvi skrifad er, Bolvadur sie sa, sem a Trienu hanger. Vier vorum Skullda-Prælar Almattugs Guds, og sialfdæmder til ytstu Myrkra, þar til vier hefdum golldeð hin sijdarsta Pening. Nær munde þad hafa gietad skied af sialfum oss? Ecke um alla Eylijfd: En Guds Sonur er stijgen uppa Tried med þa Handskriftena, sem a moote oss var, hana hefur han a Krossen neglt og burtu teked, seiger Paull, Col. 2. Og oss aptur eina Kvittun gefed med sijnu eigen Blode ritada a Hiørtu vor med Guds Fijngre, sem er Heilagur Ande, hvør ad er Pantur Arfleifdar vorrar, og ber Vitnesburd vorum Anda, ad vier sieum Guds Born, Rom. 8. Hun er þanveg laatande, ad þar sie eingen Fordæming framar a þeim, sem eru i Christo JEsu, þeim sem ecke epter Holldenu, helldur epter Andanum ganga: So hefur þu loked hin sijdarsta Pening min HErra JEsu: Alla Sumnuna hefur þu golldeð DRottne: Barrabas slapp, en Christur er uppa Galgan heingdur: Prælen er kvittur, en DRotten er Krossfestur. Gief þu nu Jesu min, gief þu nu fyrer øll þau Hrigdar-Spor, er þu gieckst fra Gabbatha til Golgatha, þa gief þad DRotten, ad nær vier eigum ad ganga fra Golgatha til Gabbatha, þad er fra Daudanum fyrer hin Hærsta Riett i Himnenum, ad hin blessade Krossburdur-

burdur sie ofs þa fyrer Augum, so ad vier mættum fylgia þier Otrauder i giegnum Daudans Skugga iñ i eylijft Lioos, og þa Himneſku Paradijs, hvar Gud er allt i øllu, og eingeñ Umſkipte framar Lioossens og Myrkursens: Þad Bænheyre goodur Gud, fyrer JEsu Christi Skulld, Amen.

* * *
** ** **

# Siøtta Midvikudags Prediſkun i Føstu.

## Textenn.

ÞA Strijds-Meñerner høfdu Kroſsfest JEsum, tooku þeir hañs Klædnad, og giørdu a Fiøgra Hluta Skipte, Sierhvorium Strijdsmañe eirn Hlut, og vorpudu þar uñ Hlutkieſte, hvor ad hñ ſkyllde hafa, og þar med Kyrteleñ, eñ Kyrtelleñ var eige ſaumadur, helldur fra Ofañverdu allur prioonadur: Þa toludu þeir ſijn a mille: Skiptum vær honum eige i ſundur, hlutunſt helldur uñ hvørs hañ ſkal vera, ſo ad Ritningeñ uppfylldeſt, hvad ſagt er fyrer Spamañeñ, er ſeiger: Þeir ſkiptu med ſier Klædum mijnum, og

 a uiñ

a miñ Kyrtel þa løgdu þeir Hlutkieſte. Og þetta giørdu Striјdsmeñerner, og Foolked ſtood og horfde a. Og þeir ſem geingu þar fram̃ hia, hæddu hañ, ſkooku Høfud ſijn, og ſøgdu: Svei, hvørneñ nidurbrijtur þu Muſtered, og uppbigger þad aptur a þremur Døgum? Hiaalpa þu nu ſiaalfum þier, Ef þu ert Guds Sonur, og ſtijg nidur af Kroſſenum. Og Høfdingiarner ſpottudu hañ med þeim, lijka eirneñ hæddu hañ þeir ædſtu Preſtar ſijn a medal med Skriftlærdum og Ølldungum, og ſøgdu: Ødrum hefur hañ hiaalpad, ſiaalfum ſier gietur hañ eige hiaalpad. Sie hañ Chriſtur og Kongur Iſraels, þa ſtijge hañ nu nidur af Kroſſenum, ad vier ſiaaum og meigum ſo trua hønum. Hiaalpe hañ nu ſiaalfum ſier, Ef hañ er Chriſtur hiñ Utvalde Guds. Hañ treyſte Gude, hañ frelſe hañ nu, ef hañ hefur Lyſt til hañs, þviad hañ ſagde: Eg em Guds Son. Ad hønum hæddu og Striјdsmeñerner, geingu til hañs og færdu hønum Edik, og ſøgdu: Ef þu ert Konungur Gydinga, þa hiaalpa þier ſialfum. Lijka eirneñ hæddu hañ Ræningiarner, þeir med hønum voru Kroſſfeſter. Eñ
eirn

eirn af þeim Spillvirkium sem heingdet voru, lastade hañ og sagde: Ef þu ert Christur, Frelsa sialfañ þig og ockur. Þa svarade hiñ añar, straffade hañ og sagde: Og þu hrædest ei helldur Gud, sem ert þo i eins Fordæmingu; Og ad söñu skier ockur þetta Riettelega, þviad vier medtøkum hvad ockar Giørder voru verdar; Eñ þesse hefur eckert Osfickanlegt giørt. Og hañ sagde til JEsu: DRotteñ, miñstu mijn þa þu kiemur i Rijke þitt. Og JEsus sagde til hañs: Sañlega seige eg þier, J Dag skalltu vera med mier i Paradijs.

Eñ þar stoodu vid Krosseñ JEsu, Mooder hañs og Moodur-Syster hañs, Maria Hwsfru Cleophæ, og Maria Magdalena. Þa JEsus sa nu sijna Moodur, og þañ Læresvein þar nær standande, er hañ elskade; Seiger hañ til siñar Moodur: Kona, sia þu, þad er þiñ Sonur. Epter þad seiger hañ til Læresveinsins: Sia, þad er þijn Mooder. Og upp fra þeirre Stundu took Læresveirneñ hana ad sier.

Og þad var nær uñ hina Siøttu Stund, ad Myrkur giørdest yfer allt Landed, allt nær til Nijundu Stundar, og Sooleñ

miste sitt Skyn. Og um̃ Nijundu Stund kallade JEsus hærre Røddu, og sagde: Eli, Eli, Lama Sabachtani. Hvad ed wtlegst, Gud min̄, Gud min̄, hvar fyrer forlietstu mig? Og nockrer af þeim er þar stoodu hiaa, þa þeir heyrdu þad, søgdu þeir: Siaa, Han̄ kallar a Eliam. Epter þad, þa JEsus visse ad allt var nu Fullkomnad, og ad Skriften̄ yrde uppfylld, þa seiger han̄: Mig Þyrster. Þar stood eitt Kier fullt af Edike, jafnsnart hlioop eirn af þeim til, og took Niardarvott, og fyllte af Edike, og sette han̄ ofan̄ a eirn Reyrlegg, og gaf hønum ad drecka, og sagde: Laat vera, Siaaum hvørt Elias kiemur ad taka han̄ ofan̄. En̄ adrer søgdu: Bijded, laated siaa hvørt Elias kiemur ad hiaalpa hønum. En̄ þa JEsus hafde Ediked til sijn teked, sagde han̄: Þad Er Fullkomnad. Og JEsus kallade upp hærre Røddu i an̄ad Sin̄, og sagde: FADer J ÞJJ Nar HEndur, Fel Eg Min̄ ANda. Og er han̄ hafde þetta sagt, ad hneigdu Høfde, uppgaf han̄ sin̄ Anda.

Og siaa, ad Tialldsed Musterésins rifnade midt sundur i tvo Parta, fraa Ofan̄-

verdu

verdu, allt nidur i giegnum, og Jørdeñ skalf, og Biørgeñ klofnudu, og Grafernar lukust upp, og marger Lijkamer Heilagra risu upp, þeir ed sofnadu, og geingu epter hañs Upprisu wr Grøfunum, og komu i hina Heiløgu Borg, og Auglijstust þar mørgum. Eñ er Hundrads-Høfdingeñ, hvør þar stood giegnt, sa þad hvad þar skiede, og ad hañ kallade so, þa ed hañ lietst, prijsade hañ Gud, og sagde: Ad vijsu hefur þetta eirn Riettlatur Madur vered og Guds Sonur. Og þeir sem med honum voru ad vardveita JEsum, þa þeir sau Jardskialftañ, og þad hvad þar skiede, urdu þeir miøg Ottaslegner, og søgdu: Sañlega var þesse Guds Sonur. Og allt Folk, er þar var hia og horfde a, sem þeir sau hvad þar skiede, Barde þad sier a Briost og snere i burt aptur. Eñ aller hañs Kuñingiar stoodu laungt fra. Þar voru og margar Konur, sem sau þar uppa aleingdar, medal hvørra ad var Maria Magdalena og Maria hiñs litla Jacobs, og Josephs Mooder og Salome, Mooder þeirra Zebedei Sona, þær honum høfdu epterfylgt, þa hañ var i Galilæa, og þioon-

ad hønum, og margar adrar, hvøriar med hønum høfdu uppfared til Jerusalem, wr Galilæa, og horfdu a þetta.

## Exordium.

VIlltu ecke frelsa Fangañ sem til Dauda er dæmdur, og hañ sem liggur vid Lijflaate, þar þu seiger: Vier þeckium ecke þeña? Meinar þu ecke ad hañ sem rañsakar Hiartad, hañ merke þad, og hañ sem tekur Vara a Saalu þiñ e, hañ þecke þad? Mun hañ ecke giallda hverium Mañe eptir Verkum sijnum seiger Salomon? Prov.24. Ef ad hiñ Riettlaate Gud, sem eirn Mañ hefur ødrum til Hiaalpar skapad; Ef ad hañ er so vandlaatur vid þañ sem dreigur sig i Hlie, þar hñ mætte hiaalpa Løgræningnum sem er adkomeñ Dauda, ad hañ vill merkia þad og krefia þess af hañs Hende: Hvad mun hañ þa vilia giørt hafa vid þañ sem hiñ saklausa heimter til Daudans, um hveria hiñ Vijse talar i siñar Bookar ødrum Cap. a þeña Haatt: Vier vilium umkrijngia hiñ Riettlaata, þvi hañ er oss oþarfur, og hañ mootstendur Giørdum vorum, og brixlar oss um Synder vorar, hañ er giørdur til ad reka til Baka Hugrenner vorar, þad er oss þungt ad sia hañ, þvi ad hañs Lijfserne er O lijkt ødrum, og hañs Veiger liggia a adra Leid. Nu er Illmenska þesse so mikel, ad valla maa Ohæfañ stijga hærr a upp; Eñ þad eikur þo miklu a Straakskapeñ, þegar no ecku gledst af Oførum sijns Naunga, er hañ sialfur hefur spuñed Togañ til, og jafnvel þoott hañ ætte fyrer Syn der sijnar lijda: Pvi valla er nockurt so Staal-sleiged Hiarta, ad ecke siae Aumur a þeim sem Hegningu sæter fyrer Afbrot sijn: Og hvad skal eg þa tala um þañ sem hlackar yfer þvi Raanglæte sem yfer hiñ Riettlaata geingur. Petta maatte hañ þo lijda af Ogudlegum Mønum, sem er Jehova vort Riettlæte, Guds Eingeteñ Sonur, hr ørn eingeñ kuñe ad straffa um nockra Synd. Eg hefe a na ckrum fyrerfarande Midviku-Døgum talad þar um,

hver-

hverneg hañ var spottadur af Biskups-Pienurunum, illa utleikeñ i Pijng-Hwsenu af Strijds-Mønnunum, hraktur a Beigenum, Kryssfestur i Aftokustadnum: Eñ nu vil eg ad Sijdurstu þar um tala, hvilijka Smaan, Brixle, Kalls og Gudlastaner, hañ vard ad heyra a Krossenum. Legg þu mier Maal i Muñ DRotteñ, og Uñskier Eyru Barna þiña, so ad þetta Eyrende vel takest, fyrer þijns dijra Nafns Skulld, Amen.

## Utleggingeñ.

Hiñe Sijdurstu Grein Pijslar-Søgu DRotteñs, sem leseñ var af þessum Heilaga Stad, feingum vier ad heyra, ad hañ Krossfestur var a millum Tveggia Ræningia. Hañ sem a millum Tveggia er settur, hañ var ford um Daga mest meteñ. Salome beidde DRotteñ uñ, ad sijner Syner mættu sitia Eirn a Hægra Veg honum, eñ Añar a Vinstre i hañs Rijke, hun meinte þeir skylldu honum nærster verda ad allre Tign og Heidre: Eñ hier var eingre Byrdingu ad skipta, hier var ecke nema Skom og Sneipa a Ferdum: Þeir hafa an Efa sett hañ midt a millum Ræningiaña, so sem hiñ Argasta Ræningia, hañ sem þo gallt þad hañ ecke rænte, hañ sem ei hiellt fyrer Raan edur stærde sig af þvi, ad hañ Gude jafn var, helldur took a sig Mynd eins Pioons, ordeñ Moñum lijkur, hañ er medal Obboota-Maña reiknadur: Hañ ed skijn i Dijrdeñe, midt a medal hiña Tveggia Guddooms Persoonaña, honum velia þeir Plaatz millum Tveggia Spillvirkia, og so ad eg føre Soñur a Maal mitt, ad þetta hafe vered

giort

giørt til Smaanar honum, þa seiger Texteñ: Eñ Peir Sem Frañ-Hiaa Geingu, Løstudu Hañ Og Skooku Høfud Siin. Eckert leggia þeir til Ræningiaña, hvørsu Ofræger sem þeir voru, hañ alleina vard fyrer þessare Smaan, midt i Strijdenu vid Daudañ, sem alleina hefur Daudañ sigrad, þeir løstudu hañ alleina, hvørn eingeñ kuñe fyrer nockra Synd ad lasta, Peir skooku Hofud siin yfer hañs Forsmaan og Hørmungu, hvern Einglarner og Hofud-Einglarner tilbidia: Peir skooku Høfud siin seiger i Textanum: Pad var Venia þeirra aa Stundum i Fyrndeñe sem aumkudu nockurn; Eg skyllde og samsetia Rædu og hrista Høfud mitt yfer ydur, sagde Job vid Vine sijna, Job. 16. Og uñ þa stendur, ad þeir hafe aused Molld yfer Høfud siin og huggad hañ i øllum hañs Mootgaange, Job. 2. Eñ hier var eingeñ Huggun, eingeñ Myskun, helldur i Stadeñ þess, Lastmæle, Hææd og Kesfne: Er þvi þetta ad skilia, so sem DRotteñ sagde uñ Senacherib, Jomfrweñ Zions Dootter hæder ad þier, og Jerusalems Dootter hun skekur Høfuded epter þier, 2. Reg. 19. Eñ yfer honum sem þetta liet seigia hinum Stoorlaata Konunge, vegna Fedra þeirra, hvørs Eingell ad drap aa eirnre Nootu 120. Pusunder Mañs, i hañs Herbwdum, yfer honum skaka þeir nu Høfud siin. Hier er framkomeñ Spaadoomur Davids, er hañ seiger under Persoonu Christi, Ps. 22. Aller þeir ed siaa mig, spotta mig og hrista med Høfdenu, Jaa,

þier

þeir sáu og mig og skooku Hofud sijn, Ps. 109. Hverier voru nu ad Skiemtan þessare? Þeir sem Fram-Hiaa geingu, seiger Textenn: Almwgenn aa Esa, þeir ed wt voru geingner til ad svala sier aa Bloode hins Riettlaata; Adur hofdu þeir hroopad: Krossfestu, Krossfestu hann. Hier vilia þeir siaa Villd sijna aa honum, þvi David seiger i þeirra Orda-Stad: Vel, Vel, Vor Augu hafa sied þad, Psalm. 35.

HErra Gud, valla er nockur Hlutur Sorglegre ad hyxa umm enn Vanþacklæted i Heimenum: Eingenn Efe er a þvi, ad margur hefur vaded i þessum Vitstola Flocke, hvers Borgar-Menn og jafnvel Vine og Naaunga ad JEsus læknad hefur, þvi fyrer utann oll þau Myskunar og Krapta-Verk sem upp eru teiknud af Gudspiallamonnunum, þa seiger Johannes, ad JEsus hafe marga adra Hlute giort, hverier ef aller sier i Lage ritast skylldu, þa munde Heimurenn ecke taka þær Bækur sem skrifast mættu, og kunna Menn ecke þad ad ætla, ad þetta Ill-Þijde hafe Hlutlaust fared af hanns Myskunar-Verkum, þvi hann gieck i krijng, giorde gott og græddde alla þa sem af Imislegum Siwkdoomum halldner voru: Enn þetta eru nu hanns Packer sem allt giorde vel, liet Daufa heyra og Maallausa tala. Bregdstu þvi ei Okunnugur vid, Barn mitt, þott Verolldenn legge þier illa i Pock: Guds Sonur fieckst eckert umm Smaan þessa, ecke gafst hann upp vid Endurlausnar-Verked haalf-brwed, þott hann mætte þetta heira:

Þu

Þu skalltog ecke helldur þreytast Gott ad giora, hverneg sem þier er launad; Ætla ecke ad þier sie Vandara um eñ honum, Hafe þeir Hwsbondañ Beelzebub kallad, hvad munu þeir ecke giora vid hañs Heima-Meñ? So sem Guds Sonur kom i Heimeñ til ad niðurbriioota Diøfulsens Verk, so er þad og Diøfulsens Ydiq, ad niðurbriioota Guds Verk: Laat honum þad ecke takast Guds Vinur, helldur fylg epter Lausnara þijnum i þessu sem øllu ødru, allt hvad þu gott giorer, þad giorer ecke þu, helldur sw Guds Naad sem med þier er, so ad hañ sem vanþackar þier, hañ vanþackar ecke þier, helldur Gude sem gaf þier bæde Viliañ og Mættañ, hañs er Rijked, Mættureñ og Dijrdeñ, þu ert alleina hañs Umbods-Madur, Laat þvi Diøfuleñ og hañs Børn hafa Gaman af Vanþacklætenu, Sa Dagur mun koma, ad þeirra eigeñ Preck mun kastad verda i Naser þeim, eñ þu munt skijna eins og Sool i Rijke þijns Fødurs. Hvor eru nu Brixleñ fram ar? Svei, ERtu Hañ Sem NJDurbrautst MUstered, Og BYgder Pad Upp Aptur a Prem Døgum. Alldrei hafde DRotteñ þad so talad, So hafde hañ sagt: Briioote þier þetta Mustere, eñ eg mun þad a þridia Deige upp aptur reisa: Eñ hñ talade um sijns Lijkama, seiger Johañes: Og so længt var fra þvi, ad hañ meinte Jerusalems Mustere, ad hid Gudlausa Kieñevalld, þeir villdu ecke taka Fals-Vottana fyrer gyllda, sm̃ þetta bæru. Pañeg er nu Almwgeñ þegar hañ tekur

ur til ad henda Lijgena Muña a mille (Eg frææst til alla Rædvanda Meñ, sem leggia nockurt Haft a Tungu siina, þvi þad være ecke gott ad allur Jsrael skyllde hafa beigt siin Knie fyrer Baal) Pañeg er hañ, seige eg, þegar nockrum Ohroodur er liooftad upp, jafnvel uṁ gooda Meñ, sie þad Satt edur Log ed, þad skal þo Satt heita, og þykest saa Goodu bættur, sem nockru gietur vidauked. Þegar Tungañ er upptendrud af Helvijte, seiger Jacob, og upptendrar siidañ alla þess Mañs Uṁgeingne, sem hefur leigt hana Fiandanum, til ad spilla Virdingu Naunga siins, og hañs goodu Mañ-Orde: Eñ hvar fyrer mundu þeir nu brixla DRottne hellst uṁ Kyrkiuna? Mun ecke þess vegna, ad þeir hofdu meire Mætur aa heñe, eñ aa Guds Bodordum. O! Hversu vel hefur þesse Diøfulsens Samkunda uppfyllt Mæling Fedra siña. Eru þad ei þeir, til hverra Gud sagde: Hafed ecke Traust ydar aa fæænijtum Hlutum, seigiande: Guds Musterre, Guds Mustere er þetta, Jer. 7. Helldur giøred ydar Vegu gooda, og dæmed riett aa millum eins Mañs og añars: Skylldud þier stela, Meñ vega, sveria Ranglega og færa Baal Foorner, og standa þo fyrer mier i þessu Hwse? Þetta giørdu Fedurner: Eñ hvad giøra Nidiar þeirra? Mustered giørdu þeir ad Ræningia-Bæle, Eñ hid saña Guds Mustere, i hveriu ad bioo øll hañs Fylling Lijkamlega, þad festu þeir uppaa Krossseñ mille Tveggia Ræningia; Þeir hrooſudu sier af Logmaalenu,

maalenu, eñ Barraba sleptu þeir, og JEsum koll-udu þeir Dauda-Sekañ. Nu þoott ad DRott-eñ hefde talad þesse Ord uñ Jerusalems Mustere, munde hönum nockud vera þad Omogulegt, sem alla Verolldena giorde aa Sex Dogum? Var þad ecke hañ, er sagde vid Fedur þeirra, Fared til mijns Stadar, sem var i Silo, hvar eg liet mitt Nafn fyrst bwa, og siaaed hvad eg giorde hönum Sokum Illsku mijns Foolks Jsrael? Hvad var þad DRotteñ? Pad, ad þu leisder ad Saatt-maals-Orkeñ, hvor ed var Fulltrwe Jsraels Bar-na, ad hun yrde hinum Ouñskornu Philistæis ad Herfaange, so ad hun kom sijdañ alldrei meir i þañ sama Stad. Eñ hvad seiger nu DRotteñ uñ Salomons Mustere skoñu sijdar i þessum sama Cap? Eg skal giora vid þetta Hws, sem epter mij-nu Nafne er kallad, aa hvort þier treysted, og vid þeña Stad, er eg gaf ydur og Fedrum ydar, so sem eg giorde vid Silo. Mundu ei þesse DRotteñs Ord sañast, þegar Nebucadnezar liet þad nidur ad Velle brioota, eñ took Foolked Herfaange? Hvad munde þa nu vera i þessu sijdara Mustere, sem helld ur kyñe ad frelsa þad fraa Oluckuñe, helldur eñ hid Fyrra, nema saa Drottnareñ, sem Micheas uñ-spaaer, hvorn þeir Krossfestu, nema saa Hyrningar Steirneñ, hvorium þeir wt-kostudu? Alltijd er Diøfulleñ siaalfum sier lijkur i Vantrwareñar Bornum: Fedur þeirra villdu ecke trwa Spaa-moñunum, sem toludu til þeirra i Nafne DRott-

eñs

eñs, þesser ei helldur Synenum, er Fadereñ talade til þeirra, fyrer hañ, Hebr. 1. Jafnvel þott hañ segde þeim noogu skoruglega, ad þeirra Hws skyllde þeim i Eyde laated verda, og ecke skyllde i þvi Steirn yfer Steine vera. Lærum hier af, Christner Meñ, ad ei kollum vier þad fulla Guds Dijrdkun, ad vyrda hañs Hws og sækia þad, nema vier prijdum þad Guds Mustere, sem iñe hiaa oss er, og heiter Hiarta vort, med Christelegum Dygdum: Alla Vyrdingu aa ad veita Guds Hwse og ollum þeim Hlutum, sem honum sier i Lage vidkoma.

Þad heyre eg til Gylldes taled Hundrads-Hofdingianum, ad hañ upbygde Samkundu Gydinga: Eñ hitt byriar ad giora Born mijn, og þetta ecke epter ad skilia, þvi hvor hañ iñgeingur i Guds Hws til ad heyra hañs Ord, og færer þaangad med sier Ovine Krossens Christi, sem eru þær Synder, er hañ ecke ydrast vill, edur og aasetur ad drygia framveiges, hañ saurgar þad, og er eingu betre eñ þeir ed giordu Mustered ad Ræningia-Bæle. Ef Þu Ert Gllds SOMur, Þa STijg OFañ Af KRossenum, seigia Varmeñe þesse: Ecke er þess Von, ad Epled falle lang fra Eikeñe. Diofulleñ hafde aadur sagt, er hañ freistade DRottens: Ef þu ert Guds Sonur, þa stíg þier hier ofañ af, og og hier aavarpa hañs Born hañ med somu Ordum. O! hver ñ Faaviis er Holldlegur Madur, ad skoria þad sem Anda DRottens er: Þeir sogdu nu ñ HErra, Ef Þu Ert GUds SOnur, Þa STijg

Ofañ Af Krossenum: Eñ af þvi ad þu varst Guds Sonur, þa villder þu ecke ofañ stijga, þu stoodst hier ad þvi Verke sem var miklu meira, miklu Guddoomlegra, eñ ad stijga ofañ af Gaalganum, þu hafder geinged a Hoolm vid hiñ sterka Hervopnada, þu hafder teked hier Daudañ, Helvijte og Diofuleñ i Faang þier, þu villder ecke af Hoolmenum gaanga, fyrr eñ Daudeñ var i Sigur upp-svelgdur, Helvijtaña Port nidurbroteñ, og Hoggormsens Haus i sundur trodeñ, eñ hañ Utsnaradur: Hvad liett var þier sem komst wr þeirra Hondum, er þeir villdu grijta þig, sem braust þa a Bak aptur med einu Orde, er þeir villdu grijpa þig; Hvad liett var þier ad stijga ofañ af Krossenum? Þu varst añad ad starfa DRotteñ miñ, helldur eñ ad leika fyrer Spie-Fuglum þessum, sem þier munde þo ecke truad hafa, so morg Teikn og Stoormerke hafder þu giort hia þeim Forgiefens, þu gatst laated Ræningiañ stijga ofañ af Krossenum, sem leid fyrer Synder sijnar, auk helldur hiaalpad sialfum þier. Eñ þad var Krapta-Verked miklu meira, miklu meira Mysknar-Verk, ad þu gafst honum og ollum Sañydrande Stoor-Syndurum Paradys og Eylijfa Vist, med þier i Rijke Himnaña, Þier sie Lof, Prijs og Æra, ad Eylijfu, Amen.

Þetta giorde nu Almugeñ sem fram hia gieck, Hofdingiarner, hiner Yppurstu Kieñemeñ, Phariseæi, Olldungarner og Skriftlærder, hielldu eirn Hoop og spottudu hañ sijn a mille, seiger Texteñ.

Hier

Hier kiemur mier i Hug þad sem Jeremias skrifar i sinar Maala-Bookar, 5. Cap. Eg sagda, þesser hiner Umkomulausu breita Faavijslega, þeir þeckia ecke Veg DRottens, nie Riettinden Guds sijns: Eg vil fara til Hofdingianna og tala til þeirra, þvi þeir kuña Veg DRottens og Riettinde Guds sijns; Eñ þeir hofdu allt eins Oked i sundur-broted, og Bonden slited. Hier vill þad nu eins heita, og a Jeremiæ Dogum. Pad er ecke Trwlegt, ad Almwgen munde hafa heimt JEsum under Lijflaat, nema ad Hofdingiarner hefdu eggiad þa, þviad allt Foolked hnie ad honum, og leinge vogudu þeir ecke ad leggia Hendur a hañ þeirra vegna; Eñ er þeir Einusiñe hofdu flekad þa til ad bijta Hofuded af Skomeñe, þa gieck saa Skynlause Mwguren afram i somu Blindne, allt til þeirrar Ohæfu, ad þeir spiadu DRotten og lostudu haangande a Krossenum, fyrer þeirra og allrar Veralldareñar Synder, og er hier af audsært, hvilijk Drepsott þad er i Einu Lande, nær O-Raadvander Meñ i Volldum sitia, þeir ed hverke Ottast Gud nie Meñ ena, so sem Christur seiger epter hinum Raanglaata Doomara hiaa Lucam: Adrar Land-Plaagur svipta Moñunum i burtu, og so er þad wte med þa, Eñ Raanglæted þad lætur bæde Vonda og Gooda fyrerfarast lifande: Vonda ad soñu af þvi, þad elur med þeim Straakskapeñ, og hegner ei vondra Verka, allt þar til þeir koma under hiñ stoora Allsheriar-Doom, hvar Urskurdureñ mun verda þesse:

Viiked fra mier aller þier ed Ranglæted æfed: En Gooda Sokum þess, ad þeir jafnan eru Ofriike hiña og Afælne underorpner, So þad framkiemur sem DRotteñ klagar yfer hia Esajam, Cap. 59. Sañleikureñ er i burtu vikeñ, og hañ er sneider hiar Illu, hañ giorer þad, ad hañ verdur Skynlaus halldeñ: Ia, i einu Orde ad seigia, hvilijkar Þodd ur eru nockurskonar Atu-Mein Landa og Lijda, Eitt Net i Mispa, og ein Taal-Snara a Tabor; Og so sem DRotteñ um Babylon talar, eirn Meist are til ad fordiarfa.

Hvad seigia nu þesser Viisu Meñ? Adra Hefur Hañ Frelsad, Sialfañ Sig Gietur Hañ Ecke Frelsad: Þesse Smaanar-Ord fara ei langt fra Almugans, so ad hverutveggiu mættu sijnast, i einu Moote steypt ad vera, nema ad þeirra voru þess verre sem þeir attu ad heita Meñerner meire, þar þeir brixla honum um sijn Guddoomleg Myskunar-Verk: Þetta eru Þacker þær miñ HErra, er þitt eiged Folk gallt þier, fyrer þad ad þu rakst wt Diofla, hreinsader Lijk-Þraa, Uppvakter Dauda, Lækn ader Blynda, Reister Hallta a Fætur, og lietst Maallausa tala. Ef Hañ Er CHristur, Sa ISraels KONungur, STijge Hañ Ofañ Af Krossenum, So Vier Siaum þad Og Truum Honum. Þier Vitfyrringar, var ecke þvi um Christum spaad, ad hañ skyllde þesse Krapta-Verk giora, er strax voru upptaleñ? Medkieñe þier ei hier ad hañ hafe þau giort? Eñ nær var þvi spaad, ad hañ skyll-

de stiiga ofañ af Krossenum? Þvi var uñ hañ spaud, ad hañs Allit skyllde Vidurstyggelegra verda eñ añarra Maña, ad hañ skyllde Madke og ecke Mañe lijkur verda, þad vari Eyrormenum fyrermyndad, sem Moises upphoof, ad hañ skyllde og a Tried upphafeñ verda. Allt þetta saau þier nu fyr er Augum ydrum; Mundud þier helldur trwad hafa, þott hñ hefde stijged ofañ af Krossenum, þar þier trwdud ecke ollu þessu? Og ecke, mykłu helldur sagt hafa, ad fyrer Beelzebub Diofla-Hofdingia være hañ ofañ stijgeñ. Spaameñerner giordu Krapta-Verk, þo Aflijfudu Fedur ydrer þa, Eingeñ af þeim giorde þo slijk Krapta-Verk sem JEsus giorde, þo trwdud þier honum ecke: Þier Hræsnarar, sem uppbygdud Leide Spaamañaña og sogdud; Hefdum vier lifad a Dogum Fedra vorra, þa villdum vier ei hafa vered Lagsmeñ þeirra i Draape Spaamañaña. Eñ Hertoga Lijfsens skoñ̄udust þier ydar ecke af Dogum ad raada.

Sialfum Sier Getur Hañ Ecke Hiaalpad, sogdu þeir, nær hañ ysergefeñ og Hiaalparlaus, giørde alla Verolld hoolpna. Jaa HErra, vijst gatstu hiaalpad sialfum þier; Hvor byrgde Soolena? Hvor klauf Biorgeñ? Hvor skook Jordena? Hvor reif For-Tialld Mustereseñs i sundur? og upplauk Grofum Framlideña, neina þu Frumburdur hiña Daudu? Ad vijsu gatstu hiaalpad sialfum þier, Herra, þegar þu tookst sialfur aptur Saalu þijna, er þu hafder sialfur fraa þier laat-

ed, og reist sialfur upp ad luktre Grøfeñe, og Steinenum O=afvelltum. Eñ þier vissud ecke þetta þier Høfud=Prestar og Olldungar: Eg læt þad satt vera, þvi þad villde Bruñur Myskunar, ydur til Afbøtunar duga læta hia Fødurnum, þa þier kvøldud hñ, ad þier vissud ei hvad þier giørdud: Eñ sialfskopud voru Vijte þesse; Vissu þier hñ hafde uppvaked Lazarum skømu ædur eñ þetta skede, þier sem alla Ritningareñar Bookstafe taled høfdud: Læsud þier alldrei hia David, ad DRotteñ sie alleina sa ed fra Daudanum frelsar? Mættud þier ecke þa vita, ad þesse Guds Sonur være; Edur ad vijsu Guds Kraptur i hønum: Edur nær vissud þier Beelzebub reisa nockurn fra Daudum? Pvi hielldu þier þa Ræd=Stefnu um Christ, hverneg þier mættud hañ af Døgum ræda, er hafde Lazarum uppvaked? Pier vissud þad ecke seige eg, Pvi sogdud þier þa vid Pilatum, ad hañ hefde giort Ræd fyrer, ad Rijsa upp epter Priæ Daga? Mætte ydur ecke til Hugar koma, ad hañ sem med Einu Orde reiste hina Daudu æ Fætur, hañ munde og Gud kuña upp aptur ad vekia ef hañ ei sialfur gat? Vissud þier þad ecke, seige eg eñ nu? Eñ þegar þier vissud ad hañ uppriseñ var, þvi keyptud þier af Strijds Moñunum ad liwga þad, ad Læresveinarner hefdu stoled hañs Lijkama? Pvi giørdu þier Sendefør til allra ydar Safnada i Austur=Allfuñe, skømu epter hañs Himna=For, til ad styrkia Lÿge þessa? Og hvor munde

ydur trwa, nema ydar eiged Nødru-Kyn, sem Raun gaf Vitne epteraa, þegar Guds Rijke var fraa ydur teked og Heidingium giefed? Þad var Lijklegt, ad Vardmeñerner munde aller sofed hafa, þad var ecke Heimenum kuñugt hvad þad gallt ad sofa aa Vakteñe, hiaa Romverium, þad var ecke Otrwlegt ad Læresveinarner, sem forlietu DRott-eñ aller, þa hañ gripeñ var, ad Petur sem ecke stoodst ad horfa aa eina Obreitta Ambaatt, ad hañ og þeir mundu voga sier i Hendur Vopnadra Maña, Edur mundu þeir hafa Toom til ad leysa Lijk-Bond-eñ, og færa DRotteñ wr Lijk-Blæuñe, sem epter laa i Grofeñe? Þwngur hefur og saa Svefneñ vered, ad eingeñ af Strijds-Moñunum skyllde vakna, nær Steirneñ var afvelltur, hvor ed þo var nær sta mykell, og er þesse hiñ skielfelege og þo Riettvijse Doomur Guds yfer Vantrwñe, og þeim er Pául-us kallar af siaalfum sier Fordæmda, uñ hveria Stephanus sagde under þad hañ liet Lijf sitt fyrer þeña Sañleika: ad þeir mootstædu jafnañ Heilogum Anda.

Hvad seigia nu þesser Vijsu og Lærdu Meñ framveiges: HAñ HEFur TREIst GUDE, HAñ FRelse HAñ Nu, Ef Hañ HEfur ÞOck-nan a Honum, Þvi Hañ hefur sagt, Eg Em GUds Son. Hversu vel hefur Diofulleñ lagt þeim hier i Muñ Spaadoom Davids uñ Christ, er hañ seiger, Psalm. 22. Hañ hefur varpad sier til DRottens, hañ frelse hañ, hiaalpe hañ honum,

ef hañ hefur Pocknan a hønum? Munu ecke Vit‑ringar þesser hafa øll Davids OrdGullvæg halld‑ed, og ad vijsu þeckt, ad hañ talar þetta i Ordastad Gudlausra Maña? og þo brwka þeir sialfer þau vid hañ, sem þeir ecke kuñu ad straffa uñ nockra Synd. Hafde ecke Gud Pocknan a Esaja, og þo søgudu Fedur þeirra hañ i sundur med Tre‑Søg, edur a Zacharia Syne Barachiæ, hvern þeir drap‑pu mille Musteres og Alltares, þvi munde og ecke Gud kuña ad hafa Pocknan a JEsu, þoott hañ gi‑æfe hañ i syndugra Hendur? Og var nu þetta rett ad mana hiñ sterka Gud til Hefndar yfer sier, veg‑na Sonar sijns, vegna hañs, i hverium hañ hafde alla Velþocknan sijna, og þo matte hiñ Guddoom‑lege Kiærleike meir þijna Velferd syndugur Mad‑ur, helldur eñ Blood þeirra, er kvøldu hañs Ein‑gieteñ Son: Laat þetta drepa i þier Heiptræknenar Anda, þegar iller Meñ offækia þig, jafnvel fyrer þa Hlute, er þu hyggast þeim til gooda ad giøra, nær þeir hafa Ord hins Vijsa i Muñe, eins og Gyding‑ar høfdu Davids, seigiande: Hañ læst hafa Vit‑sku D Rottens, og kallar sig Guds Barn: Ef hañ er saña legt Guds Barn, þa frelsar hañ hañ wr Hondum siña Mootstødu‑Maña. Siertu nu G ds Barn, þa er þad stoor Æra, ad þu mætt slykt þola med þijnum Frelsara; Illmæle þesse eg Brixle fyrer Sakleyse edur goodar Giørder, þau eru meira Hroos i Guds Eyrum, eñ þoott øll Ver ølldeñ i einu Hlioode lofade þig fyrer Goodverk

þijn,

þijn, þvi hañs Doomar eru ecke eins og Mañaña Doomar: Og i Sañleika, þad er Omøgulegt ad hañ trwe þvi, ad Guds Sonur hafe so myked lided fyrer sia, sem sagt er, sem eingañ Oriett edur Van-Pock lijda vill fyrer Riettlæteſens Saker, þvi hañ metur Gud epter Smæmunum ſijnum, og hañs Hugarfar epter ſijnu Skape.

Peir ſpottudu þig HErra i Pijng-Hwſenu, fiellu a Knie, lutu þier og ſøgdu: HEill VERtu KONungur GYdinga: Peir ijtreka þetta hier aptur og ſeigia: EF Pu Ert KONungur GYDinga, Pa HJaalpa SJaalfum PJer: Petta giørdu hiner Heidnu Strijdsmeñ; Peir blindu Veſælingar; Peir viſſu ecke af ødru eñ Konungs-Nafnenu ad ſeigia; Eñ munde þad baña Heidingianum fyrſtum allra þeirra, er þar ſtoodu, ad jaata Samſtundes ad þu Guds Sonur værer. Miñ HErra, mun þad ſtanda oſs fyrer þvi, ad þu ſiert Heidingiaña og þeirra Barna Konungur, ſo vel ſem Abrahams Soña? Mun þad varna þier ad vera Konungur ad Eylijfu yfer Guds Heilaga Fiall? Fyrſt nu ad Gud hefur giefed þier Heidnar Piooder til Arfleifdar, þa viliium vier ſeigia, vier ſem hier liggium a Footſkør Veralldareñar: Heill vertu Konungur Heidingia, Bleſſadur ſie ſa ſem kiemur i Nafne DRottens: Og fyrſt þu hefur hiaalpad ſiaalfum þier, og ad uppleiſtum Daudans Fiøtrum, ert ſetſtur til Kraptarens hægre Handar, þa hiaalpa oſs og ſo DRotteñ miñ, þott

þu siert af Heidingium a Krossen̄ hafen̄, þa min̄st þo Orda þin̄a, og drag alla til þijn, þu blessada Lamb Guds, so þar verde eitt Sauda-Hws og eirn Hyrder. Vier vilium og sem i Fiarska erum, vier vilium hlaupa med þeim tiju Mon̄um, af hvorre Pioód er Zacharias um̄ spaaer, og þrijfa i Klæda-Falld Gydingsens: J þin̄ Klæda-Falld vilium vier þrijfa min̄ HErra: Ecke þan̄ er Heidingiarner skiptu med sier, helldur þan̄, er þu skrijddur ert aa hægra Veg Gude Fodur, sem er vort Holld, og seigia en̄ nu: Heill vertu Konungur Heidingia, Hosian̄a Syne Davids, Blessadur sie saa sem kiemur i Nafne DRottens, Hosian̄a i hærstum Hædum. Pier med Fodur og Heilogum Anda, sie Vellde og Kraptur, Speke, Maattur og Dijrd, ad Eylijfu, Amen.

* * *

## Siøunda Midvikudags Predikun i Føstu.

### Texten̄.

NN Gydingar, med þvi þad var Affaanga-Daguren̄, so ad Lijkamarner være ecke a Krossenum um̄ Sabbats-Dagen̄, (þvi sa same Sabbats-Dagur var

var mikell) Þa kœmdu þeir Pilatum, ad þeirra Bein brytust og ofañtœkest. Þa komu Striids-Meñerner og brutu sundur Bein hiñs fyrsta, og so hiñs añars, sem med honum voru Krossfester. Eñ þa þeir komu til JEsum, og sœu ad hañ var allareidu dœeñ, þa brutu þeir eige hañs Bein, helldur opnade eirn af Striidsmoñunum hañs Siidu med Spioote, og strax þa rañ wt Blood og Vatn. Og sa er þad hefur sied, ber þar Vitne uñ, og hañs Vitnisburdur er sañur, og hañ same veit þad, ad hañ seiger satt, so ad þier og so trued. Þvi ad þetta er skied, so ad Ritningeñ uppfylldest. Eige skulud þier brioota nockud hañs Bein. Og eñ aptur seiger oñur Ritning: Þeir munu siœ hañ, i hvorn þeir stungu.

Þar epter þa ed Kvølld var komed, af þvi þad var Affœnga-Dagur, hvør ad er fyrer Sabbats-Dageñ, Kom nockur Madur Riikur af Borg Gydinga Arimathia, Joseph ad Nafne, Eirn Heidurlegur Rœad-Herra, goodur Mañ og Riett viis, hvør eige hafde vered Sampickur þeirra Rœadagiord og Breitne, hvør ed og so var eirn af Lœresveinum JEsu, þo Hei-

muglegur, fyrer Otta saker vid Gydinga, sa er og vonade epter Guds Rijke; Hañ dyrfdest ad gaanga iñ til Pilatum, og bad uñ ad hañ mætte taka nidur Lijkama JEsu. Eñ Pilatus undradest ad hañ være þegar Latteñ, og kallade Hundrads Høfdingiañ, og spurde hañ ad, ef hañ være fyrer laungu Andadur? Og er hañ var þess vijs ordeñ af Hundrads Høfdingianum, leifde Pilatus og skipade ad Joseph skyllde afhendast Lijkameñ, og gaf honum hañ. Þa kom hañ og took nidur Lijkamañ JEsu. Og hañ keypte eirn Lijn-Dwk, og took vid Lijkamanum, og sveipade hañ i hreinn Lerepte, þar kom og Nicodemus, sa er fyrre kom uñ Noott til JEsu, færande samblandad Myrru Aloe, nær Hundrad Punda. Þa tooku þeir Lijkamañ JEsu, og sveipudu hañ i Lijne med dijrmætu Salve, so sem Gydinga Sidur er til ad greftra. Eñ þar i þeim Stad sem hañ var Krossfestur, var Gras-Gardur, og i Gras-Gardenum var Nij Grøf, i hvøria ad eingeñ hafde eñ vered lagdur, og Joseph lagde hañ i þessa sijna eigeñ nija Grøf, hvøria hñ hafde wthøggva latted i Steine, og vellte stoor-

um

um Steine ad Grafar-Dyrunum, og gieck i burt. Og þad var Affaunga-Dagur, og Sabbats-Dagureñ took til, þaungad løgdu þeir JEsum fyrer saker Affaanga-Dagsens Gydinga, þvlad sw Grøf var nærre. Eñ þar var Maria Magdalena, og oñur Maria Josephs, og þær Konur sem komnar voru med hønum af Galilæa, fylgdu epter, sitiande giegnt yfer fra Grøfeñe, og skodudu Grøfena, saau til hvar og hvorneñ hañs Lijkame var lagdur. Eñ þær sneru aptur, reidande til dijrmætar Jurter og Salve. Eñ uñ Sabbats-Dageñ voru þær kyrrar epter Løgmaalenu.

Og añañ Dag þañ sem epter Affaanga Dageñ er, søfnuduft samañ þeir Yppurstu Prestar og Pharisæi, aasamt til Pilatum, og søgdu: Herra, vær miñunst aa þad ad þesse Svikare sagde, þa er hañ lifde, epter þria Daga mun eg upp-rijsa, af þvi skipa þu ad forvara Grøfena allt til hiñs þridia Dags, so ad eige kome hañs Læresveinar a Nootttu og stele hønum i burt, og seige Folkenu ad hañ sie uppriseñ fra Dauðum, og verde hin seirne Villa argare þeirre fyrre. Pilatus sagde til þeirra: Þar hafed

ed hier Vard-Meñena, Fared, fervared sem hier hafed Vit a. Eñ þeir geingu i burt, og forvørudu Grofena med Vard-Møñunum, og Iñsigludu Steineñ.

## Exordium.

AD græda Saar med Saare, er faaheyrt, ad særa þañ, sem Mañ elskar, er Oheyrelegt. Hvør mun elska aññañ heitara eñ eirn Brwdgume elskar sijna Brwde? JEsus er Brwdgume vorra Saalna; Jeg vil, seiger hañ, til siñar Andlegrar Brwdur Christneñar, trwlofa mig þier ad Eilijfu, Os. 2. Verdugur var þvilijkur Brwdgume, ad hañ være elskadur af siñe Brwde, og hañ være ecke af heñe særdur; Eñ þo seiger hañ, ad hun hafe sært sig, þar hañ talar med þessum Ordum til heñar, ut af Muñe Salomonis, seigiande: Þu hefur sært mitt Hiarta, mijn Syster, Elskuleg Brwdur; Þu hefur sært mitt Hiarta, Cant. 4. Tvisvar siñum er þad i þessum Ordum itrekad, ad su Andlega Brwdureñ hafe sært sijns Brwdguma Hiarta, og af þvi þetta er af hønum i tvær Reisur talad, merke eg þar af, ad JEsu Christi Hiarta hafe med Tvøfølldu Saare sært vered, Þad Eina var Saar Elskuñar, um hvert hañ eigeñlega talar i þessum Ordum. Af þvi hañ elskade so heitt sijna Andlega Brwdur, tilreiknar hañ heñe þad, ad hun hafe sært, edur so sem til Faanga teked (epter þvi sem sumer utleggia) sitt Hiarta, eins og þetta, vegna þeirrar Elsku, sem Brwdureñ hafde hast a hønum, hver þo var eingeñ ad Fyrrabragde, hefde sært hañs Hiarta, helldur hefur hañ siaalfur audsynt siñe Christne, þa stærstu, hreinustu og Hiartgroonustu Elsku. Þar fyrer seiger hañ vegna Eymda siñar Brwdar, vegna heñar Olucku, vegna heñar yferhaangande Fortøpunar, sie sitt Hiarta sært, af siñe Elsku til heñar, og hañ giæte ecke þolad þad, ad hun skyllde fyrerfarast, og þvi særde heñar Fortøpun sitt Hiarta, af þvi hañ elskade hana; Og med þessum Hætte hefur

hefur su Andlega Brwdurenn fyrst ſært Hiarta JEſu Chriſti. Pad Annad Hiarta-Sœared JEſu Chriſti, var Sœar-Piſlareñar, ſem af þvi fyrra Elſkuñar-Sœare Orſakadeſt, Þviad ſøkum þeſs HErrañ vor JEſus Chriſtus, hefur ſo heitt og Hiartanlega elſkad oſs Meñena, ſem hañ hefur utvaled fyrer ſijna Brwde, þar fyrer hefur hañ og eirneñ lided Sløg, Sœar og Beniar, a ſijnum Allra heilagaſta Lijkama, i ſiñe Pijnu og ſijnum ſœara Dauda, fyrer vorar Synder, med hverium vier høfum ſært hañ, Eſa. 53. Eñ fyrer utañ Sœar Elſkuñar, voru eirneñ Piſlar-Sœaren JEſU Chriſti tvøfølld, edur med tveñu moote. Fyrſt hid Ytra a Lijkamanum, ſo ſem var hañs Hwdſtrijking; Þyrne-Krijning og Kroſſfeſting. J Añan Mœata, ſærdu Piſlar-Sœaren hid Iñra Sœal og Samvitſku vors bleſſada Endurlauſnara, þvi HErrañ vor JEſUS Chriſtur leid ecke alleinaſta þa Utvortes Kvøl og Pijnu a ſijnu heilaga Hollde, helldur og eirneñ þa Iñre Angiſt, Sœar og Kvalningar Hiartans og Sœalareñar. Um þeſſe Iñre Hiartans og Sœalarkñar Sœar og Tilfiñingar Piſlaña, kvartade hañ Harmþrungeñ i Gras-Gardenum, þa hañ byrjade ſijna Pijnu, ſeigiande: Mijn Sœal Er Hrygg Allt J Daudañ, Matth. 26. Eirneñ under ſitt Andlœat a Kroſſenum: GUD MJñ, GUD MJñ, Þvi Hefur Þu Yfergiefed Mig? Pad ſijdarſta Sœar ſem vor Endurlauſnare leid i ſiñe Pijnu (þo hønum kyñe þad ecke til Kvala ad vera, med þvi hañ var Andadur) var hañs Sijdu og Hiarta-Sœar. Eckert Sœar hañs Lijkama gieck nær hønum eñ þetta, þar hañs Hiarta var i giegnum ſtunged. Jeg vil fyrer mig, Jeg Raadlegg þier og eirneñ þu chriſteñ Sœala, ad vid leggium Sœar vid Sœar; Þegar Samvitſkañ ſæreſt af Syndunum, Hiartad af Freiſtingunum, og af Diøflenum ſem þad opt med Kueſum ſlær, Leggium þa i Trwñe ockar ſærdu Hiørtu vid þad ſærda JEſu Chriſti Hiarta, þa er lagt Sœar vid Sœar, vor Synda Sœar, vid bleſſud Læknings-Sœar JEſu Chriſti; Þa er eg og Efalaus um þad, ad vid verdum læknud, þviad bæde fyrer

er Hiarta-Saared JEsu, og allar hans Beniar verdum vier heilbrygder, Esa. 53. Og med þvi, þad si,þasta Saar sem JEsus leid, gieck næst hans Hiarta; Þa skyllde þad og ganga nærst vorum Hiørtum, og þvi viliumm vier nu i þetta Siñ ælijsta Siidn og Hiarta-Saared JEsu Christi, i þessare Siidurstu Predikun ut af hans Piinu; Og vilium vier athuga hier um tvær Smaa-Greiner: Su Fyrre hlioodar um sialft Siidu og Hiarta-Saared Christi. Su Oñur um þad, sem af þessu Saare utrañ. DRotteñ JEsu, sem liest upplwika þijnu Hiarta a Krossenum; Upplwktu þvi nu fyrer oss i Himnenum, og styrk oss til þessa vors Verks og Aforms, med Krapte Heilags Anda, þijnu Nafne til Dijrdar; Eñ oss til Saaluhiælpar, Amen.

## Utleggingeñ.

Uppleseñe Pijningar-Historiu vors blessada Endurlausnara verdur þess gieted, ad Stridsmeñerner, epter Leife Pilati Lands-Domara og Beidne Gydingaña, hafe i sundurbroted Bein þeirra Tveggia Spillvirkia, sem med JEsu Krossfester voru, uppa þad, ad þar med være fliett þeirra Dauda, og Lijkamarner være ecke um Hatijdena a Krossenum vegna Logmaalsens, i hveriu soddañ var fyrerboded, Devt. 21. Eñ med þvi, ad HErrañ vor JEsus Christur, var þa lateñ (a þeim Tijma hañ sialfur villde, eñ ecke a þeirre Stundu, sem hans Fiandmeñ meint høfdu) þa brutu þeir ecke hans Bein. Þetta er an Efa af sierdeilis Guds asettu Raade framkomed. HErrañ JEsus Christur var þad saña Paaska-Lamb, hvør med Gamla Testamentesens Paaska-Lamb

var

var i Margañ Maata fyrermyndadur: Og so sem Paaska-Lambsens Bein maattu ecke brióotest, so voru ecke helldur JEsu Bein broteñ. Ecke var Fyrermyndan Paaska-Lambsens hiaa þeim Oguðlegu Gydingum, edur þeim Heidnu Striijdsmoñum, hvorier eckert hofdu ad seigia af Paaska-Lambenu; Orsok til þess ad JEsu Bein voru ecke broteñ, helldur su, ad þeir saau hañ laateñ vera, þvi hefde hañ þa lifande vered, hefdu þeir ecke þyrmt honum framar eñ Ræningiunum, sem med honum voru Krossfester. Hier var nu af Gude Takmarked sett Guds Ovinum. Nu hafde JEsus drucked ut hañ Piijslaña Kaleik, sem hañs Fader hafde sett fyrer hañ, sem hañ sialfur Auglijste under sitt Andlaat, seigiande; PAD ER FULLKOMNAD. Og þar fyrer kuñu hañs Fiandmeñ þar epter ecke i hinu Miñsta ad giora honum nockra Pijnu. Guds Trwada, sem ad eru Andleger Christi Limer, kañ eckert Illt ad skie, medañ þeir hallda sig Riettelega i siñe Stiett og Kallan, og framganga aa Veige Gudræknenar, utañ hvad sialfur Gud af sijnu æsettu Raade skamtar, ad vid þa skule frañkoma. Hvorke Diofull nie vondar Mañeskiur, kuña aan Guds Vilia ad snerta eitt Haar aa voru Hofde. Allt hvad Gud hefur skeinkt aa fyrer oss, eigum vier og hliootum af ad drecka, þar ad auke ecke eitt Taar, Meira edur Miña. Gud setur fyrer Eitt og sierhvort sitt Barn, strax sem þad er Endurfædt, Tvo Bikara, sa Eine (epter þvi sem hvor kañ epter An-

dans Utdeilingu ad þola) er byrladur med Beiſkleika Kroſſens og Mootlætingaña: Hvern Dropa wr þeſſum Bikar eigum vier ad drecka, þar til hañ er Lokſens tæmdur, ſem valla kañ ad ſkie fyrr eñ a vorre Dauda-Stundu. Sa Añar Bikareñ er fyll tur af Sætleiks Dropum Guds Anda Himneſkrar Huggunar, a hvørium hañ ſvalar þeim Kroſſþiaadu, Endurnærer þa Harmþrungnu, og lijfgar þa ſem Daudvona liggia i Freiſtingunum, ſo ad ecke alleinaſta verdur þier, þu chriſteñ Saala, ſa Lijkamlege Kroſſeñ ſætur og liettur, helldur og eirneñ ſtyrkeſt Saaleñ, og ødlaſt Andlega Hreyſte af Guds Naad, ſem er maattug bæde i vorum Lijkamlegum og Andlegum Breiſkleika, 2. Cor. 12. Þegar Gud a ſoddañ Haatt, huggar og hreſſer ſijna Truada, verdur ecke eitt Bein broted a þeim Andlegu Chriſti Limum, og ſañaſt þad ſem David ſeiger i Pſalmenum 34. So um̃ JEſum (ſem hũs Andlega Lime) hañ forvarar øll hañs Bein, ſo ecke eitt af þeim i ſundur brotnar. JEſu Bein voru ecke i ſundur broteñ, eñ þo var hañ i ſiñe Pijnu, ſem añad Vatn wthelltur, og ſo Aumkunarlegur ordeñ, ad (øll) hañs Bein høfdu i ſundur ſkileſt og togaſt hvørt fra ødru, Lid fra Lid, Pſ. 22. Samt maattu ecke hañs Bein brioottaſt epter hañs Dauda. Ecke Olijklegt ad Gudlegur Vijsdoomur fyrer utañ aadurſagda Fyrermyndan Paaſka-Lambſens, hafe þar med viliad hafa til Vitundar giefed, ad lijka ſo ſem Beineñ, i hvørium epter Natturuñe, var foolg

eñ

eñ allur Lijkamans Styrkur, voru Obroteñ, so være og eirneñ hañs Jñvortes Magt og Kraptur i Daudanum, ecke i hiñ miñsta Maata veikur, so ad hañ midt i Daudanum, trad under sijnar Fætur Diofuleñ, Daudañ og Helvijte. Pad sau Vaktarar Krossens, þa þeir brutu Bein Spillvirkiaña, ad JEsus var Andadur, hvors vegna þeir brutu ecke hañs Bein, sem ædur er sagt: Samt gieck fram eirn Ogudlegur Strijdsmañ, og rak eitt Spioot edur Lensu i giegnum hañs Sijdu og Hiarta. Af þessu, sem ødru sie eg satt ad vera þad Paulus seiger: Ad Diofulleñ sie Kroptugur i Børnum Vantrwareñar. Hver munde stijra Hende þessa Hreckvijsa Skielmers, nema sialfur Diofulleñ, so sem hañ stioornar i øllum vondsku Verkum, hinum Vantrwudum. Hvad hrædeleg Grimd, og eirn Osvalañlegur Blood-Þorste var þad, sem þesse bølvada Mañeskia hafde ad geima i sijnu Gudlausa Hiarta? Hañ kuñe ecke ad metta Gijrugleik sinar Grimdar þar med, ad hañ sa HErrañ vorn JEsum Albloodugañ og Benlum hladeñ, fra Hvirsle og allt til Ilia, og med sundurborudum Hendum og Footum, Lideñ og Andvana a Krossenum, helldur villde hañ hier eñ nu æ-auka, og lagde hañ i Sijduna, med einu Spioote, hvert og eirneñ gieck iñ i JEsu Christi Hiarta. Tilgæangur hañs hefur sa i þessu vissulega vered, ad sa Lijkamans Partur, i hverium ad Lijfs-Aundeñ hafde hvijlst, skyllde ecke helldur eñ adrer JEsu Limer Oskerdur epter skil-

 iast.

iast. Nu þo ad þetta være sa stærste Oriettur giord-ur þeim Andvana JEsu Christi Lijkama, þa skulum vier þo vita, ad þetta hefur ecke fyrer þad vonda Andskotans Verkfære, ann Gudlegrar Tillaatssemе og fyrer-Hygginu, skied og framkomed: Helldur var Sijda JEsu Christi særd og opnud: Fyrst fyrer þa Ordsøk, ad uppfylltest og framkiæme Spaadoomur og Fyrersøgn Ritningareñar, þar so stendur: Þeir munu siaa mig hvørn þeir hafa i giegnum stunged, Zach. 12. J Añañ Maata var sw Blessada JEsu Christi Sijda særd og i giegnum stungeñ, (epter Gudlegre Tillaatseme) uppaa þad, vier mættum þar um i allañ Maata Fullvisser vera, ad hañ sie sa sañe Messias og Fyrerheitne Heimsins Endurlausnare: Þvi af þessu hañs Sijdu Saare og Audkieñingar Merke, var hañs Heilage Lijkame adgreindur frá ødrum, og kuñe epter hañs Uppristu ad þeckiast fra þeim, sem a Tijma hañs Dauda lifnudu og epter hañs Upprisu wtgeingu af Grøfunum. Þegar hañ epter sijna Sigur-Rijku Upprisu opeñberade sig fyrer Læresveinunum, og stood i Midted hia þeim, og sa Vantruade Thomas maatte legg ia sijna Hønd i hañs Sijdu, þa þeckte hañ strax þar af, ad þad var sialfur HErrañ, hroopade þvi upp i søñum Truareñar Styrkleika, og sagde: O Drotteñ miñ og Gud miñ, Joh. 20.

Su Þridia Orsøk fyrer hveria sa Andvane JEsu Christi Lijkame vard þeim Oriette og Hardvøge ad mæta, ad hañs Sijda og Hiarta var med

einu Spioote opnad og i giegnum stunged, voru vor Mañaña Synda-Giolld og Ranglæte. Vorer fyrstu Forelldrar, Adam og Eva luktu sijn Hiortu fyrer Gudlegre Bijfalningu, og hñs blessada Bodorde, eñ opnudu þau fyrer Hogg-ormenum, i hverium Diofulleñ til þeirra talade, þegar þau hlijddu Andskotanum framar eñ Gude, og ætu i sig eilijfa Olifian Helvijtskrar Fordæmingar af þvi forbodna Trie, sem lesa er i Genesis Bookar 3. Cap. Vier þeirra Nidiar og Afkomendur, verdum, sem Von er, i somu Sök fundner: Vier apturlykium optlega vor Hiortu fyrer Gude Almættugum, eñ erum fwser ad opna þau og liuka þeim upp fyrer Dioflenum og Syndeñe, so ad ut af Mañaña Hiortum framganga vondar Hugreñingar, Mord, Hoordoomar, Frillu-Lifnadur, Piöofnadur, Liugvitnan, Lester, Matth. 15. Hvad opt og morgum-siñum apturlykur Mañeskiañ sitt Hiarta, fyrer sijnum Endurlausnara, og hañs blessada Nadar Orde, so ad sialfum JEsu, sem stendur fyrer Dyrunum og klappar uppa, er uthijst i Mañlegum Hiortum. Hvad marger fiñast þeir, sem hverke liuka upp Hiartanu nie Hendeñe fyrer þeim Voludu og Naudþreingdu JEsu Christi Andlegum Limum og Drottens Purfa-Moñum? Þar sem Meñerner eiga ad hafa sitt Kiötlegt, Audmiukt og ydrande Hiarta, þa hafa þeir i þess Stad eitt O-umskored og forhert Stein-Hiarta, so ad i þeirra Hiarta bijr og

bygger Of-Dryckia og O-hoofseme, sem Nabals, 1. Sam. 25. Forherdsla, sem Pharaonis, Exod. 7. Afgudadyrkan, sem Salomonis, 1. Reg. 11. Drambseme, sem Nebuchad-Nezars, Dan. 5. Tofra Konst, sem Simonis Galldra-Mañs, Act. 8. Hvad marger hafa þeir og fundest, og fiñast eñ nu i Verollldeñe, sem Helstijnga og myrda siñ saklausañ Broodur og Naunga, sem Joab giorde vid Abner og Amasa, 2. Sam. 3. og 20. Cap. Muñe og Twngu þeirra, sem Bakmæla, Forliuga og Lastyrda siñ Naunga, verdur af Guds Anda samlijkt vid eitur, Sverd og skadsamlegt Mord-Vopn, Þeirra Muñur er klockvare eñ Smior (seiger David) og hafa þo Strijd i Siñe: Þeirra Ord eru miukare eñ Vidsmior, og eru þo nakeñ Sverd, Psalm. 55. Fyrer allar þessar Illskur, og adrar langtum fleire Otaldar, vard nu sa Andvana Jesu Christi Lijkame a Krossenum ad mæta þeim Oriette, ad hañs blessada Sijda var opnud, og þar med hañs Hiarta i gegnum stunged. So var hañ þa bæde Lijfs og Lideñ fyrer vorra Misgiorda Saker lemstradur, og fyrer vorra Synda-Saker var hañ særdur, Hegningeñ lá a honum (ef eg mætte so tala) Lijfs og Daudum, uppa þad, ad vier Lijfs og Dauder hefdum Frideñ, Esa. 53.

Su Fioorda Orsokeñ, fyrer hveria vor blessade Endurlausnare leid þad, ad hañs Sijda og Hiarta var opnad og i gegnum stunged, er þesse, ad vier

vier Syndugar Mañeſkiur mættum med vorre Saalar-Sioon og Trwar-Augum, ſiaa og ſkoda hañs Broodurlega Elſku, Myſkun og Aſtar-Pel, ſem hañ hefur til vor Mañaña. Uppliuktu nu þar fyrer, þu Chriſteñ Madur, þijnum Hugſkots Augum, og Athuga Gaumgiæfelega hvad þad er, Sem þier verdur i þeirre opnudu Book JESU Chriſti blooduga Hiarta, ſynt og fyrer Sioner leidt. Par fær þu ſañlega ad ſiaa, ecke neitt ſvart Letur, med hvoriu Bolvan Logmaalſens er ſkrifud hiaa Moiſe, Devt. 28. Helldur ſier þu þar med raudum Book-Stofum ſkrifada JeſuGuddoom-lega Aſtſeme, Myſkun og Kiærleika. Par maattu þeſſe Naadar-Ord uppteiknud ſiaa og leſa: Pu ert miñ dijrmætur Son, mitt Elſkulegt Barn, þar fyrer ſundur brotnar mitt Hiarta til þijn, ſvo ad eg hlijt þier Myſkunſamur ad vera, Jer. 31. Item; Hvad ſkal eg giora af þier, ſkal eg vernda þig, ſkal eg ecke med riettu giora (eina) Adama af þier, og utelykia þig? Eñ mitt Hiarta er odruvijſe ſiñad, mijn Myſkunſeme er ſo miøg breñheit, ad eg vil ecke ſinna mier ad fordiarfa þig, Hoſ. 11. Pad bleſſada JEſu Chriſti Hiarta brañ af Elſkuñe til vor Mañaña, og þeſs-vegna villde hañ nu laata opna þad og uppliuka þvi, ſo ad vor aang-raadu og Syndum-Piaadu Hiortu, mætte af þeim gloandeAſtar-Geyſlum og kiærleiks-Byrtu, ſem þadañ utſkijn og ligomar, uppbyrt, vermd og Endurlijfgud verda. Hañs Heilaga Hiarta er

opnad, hañs Myskunar Ydur eru og opeñ sett, og verda alldrei hiedañ i fra apturlukt fyrer hañs Trwudum, nie nockrum Syndugum sem Ydran giorer. Þetta Heilaga Hiarta-Særed JEsu Christi, læknar og græder kroptuglega oll Andleg, banvæn Svida og Synda-Saar vors Hiarta, Sælar og Samvitsku. Hijngad til hafde vor blessade Endurlausnare vered særdur á ollum odrum Lidum og Limum sijns heilaga Lijkama, so ad sa Eine Partur hañs signada Hollds, sem ad var sialft Hiartad i Briostenu, var til þessa Oskiert læted: Og uppa þad, hañ kostade þvi eirneñ til vorrar Endurlausnar, leid hañ ad þad være nu opnad og i giegnum stunged, so þadañ gæfest eins sem af hinum odrum hañs Lijkamans Limum þad dijrmæta Lausnar-Gialld fyrer oss Syndarana, med hveriu hañ keypte oss þa Eilijfu Sæluhiaalp hiaa sijnum Himneska Fodur, sem ad var hañs eiged Hiarta-Blood, so ad þar var nu ecke epter ï hañs Hollde Eirn Blood-Drope, hverium hañ hafde ecke uthellt oss Syndurunum til Endurlausnar. A medal þeirra i Athenu Borg, var sæt Sidvane, ad uppmaala Elskuna edur Kiærleikañ med eirnre Mañs Mynd, sem ad var med grætande Augum, og hafde eitt opnad Hiarta i siñe Hende, af hveriu Blood-Dropar nidurfiellu. I vidlijkañ Maata vyrdest mier su Verulega Elska þess Himneska Fodursens, hañs Eingieteñ Sonur, vor Endurlausnare JEsus, hafe vered a Kr-
ossen-

offenum uppmaaladur: Hañ hangde þar med grætande Augum og Aſioonu, hañs Hiarta var þar opnad, af hvoriu ad Blooded utrañ og ſtreymde, hvarmed hañ ſynde oſs þa heitu og Hiartanlegu Elſku, ſem hañ hafde til vor Mañaña. Og med þvi (El. Guds Born) ad vor Elſkurijke Endurlauſnare hefur ſvo opnad fyrer oſs ſijna Sijdu og Hiarta, og giefed oſs ſo ad ſiaa og reyna ſitt Kiærleiks fulla Altar-Pel, þa gleymum ecke þeſſare hañs O-utſeigianlegre Elſku til vor, Endurmiñunſt heñar helldur a þañ Haatt, ad vier eirneñ af Elſkuñe til hañs, opnum vor Hiortu fyrer honum, ſo þadañ meige ut brioota ſt ſaa ſauruge Blood-Veſſe Syndareñar og Ranglæteſens, og ut-auſum af vorum Hiortum og Augum, þo vier gietum ecke Blood-Straumum, þa ſamt hreinum Vatns-Straumum vorra audmiukra Ydrunar-Taara, og grætum af Hiarta vora Misgiorninga, med hverium vier hofum vered Orſok til þeſs, ad Sijda og Hiarta Guds Sonar var ſært og i giegnum ſtunged. Sundur-rijfum nu vor Hiortu; Eñ ecke vor Klæde, og umſkierum Hiortu vor fyrer Gude, ſo ad Forhwd þeſs gamla Adams meige i burtu kaſtaſt, og Kappkoſtum ad elſka vorn JEſum hier epter af ollu Hiarta, allre Saal og ollum Kroptum: Voruſtum og ad opna vor Hiortu framveiges fyrer Dioflenum, Syndeñe edur Heimenum, ſo ad vier ſærum ecke uppa Nij, þad Elſkurijka Hiarta vors Lauſnara

og Saalar-Brwdguma JEsu Christi, med þeim Ogudlegu sem hañ Krossfesta ad Niju, Heb. 6. Skylldt er þad, ad vier giætum og jafnañ ad þvi, ad þegar vier vorum Guds Oviner, Rom. 5. Þa kom HErrañ vor JEsus Christus oss i Saatt vid siñ Himneska Fodur: Þa vier sem adrar Tijndar og Tapadar Sauda-Skiepnur, sworum aller Viller Vega, i þeirre vijdu Veralldareñar Audn og Eydemørk, Leitade JEsus oss upp, med þvi stærsta Erfide og lagde oss sier a Herdar, under eins og hañ bar siñ Pijsla-Pwnga og Kross vorra vegna, og hefur so, sem saa goode Hyrdereñ heimfært oss aptur til sijns Himneska Fodurs og þess rietta Sauda-Hwss. Þetta kostade hañ so mikels Erfides og Piaaningar, ad hañ sveittest Bloodenu, liet sitt Holld Hwdstrijkia, sitt Hofud Þyrne krijna, sijnar Hendur og Fætur i giegnum bora, og ad sijdurstu opna sitt Andvana Hiarta a Krossenum, og hefur so sitt Lijf, og allt sitt Blood utgiefed uppa þad, hañ giæfe oss sialfañ sig, og hreinsade oss af Syndunum, so ad vier, sem vorum Andlega dauder, skylldum fyrer honum og hañs Himneska Fodur, lifa Eylijflega.

J Fimta Maata, edur su Fimta Orsokeñ, fyrer hveria vor blessade Endurlausnare leid þad, ad hañs Sijda og Hiarta være opnad, var þesse, ad vorar veiku og Varnarlausu Saaler, skylldu meiga hafa i hañs Sijdu og Hiarta-Saare Eirn Hættulausañ og Ohultañ Grida-Stad og Heim-

kyñe

kyñe, fyrer Ogn og Araasum Diøfulsens, og eitt saňarlegt Skiool og Hæle fyrer þeim hrædelegu Stormum Guds Grimdar Reide, og eina kroptuga Endurnæring i øllum vorum Freistingum og sierhvoriu þvi, sem Samvitskuna kaň ad æstrijda. Med þessu siinu Siidu og Hiarta-Saare hefur JEsus opnad oss Dyr Himnarijkes og eylijfs Lijfs, og ad vier skylldum a vorre Siidustu Dauda-Stundu meiga med vorum Trwar-Augum siaa Himnana fyrer vorum Saalum upplokna, og haň vorn Endurlausnara til hægre Handar siins Himneska Fodurs med sitt Opnad Astar-Hiarta, og utbreiddaň Naadar-Fadm, Reidubueň til ad-medtaka vorar Saaler, og ad vorer Lijkamer, ad endudum siinum Hviildar-Tijma i Grøfunum, skylldu hitta a opnar Dyr Eylijfs Lijfs, og med þeim Forsiaalu Jomfrwnum (Saalunum aptur samteingder) Jňgaanga i þa Niju Jerusalem, og þaň Himneska Brwdguma Sal siins allra kiærasta Saalar-Brwdguma JEsu Christi, og bwa þar med hønum i Oendanlegum Fognude Eylijflega. Nu þar fyrer, Elskuleg Guds Born, a hverium þeim Tijma, sem vier fiňum þad, ad vorar Saaler verda þvijngadar af Dioflenum, Astrijdu Freistingaňa, edur þeim (sterka) Storme Gudlegrar Reide, høfum þa i Miňe Siidu og Hiarta-Saar vors Frelsara JEsu Christi, og flijum þaangad i Trwňe undaň þessum vorum Asooknurum. Vor Endurlausnare æ-
varpar

varpar a þeñañ Hautt sijna Andlega Brwde, þad er eina og sierhveria christens Mañs Saalu, fyrer Muñ Salomonis, seigiande, Lofk. 2. O! mijn Dwfa i Biarg-Skorunum. J þessum Ordum bender sialfur JEsus oss, ad vier skulum lijka sem adrar Meinlausar Hoogværar og Varnarlausar Dwfur, flija undañ þeim Helvitska Grip-Fugle Dioflenum, fyrer Reide-Stormum DRottens, og i Hretvidre Hørmungaña, i þær Andlegu Biarg-Skorur siña Pijslar-Saara, hvíad hañ sialfur er Hella Hialpræde sens, 1. Cor. 4. Pegar vier erum fyrer Trwna þaangad komner, so erum vier Hættulauser, og meigum þar aan allrar Hærskaseme Ohulter vera. Par erum vier vardveitter i Fride. Leitum þar fyrer alltijd, i hvorre Hiartans og Saalarennar Astrijdu Jñ i þad Blooduga Hiarta-Saar vors Lausnara JEsu Christi, þar kañ oss ecke Dioful, ecke Synd, Daude nie Helvijte ad granda, þvíad þar er eingeñ Fordæming a þeim, sem ad eru i Christo JEsu, Rom. 8. Pegar vier erum fyrer Trwna þaangad Jñkomner, meigum vier i Gladvard vors Hiarta undertaka med Postulanum Paale, seigiande: Hver vill nu æsaka Guds Utvaldá, Gud er hier sem Riettlæter, Hvor er hañ sem Fordæmer? Christur er hier sem Daaeñ er; Jaa, miklu helldur saa sem uppaptur er vakeñ, hver ad er til hægre Handar Gude og bidur fyrer oss, Rom. 8. Pegar vier hofum med sogdum

Hætte

Hætte teked oſs Viſtarveru i JEſu Chriſti Sijdu og Hiarta, er oſs þar betra ad vera eñ Petre a Fiallenu Helga, Matth. 17. Þar þurfum vier ecke ad hrædaſt fyrer þeim Sijdarſta Doome, edur ad ſeigia af Hrædſlu til Biargaña, Falled yfer oſs, og ſkijled oſs fyrer Auglite þeſs ſem a Stoolnum ſitur, og fyrer Reide Lambſens, Apoc. 6. Helldur meigum vier þa med Fagnande Hiarta uppheſia vor Høfud, þviad vor fullkomeñ Endurlauſn og Jñgangur i eylijft Lijf, er oſs þa vijs og fyrer Hendum, Luc. 21.

Epterfylger i þeirre Sijdare Greineñe ad Hugleida, hvad þad var ſem utrañ af þeirre opnudu Sijdu og Hiarta JEſu Chriſti a Kroſſenum, ſem ad var, ſo ſem Heilagur Ande ſeiger fyrer Muñ Gudſpialla-Mañſens Johañis, Blood og Vatn, ecke ſamblandad Blood og Vatn, helldur Vatned ſier i Lage og fyrer ſig, og Blooded eirneñ fyrer ſig, ſier i Lage: Fyrſt Blooded, þar epter Vatned, og þad ecke ſo ſem driupande i Dropa-Tale, helldur floode þad þar ut ſo ſem af eirne Vatns Raas edur Uppſprettu-Bruñe. Þeir ſem þetta hafa hallded epter riettu Natturuñar Edle ſkied vera; Þeir ſkilia hverke Natturuñar Art, nie Ritninguna Riettelega; Þad Hvertveggia er i giegn þeirre Meiningu er Ritningeñ utvijſar og framſetur þad fyrer eitt Teikn og Stoormerke, ſo ad Gudſpialla-Mañenum Johañe hefur vyrdſt Þorf vera til, ad hafa þar um þeſſe Uñ-mæle: Sa

þad

þad hefur sied, hañ ber þar Vitne um̃, og hañs Vitnisburdur er sañur, og sa same veit þad, ad hañ seiger satt, uppa þad þier trwed eirneñ. So Otrwañlegt hefur hañ meint þad munde Moñum sijnast, ad ef þad være ecke bygt uppa Gudlegañ Vitnisburd, og Spaadoomureñ hefde þar um̃ hloted ad uppfyllast, þa mundu allmarger hafa hneixlad sig þar aa; Þvi so var JEsu Christi Hold tæmt af Bloodenu, af hveriu þad var ut-tappad, bæde i hañs Blood-Sveita i Grasgardenum, i Hwdstrokuñe, i Þyrnekrijninguñe, og þegar hñs Hendur og Fætur voru i giegnum boradar a Krossenum, ad lijklegt maatte þykia, ad þar være ecke meira Blood epter i hañs Andvana Lijkama, miklu sijdur so miked Blood, ad þad kyñe, sem eirn Straumur þadañ ad utreña: Eñ hier var eñ þa nockud añad underfaled. Hañ hiellt epter i sijnu Hiarta, bæde Bloode og Vatne, uppaa þad, ad hañ af þessu hverutveggiu Endurskapade, og giørde sier eina Andlega Brwdur, sem ad er hañs Christne i Heime þessum, þviad þetta hvertveggia, bæde Blood og Vatn, var ein auglioos og merkeleg Þijding uppa þau tvo Sacramenta Skijrnareñar og Alltaresens, og beggia Sacramentaña Kraptur er faleñ og folgeñ i Bloode og Forþienustu JEsu Christi. Vatned sem utrañ, merker Skijrnena, Blooded þa heilögu Kvølldmaaltijd, og hier fyrer vitnar hiñ heilage Johañes um̃ vorn Endurlausnara a þeñañ Haatt, seigiande: Þesse

er

sa sem kiemur med Vatne og Bloode, eige alleinasta med Vatne, helldur med Vatne og Bloode, 1. Joh. 5. J Vatnenu aflar Gud sier Barna og Erfingia til Himnarijkis, þviad nema nockur verde Endurfæddur af Vatne og Heilogum Anda, kañ hañ ecke iñ ad ganga i Guds Rijke, Joh. 3. Med Bloodenu verdum vier fædder og forsorgader, þvi Blooded JEsu Christi er sañur Dryckur, og hañs Holld er soñ Fæda, Joh. 6. Þegar Gud Almattugur skapade vorum Fyrsta Fodur Adam sijna Brwde, þa liet hañ fastañ Svefn falla yfer Mañeñ, og a medañ hañ svaf, byggde DRotteñ Evu af hañs Sijdu, af einu hañs Rif-Beine, og strax sem Adam vaknade, talade hañ til heñar, og sagde: Hun er Holld af mijnu Hollde, og Bein af mijnum Beinum, og med þvi hun er af Karlmañenum tekeñ, skal hun Karl-Jña kallast, Gen. 2. Þegar sa añar Adam af Hiñne, HErrañ vor JEsus Christus var sofnadur a Krossenum, þa var hañs Andleg Brwdur (þad er hañs heilog Christne) af hañs blessudu Sijdu endurskopud, þviad þad Blood og Vatn, sem af JEsu Sijdu utrañ, er þad rietta Efne og Materia, af hverre Brwdur JEsu Christi uppbyggest i þessum Heime. Sva odladest sitt Nafn af Mañenum; Vor Endurlausnare JEsus, hañ hefur giefed siñe Brwdur Nafn epter sialfs sijns Nafne; Hañ heiter Christur, hun Christne, og þetta Vegsemdar Nafn var heñe strax giefed, epter þad hañ var uppstijgeñ til Himna; Hun nefnest

est og eirneñ Hollð af hañs Hollde, og Bein af hañs Beinum, Eph. 5. JEsus er su sætasta Uppspretta Lijfsins, og hver hañ dreckur af þessare Uppsprettu, hañ skal ei þyrsta eillijflega, Joh. 4. Hvorneñ er hañs Hiarta so fullt af Elskuñe, ad hañ eirneñ epter Daudañ lætur opna þad, og giefur so af sier Strauma Huggunareñar? Þesse Heilsusame Lijfsens Bruñur, sem opnadest a Krossenum, hefur med mørgum Hlutum i þvi gamla Testamente vered fyrermyndadur. Þegar Gud DRotteñ giørde siñ Fridar Sættmaala vid Noa og hañs Epterkomendur, sette hañ þañ fagra Regn-Boga i Skyeñ, og sagde hañ skyllde vera þar eitt Obrygdanlegt Teikn siñar Guddoomlegrar Naadar og Fridþægingar vid Mañkyned, Gen. 9. Þesse hañs Fridarboge hefur eirn skiæraň Vatns-Lit, og so sem eirn raudañ Farva, lijka sem Purpure. Af JEsu Christi Hiarta og Sijdu-Saare utlagade bæde Blood og Vatn, sem er þad allra vissasta Teikn og Merke Gudlegrar Naadar, Fridþægingar og Forlijkunar vid oss syndugar Mañeskiur. Þad er Meining sumra, ad þegar þad skiedur, ad nockur verdur staddur under Regn-Boganum, ad hañ meige þa æskia sier þess sem hañ vill. Þessa Hiegooma Rædu læt eg vera i sijnu Gyllde: Eñ hitt veit eg, ad hverge erum vier stadder betur, eñ þar sem yfer oss utreñur þad skiæra Vatn og rauda Blood af Sijdu JEsu, og nær vier holldum oss under þessum Fridar-Boga, meigum vier Oefader æskia

oss

oss þess alls sem oss mest um̃ vardar, sem ad er Giefens veittRaad Guds Himneska Fodurs, Riettlæte JEsu Christi, Huggun Heilags Anda og þad Eylijfa Lijfed. Pad var ad söñu eitt miked Almættes Millde og Myskunar Verk lifanda Guds, ad þegar Moises epter Guds Befalningu sloo med sijnum Staf a Steineñ i Horeb, þa utflaut þadañ nøoglegt Vatn, sem svalade Þorsta Israels Barna i Eydemorkeñe: Eñ laangtum meira Myskunar-Verk DRottens er þad vid oss Syndugar Mañeskiur, ad þegar saa Himneske Fadereñ sloo sialfur Staf siñar Reide a Krossenum, a Hiarta sijns Elskulega Sonar, hver ad er ein Andleg Hiallpræðes hella, 1. Cor. 10. Pa utflaut þadañ saa allra Heilsusamaste og Kroptugaste Svala-Bruñur, sem so Gudlega styrker og Endurlijfgar allar þiaadar og Raad-þyrstar christeña Maña Saaler og Hiortu i Eydemorku Heims þessa, ad hañ verdur þeim Eirn Ophverrande Bruñur Himneskrar Huggunar, Fagnadar og Farsælldar, sem utflijtur til Eylijfs Lijfs. Hier um̃ hafde vor Endurlausnare i lifanda Lijfe talad seigiande: Hvor hañ dreckur af þvi Vatne sem eg mun giefa, hañ skal ecke þyrsta Eylijflega, Joh. 4. Vatned svalar þeim Þyrsta, burthreinsar Saurendeñ og slöckur Elldeñ: So svalar þad blessada Lijfsens-Vatn, hvert ed ut-rañ af Hiarta-Saarenu JEsu Christi a Krossenum, þeim Andlega Þorsta vorra Saalna, þad af-þvær vor Synda-Saurende, þad slöckur hid

 hræde

hrædelega Baal Guddoomlegrar Grimdar-Reide. Allt þad sem med Bloode Foornaña og Adreisingaña var i Gamla Testamentenu adur fyrermynd ad þad fullkomnadest allt i Dauda og Pijnu Drottens vors Jesu Christi, hveriu til merkes ut-rañ af hñs Andvana Lijkama bæde Blood og Vatn. Hvar fyr er ut-rañ Vatned? Hvar fyrer ut-rañ Blooded? Seiger Læresadereñ Ambrosius; Hañ svarar hier sialfur til, seigiande: Vatned so þad hreinsade, Bloded so þad Endurleyste. Þvi af Sijduñe helldur eñ Añarstadar? Þviad seiger hañ, ad hvadañ Sokeñ kom, þadañ skyllde og koma Naadeñ. Sokeñ kom fyrer Kviñuna, sem skøpud var af Sijdu Mañsens: Eñ Naadeñ kom af þeirre Opnudu Sijdu JEsu Christi. Af hañs Ondudum Lijkama ut-rañ Lijfed til allra. O! hvad furdanlegur er sa Daude, sem þa Daudu lifande giører. Hvad kañ hreirna ad vera eñ Sijdu-Vatned JEsu Christi? Hvad Heilsusamara, eñ hañs blessada Hiarta-Blood? Lijfed er i Bloodenu, Vatned svalar og Endurnærer, og hier fyrer merker þad opt Huggun og Hugsvølun i Ritninguñe. So er nu bæde Lijfed og Hugguneñ af vorum Endurlausnara Lijflaatnum til vor komeñ, og sem af þeim rietta Lijfsens Bruñe framruñeñ. Þesse blessade Bruñur, sem uppspratt af Sijdu og Hiarta JEsu Christi, maa seigia ad fyrermyndast hafe fordum Daga med þeim Bruñe, vid hvern sa Trwe Abrahams Þienare fañ Isaach Eigeñ-Kviñu, Gen. 24. Og med þeim

Bruñe,

Brunẽ, hia hverium Jacob kyste sijna Astkiæru Rachel. Gen. 29. Þviad þetta mættu riettelega heita Fyrermyndaner uppa þa Andlegu Sameining JEsu Christi vid hañs Elskulegu Brwdur Christnena. Þetta er Bruñur Hiælpræðesens, uñ hvørn Esajas talar, seigiande: Þier munud med Fagnade Vatned uppausa ur Hiælpræðesens Bruñum, Cap. 12. Þetta er Bruñur þess lifanda Vatns, sem þeir Vantrwudu Gydingar yfergæfu, epter hverium øll Guds Barna Hiortu kalla, so sem Hiorturẽ kallar epter Vatns-Lækiunum, Ps. 42. Þetta er þad Vatned', er framflijtur af Helgedoome Hiarta-Æðaña JEsu Christi, hvert ed allt þad, sem þad snerter, læknar og Lijfgar, Ezech. 42. Þetta er sa Frij-opne Bruñurẽ fyrer Davids-Hws, og alla Iñbyggendur þeirrar Andlegu Jerusalem, til ad af þvo þeirra Synder og allañ Ohreinleika, Zach. 13. Ad søñu var þad, sem eg ædur sagt hefe; Eitt Yfer-Næturlegt Furdu-Verk, ad af þeim Andada JEsu Christi Lijkama, skyllde Blooded utreña, þvi Vitanlegt er, ad þa nockur deyr, hleypur Blooded samañ og storknar strax i Æðunum: Eñ HErrañ vor JEsus Christus giefur af sier Blooded þegar hañ var Latẽ, af þvi hañ er sa sañe Lijfsens Bruñur i hvorium vier fiñum bæde Andlegt og Eilijft Lijf, þviad hañ bæde Lifande og Dauẽ, er Upprisañ og Lijfed, Joh. 14. O! þu Goode JEsu, þu ert komeñ med Vatne og Bloode, so ad þu hreinsader oss synduga af vorum

Naanglætingum. O! ad vier alldrei þessa Hrein=sun missum, og mættum alltijd af heñe þeckia þijna Elsku, og i Trwñe fastlega hallda oss vid þig, Bæ=de i Lijfe og Dauda. Vøkva þu vor Hiørtu med þijnum Lijfsens Straumum, sem betre eru eñ þau Vøtn, er vøkvudu Alldingardeñ Eden, og laat þitt Blood, sem betur talar eñ Abels Blood, hroopa fyrer oss, þijna Syndara, uñ Naad hiaa þijnum Himneska Fødur Æfenlega. Laat oss faa ad siaa þig i Upprisu alls Hollds, og i Auglijsingu þiñar Dijrdar, sem Eirn Naadugañ og Milldañ Frelsa=ra, sem þa tale til vor: Komed þier Blessader mijns Fødurs, og Eignest þad Rijke sem ydur er Fyrerbued fra Upphafe Veralldareñar, Matth. 25. Dijrd, Valld, Virding og Vegsemd hærst, Vitska, Magt, Speke og Lofgiørd stærst, Sie Þier O JEsu HErra haar og Heid=ur klaar, Amen, Amen uñ Eylijf Ar.



# SJÖ
# Andleger Psalmar
Nefnder
# Wijslar Miñ-
# ing /
ut af Pijnu og Dauda DRottens vors JEsu Christi,
Andvaralausum til Uppvakningar,
Eñ Sorgfullum Hiörtum til Huggunar;
Ordter af Þeim
Gudhrædda og Gaafum giædda
## Sr. Jone Magnussyne
Fordum Sooknar Preste ad Laufaase.
Psalmarner meiga aller syngiast med sama Lag, so sem:
Miñstu o Madur a miñ Deyd, Edur med añad gott Himna Lag.

* * * * * *
* * *

# I. Psalmur.

EJia mijn sæla Saalar Heill, Sætaste JEsu Roadar Stoll, Fridar HErra, mitt Lioos og Liif, liwsur Hyrder og Verndar Hlijf.

2. J þiñe saaru Siwt og Piin, Sætlega bloomgast Huggun mijn, Nyt eg þess ad Raudstaddur varst, Reyd nijna þier a Herdum barst.

3. Pig laangade til ad lijda Kvøl, lietst Hryggva verda þijna Saal, Hiartans Angur ad Hugga mitt, Heidrest Blessada Nafned þitt.

4. Pu tookst a þig þa seikna Ferd, Fødursins gaanga under Sverd; svo Mord-Eingell i Myrkra-Dal, myrde mig ei þa deya skal.

5. Eymdaña Straumur yfer þig gieck, þa yfer uñ stiesiu Cedrons Beck; so Myrkra-Dyke og Heliar Hver, hefdu ei Valld ad granda mier.

6. Pa iñgieckstu i Oleu Farg, upphoofst þijn Daudleg Hiartans Sorg; svo epter Lijsed mier være vijs, Vellyst i sællre Paradijs.

7. J Aldengarde Adam braut, af þvi komstu i soddañ Praut, Audsveipne JEsu Jlmsæt þijn, Ohlijdne bætte þañs og mijn.

8. Hrædeleg var þijn Heliar Kvøl, hvør ed sætt giører allt mitt Bøl, Ogna þung Saalar Ofraun þijn, alla forbetrar Harma mijn.

9. Skiaalfande var þitt Hiarta og Holld, hræddest sem Von-var Synda-Giølld, Guds Reide og Heliar bitra Baal, baud sig ad hreña þijna Saal.

10. Andskoteñ med siñ Ara Her, Adsookn harda þa veitte þier, hvørke Diøfull nie Heliar Piin; hefur nu Valld a Christne þijn.

11. Pu þreytter Strijd vid Myrkra Magt, fyrer mig hefur þig i Hættu lagt, Daudans Helvitskañ funded Flein, fieckst mitt so læknad Dauda Mein.

12. Ognade Mañdooms Edle þijn, under ad gaanga

slijka

slijka Þijn; Banafæring var hrwf og hørd, hneigder þig Flatañ ofañ a Jørdu.

13. Veikleik þu bera villder miñ, veit eg mig styrker Kraptur þiñ, Limfaste JEsu Læging þijn, lijka er Dijrd og Upphefd mijn.

14. Prisvar badstu þiñ Fødur um Frid, sañst þo ei Vægd a þeirre Tijd; so alldrei fære Erindislaust, Andvørpun mijn og Hrygdar Raust.

15. Beyskur Kvalaña Bikar þa, burt mætte ei takast þier fra, añars hefde eg og øll Mañkynd, med Eylijfuun Dauda vered pijnd.

16. J Fødur þijns kiæra Forsiœ iñ, frwsañ lagder þu Vilia þiñ, þar med hefur oß þijnum kieñt, Poleñmædeñar bestu Ment.

17. So var Eymd þijn Obærelig, Eingell af Himne styrkte þig, ad Andlæt verde mier ei Ofþungt, ødlest Huggun i Daudans Punct.

18. Sæl mijn græt þu þad særa Bøl, Synd þijn kom DRottne i slijka Kvøl, og Armædu høninn so beyska bioo, ad Bloodugum Sveita wt uñ hañ sloo.

19. Sæte JEsu þad Balsam best, af Blessudum þier wtkwgadest, mier Leinstrudum til Lækningar, Lof, Dijrd sie þier til Eylijfdar,

20. Fyrer þitt hætta Heliar Strijd, Hiælpa þu mier i Daudans Tijd, Eymdar-Hag miñ þier allañ fel, i þier læt þu mig deya vel!



## 2. Psalmur.

Aumb Guds mijn Sæla lofar þig, leyster med þijnum Kvølum mig, þvi urdu þijn so margføllð Mein, mørg og þung er mijn Synda Grein.

2. Forrædeñ varst af Følskum Vin, Forlijkader so Hræsne mijn, øll Svikræde þier eru kuñ, fra Otru geim mitt Hiarta og Muñ.

3. Oviner løgdu a þig Hønd, og þig Saklausañ færdu i Bønd; so Fiandans sliter Fistur af mier, wr Fangelse hañs eg laus nu er.

4. Simon sloo Mañ med Sverde siin, so er mier giarnt ad hefna mijn, eñ þu hefur Averkañ grædt, vor illu Handaverk so bætt.

5. Vid þijna Ovine þu sagder, Ef þier Hønd vilied festa a mier, læted mijna Filgiara frij, Frid gafstu mier med Orde þvi.

6. Fra þier burt flwde sierhvør Sveirn, so varstu Forliteñ alleirn, ad Einglar þijner a Andlaats Stund, ecke forlaate mijna Aund.

7. Jñ varst hafdur fyrer Andlegt Raad, aungva faũst þu þar Vægd nie Naad, eins og Fordum Guds Fridar Aurk, i Philistæaña Lands Takmørk.

8. Oviner gloddust eins af þvi, og yfer Samsone Philistæi, so ecke skyllde yfer mier, allur fagna Diøflaña Her.

9. Fyrer þitt Hoogvært Sañleiks Svar, Signad þitt Andlit pwstrad var, er þad þitt Slag, Æra og Lijf, orded mitt Saalar Traust og Hlijf.

10. Fals Vottar villdu flecka þig, Fridhelgar þitt Saklexse mig, Ottast eg aungvañ Doom þegar deu, Diøfuls Akiæra heyrest ei.

11. Þu þagder ad bæta Mælge mijn, mijna Saal gledur Hoogværd þijn, eg veit þijn Andsvør Einardlig, a efsta Deige forsvara mig.

12. Þu varst særdur vid sialfs Guds Dijrd, so ad þijn Jaatning yrde heyrd, medkiender þu þig Mañsins Son, mijn er øll i þier Hialpar Von.

13. Kraptarens upp ad hægre Hønd, hafeñ ertu med Lijse og Aund, i Skyum Himens med skiærum Room, skijnande kiemur ad hallda Doom.

14. Eg true JEsu uppa þig, alldreige þu Fordæmer mig, fyrer mig under Lijgeñe laast, lætur mig niota þess þijn Ast.

15. Asiaana þijn sem Æru hrein, eins og Soolen a Tabor skein; af Satans Prælum svijvirdt var, Saalu mine til Vegsemdar.

16. Hef eg þa Glede af Hoggnm þijn, Hædung, Skapraun og allre Pijn, Ovægur Satans illsku Her, ei mun Benda Gaman ad mier.

17. Simons Afneytan saart þig took, Svardage hans þitt Angur jook, mier gief þijn Kvol sie Minnisstæd, med þine Raad min Ostyrk græd.

18. Svijvirding, Skwlk og Særing oll, sem þu leidst i Caiphæ Holl, til Hnggunar sie og Heidurs mier, svo Heldran Eylijsa eg fære þier.

19. Astsæte JEsu un þu mier, i allre Neyd ad lykiast þier, med Hoogvært Gied og Hiarta stillt, hæge mier svo sem eirn þu villt!

## 3. Psalmur.

SEgurste Sonur Fodur þijns, Fagnadar Sæla Hiarta mijns, allra Trwadra Elskugin, Eylijse Joseph, Brooder min;

2. Fra Faare stoorn frelster mig, þa framseldu þijner Brædur þig, under Framande Yfervalld, astookstu þar mitt Synda Gialld.

3. Pa Pontverskur vid þier Pilatus took, Pijsler þad þijnu Hiarta jook, mier til Fridar Hund-Heiden Her, hafde þa Stund, Raad yfer þier.

4. Fyrer allt þad þu giørder gott, af Gydingum fieckstu Hatur og Spott, Alyge fyrer Sannleiks Sogn, soddann tookst allt med helgre Pogn.

5. O-Packlæte veit eg ad mitt, mier er af DROttne giefed kvitt, mijn er Siknsaka eirnen Aund, afhendta Fodurs Raadar Hond.

6. Orvænting Judæ saart þier sveid, sæte JEsu þvi Raanglaats Deyd; Blessadur þu ei bijgyruist, a Vetran hans hefur meire Lyst.

7. Allra Fordæmdra Eyliif Piin, yſkrad heſur i Brivoſie þiin, eirn leidſtu fyrer allra Brot, eñ þeir fæſter ſem haſa þeſſ Not.

8. Vegfarande eg Veſæll er, af veiku Efne ſem Leir Smids Kier, Diirmæt er Saal miin DRottens Eign: hañs Dreyre heñe Frioſſamt Regn.

9. Uñ Villu og Landrœd var þier kiendt, og villder Konglegt Regiment, er þeſſe Kreinking Æru þiin, upp boreñ vegna Synda miin.

10. Skapara miñ hef egSkylldum ſneidt, ſkamlega margañ Afvega leidt, Chriſtus vid ollum Klækium took, klaar er eg þvi wr Skullda Book.

11. Chriſtur medkiende Kongdom ſiñ, kiende mier vitna Sañleikiñ, vil eg hañs vera Riikis Þegn, þo Veralldar ſie þad eingeñ Tign.

12. Fyrer Hreckviiſum Herode, Heilagur ſtood og þolde Spie; Hviitklæddur mier til Hugguñar, Hædung miina þar a ſier bar.

13. Misgiord þiin JEſu miog var ykt, vid Mañdraparañ þier var Samlykt, ſa hiñ Liifslauſe Lyku þvi ſieck, ad Lauſnareñ under Straffed gieck.

14. Hwdſtrykktur var med Heipt vid Trie, Heilagur JEſu Liikame, Nakeñ med Svipum hijddu hañ, Heidner Bodlar ſem veſta Mañ.

15. Under miñ Liima lagdeſt þu, Lauſnare miñ þad er miin Trw, fær ei Dioſull ad ſleyngia mig, eñ Fodurs Hriiſſ añ er Bærelig.

16. Raudañ Kyrtel varſt klæddur i, Klædleyſe Adams olle þvi, ſo varſtu DRotteñ Sviivirdtur, ad Syndeñe eg yrde aſklæddur.

17. Þyrne Corona þung og hørd, þier var til Meins af Bødlum giørd, Hoſuded þitt hun marde miog, med Mykſtun þiñe ſo kryndeſt eg.

18. Fiand-Meñ þiiner þier feingu i Hønd, af Forſcktun ſiñe eirn Reyr-Gras Vønd, ockkudu Vallð þitt ecke meir, aumka muntu þiñ veikañ Reyr.

19. Lands-

19. Lands-Doomaren þig leidde wt, Lausnare miñ full-añ af Swt, Seigiande: Mañeñ sioaed hier, svo seige eg vid þa sem Bryrla mier.

20. Sia Vitnisburde saña fieckst, Saũleikureñ þo ei vid-gieckst, aller Meñ nijddust þa'a þier, þar fyrer mun Gud vægia mier.

21. Af Himnum Pilatus hlaut þad Valld, Hyrdernum dæma Straff og Gialld; ad Sauderner kiæmest Sektum fra, svo Alykt vard a Gabbatha.

22. Hriufur stoodstu a haaum Fløt, hafa lcat mig þess ey lijf Not, JEsu, Sakleyse signad þitt, sie a Dooms Deige Forsvar mitt;

23. Gief þu eg lijte a Lemstur þijn, og lære ad hata Synder mijn, mitt Mein græde þiñ Svide og Saar, so eg þig prijse uñ eylijf Ar; Amen.



## 4. Psalmur.

HImneska Fødurs Heiløg Mynd, sem hafde ei par med neina Synd, Audmykt, Hlijdne og Elsku þijn, undrast og prijsar Saala mijn.

2. Pilati Strijdsmeñ plaagudu þig, so Prwkans Arar ei kvelde mig, hafdur varst wt wr Helgum Stad, Himna Vist giesst mier fyrer þad.

3. Pitt særda hlaut ad bera Bak, sem Breñe-Vid Ford um Isaac, Krosseñ sem haanga aatter a, a þier svo þungt mijn Hørmung laa.

4. Mootlætis Sporeñ mørg þa gieckst, Mædu, eñ Lin-kind aungva fieckst, svo Foota miña uñ Fridarens Veg, Før yrde good og Loffamleg.

5. Tillagdest þier þar Haadung haa, hafdur varst wt ad Golgatha; svo ei kañade eg eylijfst Hel, Andskotans mard-er Høfud-Skiel.

6. Klædflettur varstu Christur sæll, svo kyñe eg Nakeñ Synda Præll, aptur ad faa mitt Skart og Skiool, skijnan-de uñ Eylijfd eins og Sool.

7. Holld

7. Holld þitt a hördum Göddum skarst, a Höndum og Footum þegar þu varst, negl: ur og þaneñ nidur a Tried, Naudhiaalp er þar Trwudum skied.

8. Eñ þegar Kross-Tried upp var reist, Eple Lijssins þar hieck a fast, Daudannm þad ein Drey-Gott var, hañ deydde hañ er Saklaus var.

9. Eñ eg miñ JEsu aalijt þig, uppaa Trie heyngdañ fyrer mig, sem Audlegañ Eyrorm uppaa þad, yrde mier Bitnum vidhiaalpad.

10. Medal Spillvirkia miñ JEsu, meteñ og piindur þa varstu, svo reiknast skylde eg ei þad er, ödlast helldur Hlutdeild med þier.

11. Guds og Maña þu midlum gieckst, þa millum Himmens og Jardar hieckst, Aarnadar Madur ertu miñ, uppaa Neide eg mig Verdleik þiñ.

12. Sem Köngur rijker a Krossens Trie, Eoronadur med Neydeñe, Fiandmeñ hafder a hvoria Hlid, hier med fieckstu miñe Saaln Grid.

13 Bölvan mijna þu barst a þier, Blessanen þiju se hrijne a mier, Hroop og Bryxlyrde heyrder uppaa, Hrynur Diofla ei til mijn naa.

14. Fyrer Bloodugu Beniar þijn, Bana-Saar eru Læknud mijn, Uppheffia maa nu Helga Hönd, a Heilögum Footum eg nu stend.

15. Ur Benium öllum blædde þier, Blood-Synder þvoder af öllum mier, a sijdañ muu i Eingla-Koor, eg blanka fegre eñ hvijtur Snioor.

16. Fra Hvirfle þijnum og ofañ a Jl, Osærdañ hafder ei nockurn Dyl, Aund mijn þvi kieñer einskis Meins, añars Heims verdur Hollded eins.

17. So öll mijn Fordæming uppsvelgdest, upp hefur þu a Krossen fest, mijna Bölvan og Synda Sekt, sie þier Packlæte Eylijflegt.

18. Pijna Naad giefdu öllum oss, svo O-Nauduger þiñ berum Kross, Footspornm þijnum fylgiande, siñnust lijker þvi græna Trie.

19. Leggia muntu mier Lykn i Naud, laattu mig kaña þijna Stod, giefdu ad yferSyndum ſijn, Samvitſkañ graa-te jafnañ mijn!

20. Yfer oſſ Chriſtna og øll vor Jood, eg bid kome þitt Signad Blood, til Fridar, Lijfs og Lækningar, Liooma og Synda-Hreinſunar!



## 5. Pſalmur.

SEEern JEſu Saaln mijn, Seinuſtu Andlaats Ord. eñ þijn, Audkiendur gieckſtu af Maalroom, iñ i þiñ Dijrdar Helgedoom.

2. Bleſſade Saalar Biſkup miñ, Blijdkader Reidañ Fødur þiñ, bliwgur med Kroſſens Bœnagiørd, Bleſſadur ſiertu a Himne og Jørd.

3. J Anda ertu fyrer Augunm mier, ſem Aaron med ſitt Gloodarkier, a Kroſſe þa upp þu Hendeñe hiellſt, heſtur mijn Plaaga þañeñ ſiillſt.

4. Pa Neydeñ laa ſem þijngſt a þier, þiñ Fødur Ovinum badſt fyrer, þijnum, og mier, ad eg aan Moods, Oſke Ovinum lijka Goods.

5. Huggar þad mig i Hørmum mijn, Hrellda gladder þu Moodur þijn, med þiña miwkra Orda Aſt, Angur heñar þegar þu ſaaſt.

6. Ad Skilnade heñe Forſvar fieckſt, fyrer mig ſo i Borg un gieckſt, ad Vanrækt vid mijna verde kvitt, væru Speigell er mier Dæmed þitt.

7. Maria fierhvør Eckia er, Augrud ſem þoler Skaprauner, allra þeirra ert einka Stod, elſkar þa ſem þeim veita Lid.

8. DRotteñ þijn Raad er diwpur Sioor, Dauda-Mañſins var Jllgiørd ſtoor, eñ ſem hañ ſtrax vid Glæpum gieck, gooda Hugſvølun hia þier fieck.

9. Ur maata ſeint hañ ydradeſt, ſem øllum er Saalar Hættañ meſt, eñ fyrer Trwna Helgun hlaut, hañs Saal ſvo þiña Pijſla naut.

10. Sætaste JEsu miñstn mijn, i Myrkun, eñ ecke i Reide þijn, i Andlaate gief mier Jllverk kvitt, og upplaat fyrer mier, Rijked þitt.

11. Piaadur klagader þijna Neyd, þijns Fødurs Heipt þier ofmiøg sveyd, Samvitskuñe til Svølunar, Svolar Liooſed þier bañad var.

12. Eylijfur Gud þa yfergaf þig, því ad ſier villde hañ taka mig, ofbaud þier ytstu Myrkra Mein, mitt ad stilla Samvitsku Kvein.

13. Yfergief DRotteñ alldrei mig, þo Eymd þeſſa Lijfs sie margvijslig, laat mig þa liggur meſt a mier, minka Hugg un fiña i þier;

14. Þu sagder ad þig þyrste miøg, því þu varst Madur eins og eg, allt til Dauda uppmædde þig, Endurnæra þu villder mig.

15. Allt Bøl fiñst mier nu i þier ſætt, Ofneytsla mijn og Dryckia er bætt, fyrer þiñ beysta Dauda Dryck, Dauðans kieñe eg ei bitrañ Smeck.

16. Huñgur og Þorste i Heime þier, helgad er þeim sem epter þier, þyrster, eñ ecke svelger Synd, svala þu JEsu miñe Aund.

17. Þitt Sigur Oop var Siøtta Ord, sagder: Fullkominad allt a Jørd, sem lijda ætter til Lausnar mier, laat þad verda til Heidurs þier.

18. Miñ Frelsare þu ert fullur af Naad, Fordum hvad var i Ritning spaad, giørvallt framkomed a þier er, øllum þijn Pijna Fullnæger.

19. Þetta Fagnadar eylijft Ord, uppfyller bæde Himen og Jørd, med Æru og Glede um̃ eylijfa Tijd, eñ Ovinum er þad meſta Strijd.

20. Seinaste Krossens Sermoniñ, Samtal var þijrt vid Fødur þiñ, befalader hañs blijdre Hønd, bæde þijna og mijna Aund.

21. Kiæter mig þad þo kañe Hel, Køøl er eingeñ ad deya vel, fyrst so goodur vijs Saalum er, Samastadur þa hiedañ fer.

22. Good-

22. Goodur Daude er Heppne hædst, blotnast þeim sem a Gude hafa Traust, hønum felande sijna Saal, sijbwner þeinkia a DRottens Maal.

23. Sa sem i Bæn med DRottne deyr, i DRottne epter Guds Rijke þreir; alldrei þess Sæla þadañ af þver, þess nutu DRotteñ JEsu mier!

## 6. Psalmur.

GOOde Hyrder og Græðare miñ, sem gafst wt fyrer mig Saudeñ þiñ, Lijf þitt og Blood til Lausnar mier, Lijfgiøf ꝏ eg ad þacka þier.

2. Høfuded nidur hneygder þitt, heyra villt Bæna Akall mitt, Ast er mier þijn og Audmykt kuñ, Aund miñe baudst þiñ sæta Muñ.

3. Aund þiñe sællre wt þu bliest, Adams Løgbrot so borgadest, sem añar Adam Dauda doost, Daudañ sialfañ til Heliar sloost.

4. Epter Ritningum er þad skied, i þijnum Dauda eg mig gled, Fleckun mijn øll er Forlijkud, Fridadur er eg nu vid Gud.

5. J Sigur er Daudeñ svelgdur upp, Satans Feingur wr Hende slapp, lukust upp margra Legstader, lifnudu marger Sꝏlader.

6. Piñ Daude er mier fyrer Dioflum Hlijf, Daude þiñ er mier eylijft Lijf, þvi eilijfur Daude uppsvelgdur er, Andlꝏt Stundlegt er Heilnæmt mier.

7. Vid Dauda þiñ svo DRotteñ brꝏ, dymt vard þvi Sooleñ villde ei siꝏ, fra ytstu Myrkrum er eg þvi laus, i Daudans Skugga hef eg Lioos.

8. Tiallded sem hulde Helgedoom, hrøck i sundur i Svipum þeim, i Dauda þijnum auglijst var, øll Guds Meining og Ritningar.

9. Gramdest Jørdeñ af Glæpa Piood, Guds Sonar taka Saklaust Blood, brotnudu i sundur Biørgeñ hørd, bꝏru þier DRotteñ Vitnisburd.

10. Foolk,

10. Foolked sem horfde Fyruen a, og Foringeñ Heidme er stood þar hia, Gliuper medkiendu af goodre Trw, Guds Son ad Saklaus værer þu.

11. Pijn mætte eingeñ brivota Bein, Bodord þad stood i þeirre Grein, uñ sæda a Paskum Saudarkynd, sw hlijdde uppa þig Fyrermynd.

12. Helldur var vegna Heilsu mijn, Hiartad opnad og Sijda þijn, rañ þar wt Vatn og Blessad Blood, sem Bloomlega giorer Christina Piood.

13. Adam fieck Mein a Sijdu sijn, þa sviken var Eva Mooder mijn, af mijnu Hiarta Illu hier, illar fram koma Huxaner.

14. Mooder Lifendra Christinen klaar, kviknud er fyrer þad Sijdu-Saar, i Skijrn og Berging Teiknum tveim, er taka Uppræs wr Bruñe þeim.

15. Þessa Vatnsins lifande Lynd, sem lagade af þiñe Hiarta Und, hreisser Saal a Hørmungar Tijd, sem Helluñar Vatn Israels Lijd.

16. J Floode Synda forgudust þeir, sem fooru ecke iñ uñ Sijdu Dyr, a Noa Ørk; so nær þeim Pijn, sem nema ei Skiool i Sijdu þijn.

17. Giegnum þañ Himna Glugg eg sie, Guds iñ i Nædar Jñisle, af Hiarta til mijn er hønum sært, því Hiartad hañs var fyrer mig skært.

18. Adreysing Presta einka good, ædur skiede fyrer Vatn og Blood; Dijrdlegast Offur draup af þier, O Rottañ JEsu til Fridar mier.

19. Dreyreñ græder mijn Vomein veyk, Vatned klaarar miñ Ohreinleik, sem Pellicani Blooded biart, Banvæna Unga gietur nært.

20. Daude þiñ JEsu deyde i mier Daglega Synd so lifeeg þier, og Heilagur sofne hiedañ i Trw, Holld a Dooms-Deige uppvek þu.

21. Rijf þu Fæsiñu Fortialld mitt, so fææ eg ad skoda Andlit þitt, med O-huldre Sælar Ásioon hier, eñ i Forklæran sijdar meir.

22. Skielf

22. Skielf þu mitt Jardneskt Glæpa Gied, Grivot-herdslu Hiartans misk um̃ leid, so eg Jdrande berie a Briost, Betrunar Teikn sie þad angliost.

23. Opna þu mijna Glæpa Grøf, svo giete eg byrst med dijrmætt Lof, klaar af Synd og kvittur af Sorg, Christine þiñar i Fridar Borg.

24. Eg bid þu Hugskot opner mitt, so iñ reñe Sijdu Vatned þitt, til Helgunar og Heidurs mier, Hoolpeñ eg þa og Fullsæll er.

25. ODrotteñ þitt Rauda Dreyra Haf, Daudañ Eylijfa særde i Kaf, i giegnum sig mier liene Leid, laateñ so kañe aungva Neyd.

26. Sæl mijn gief smacke Sætleik þiñ, Sætaste Blood-Brwdgume miñ, Myskunar þiñar mikla eg Rausn, mier kañst eylijfa Endurlausn.

## 7. Psalmur.

O Ringeñ Lijfsins Frañlidne Frelsareñ JEsu deydd-ur a Trie; Jlman mijns Hiarta Elskurijk, eg miñist vid þitt Bloodugt Lijk.

2. Aurendañ Trw mijn uppa sier, med wtbreiddañ Fadm a moote mier, i þeim Fadme fyrer utañ Vei, Ohræddur bæde lise og dey.

3. Ecke fyrr eñ komed var Kvolld, af Krossenum var þitt teked Holld, þa Æsen kiemur ad Aptne mijn, Enda mun taka Giørvoll Pijn.

4. Hæliidleg Hvijld i Hond fer þa, Heliar Maatt Myrk ren vijkia fra, Søfug mun leida Greftrau þiju, til Grafar Fagnande Beineñ mijn.

5. Erleger Meñ og Audnger, eññdust þiina Jardar-Før, Eiñ gaf til Lijned ecke spar, Añar Smurning til Greftrunar.

6. J Grasgarde kaust þier Greftrar Stad, Guds Akur sierhvørn Helgar þad, i Laans Grøf villder liggia uijt Hrijd, so lise eg þia þier um̃ eylijfa Tijd.

7. Atter þu ecke utañ uñ þig, Aureigd þijn JEſu huggar mig, þo Rakeñ ſkilie eg Verolld vid, vijſañ oa eg a Himnum Aud.
8. Lijkame þiñ miñ Lavardur, i Lijne hvijtu var ſveipadur, eñ ecke i Sylke nie Samants Klwt, ſiñter þu ecke uñ Veralldar Skraut.
9. Samvitſka Mañſins hvijt og hrein, heita moa ſoñ Lijk-Blæa þijn; þeſſ Dijrd mun ſijdar Svomalig, er ſo til Hvijdar bijr uñ þig.
10. Veglega ſmurid var þitt Lijk, Virding þig ſkiede loateñ ſlijk; ſo Ilmande kiæme Aundeñ mijn, epter Daudañ i Hvijld til þijn.
11. Prooveñ Steinſins ſem þu loaſt i, þier var wtkiøreñ ferſk og ny, ſw oatte Nyung ſæl ad ſkie, Sveſn-Hws yrde wr Grøfeñe.
12. Par med villder af Daudans Døf, Dyrdlegur rijſa wr þeirre Grøf, Signudum Krapte ſialfs þijns med, ſoddañ var alldrei fyrre ſkied.
13. J hørdum Steine helldur eñ Molld, hvijla villder fyrer þa Skulld; i Briooſte villtu blijſa þvi, ſem bilar Aungre Freyſting i.
14. Heidingiar þijna geymdu Grøf, gooder Einglar þegar eg ſef, ad Legſtad mijnum giørla goa, Guds Jnſigle þar ſtendur uppoa.
15. Riettuſt þañeñ vid Roadſpioll mijn, Ritning uppfyllder Greſtrun þijn, Lijkams Muſteris leidſiu Tioon, liet Gud Hvalfiſkeñ ſvelgia Jon.
16. J Jdrum Jardar eins varſiu, Jñeluktur og þvi eru nu, ſañlega kvittar Syndernar, ſefadur Stormur Reideñar.
17. Eg veit og trwe viſſt þad er, vier Chriſtner erum nu Greſtrader, i Skijrn til Dauda uppoa þad, Jllt verde oſſ ecke tilreiknad.
18. Gief mier JEſu ad Greſtran þijn, greftre ſo diwpa Hrvænting mijn, ad Soaleñ uñ Eylijfd hafe Hvijld, Holld Verk mijn ſie uñ Eylijfd duld.

19. Joseph, Saaladañ ſæmde þig, ſw hañs Mañfremd er Odaudlig, Nicodemi er Miñing mæt, miøg var hañs Smyrſla Jlming ſæt.

20. Til Jdrunar JEſu uppvek mig, ſvo ofañ take eg af Kroſſe þig, ſveipe og ſmyrie Saareñ þijn, i ſætt Jlmande Hlijdne mijn,

21. Lijdingar þiñar lifande Aſt, laate alldrei mijna Klæke ſiaaſt; gief eg þig elſke i Glede og Hrygd, gleyman de alldrei þiñe Trygd.

22. Bid eg hvijle i Brioſte mijn, Bleſſud Greftrunar Miñing þijn, Hiartad mitt ſie þijn Hvijldar Grøf, Hønd og Tunga þitt mykle Lof.

23. Gief þu eg hrædeſt Grøfena ei, goode JEſu þegar eg dey, i Greftran þiñe hun vel Signd vard, vidlijk Jlmande Aldengard.

24. Holld þar ſaaeſt i Helgre Von, Heidre þig Saaleñ, Mañſins Son, Skodunar prydd Himneſkum Hag, halldande Eylijfañ Paaſka-Dag, Amen.



## Bænar Vijſa wt af Nafnenu JESU,

Ordt af

### Saal. S. Magnuſe Olafs-Syne

Ton, Gud er miñ Hirder, etc.

SÆLL JEſu ſæte, Sool og Fødurs Lioome, Gieſtur aagiæte, Gyrndeñ Mañs og Soome, Mijn Ond er miøg Tviſt, Meaned ſer til Nijrdar, þar nem. þu þier Viſt, þijde Kongur Dijrdar, Harmþrungiñ Higgia, Hialp ar þiñar krefur, þar beint ad byggia, hert þu lofad hefur.

2. Kour JEſu kiære, koſeñ Lækner Trega, Naad þijn mig nære, nu og Æfeñlega, Synd mijna ſvarta, ſæf þu Diwps i Baarum, vef þu mitt Hiarta, veikt i þiinum

Saarum, hær Biargskorur bestu, mig birge hvad ad-
dunar, frek a medañ flestu, fram̃ hia Reideñ brunar.

3. Gief JEsu goode, Giede Føgnud mijnu, soadu
a Saar Bloode, Saalar miñar þijnu, Laattu, Lykn Maña,
Lijsgun mig hlioota, og þiñ Sætleik saña, um̃ Sam-
vitskuna flioota; Jñræt þu Ædum, Angurkramins Hiarta,
med Gagne og Giædum, Geyslañ þiñ hiñ biarta.

4. JEsu þig JEsus, jafnañ laat mig fiña, og O-
vinar Illswss, alla Freistne viña, Pitt laattu þijdt Nafn,
þryckt i mijnu Briooste, þess Kraptar sætt Safn, Sorg
i burtu liooste, þad dyrst ad Dygdum, Diasle søn er Fæ-
la, Lijd og Kunnstygdum, leiptrar af þvi Sæla.

5. Fyrr eñ fer eg hiedañ, fest mig þier vid Hend-
ur, Myskuna a medañ, Millde-Tijmeñ stendur, A Doom-
sins Deige, þa daprar standa Piooder, Tortijn mier
eige, True JEsu Brooder, fra hørdu Helorde, mier
hialpa þa, og þijna, so meige eg Mat-Borde, Molana
under tijna.

6. O! JEsu Adstod, um̃ mig þiñe tiallda, eg fast
i Anaud, Einum vil þier hallda, Eingeñ Ogiæfa, und-
er Geimslu þiñe, hart kañ mig hæsa, nie hamla Vel-
ferd miñe, Eg mun Gied-Gladur, Giæsku þijna reina,
goode Gud og Madur, Grædareñ allra Meina, Amen.

* * * * * *



# Packargiørd fyrer HErrans JEsu Christi Pijnu

Vier þockum þier O Rotteñ JEsu Christe,
sañur Gud og sañur Madur, ad þu hefur
oss Aumar Fordæmdar Mañeskiur, End-
urleyst og Frelsad, fyrer þijna Heilogu Pijnu, þitt
Sakleyse, Piñ Dauda og Dijrmætt Blood. O!
HErra

HErra JEsu Christe, Hvad þwng er þijn Kvol, hvad stoor er þijn Pijna, hvad margfolld er þijn Pijsl, hvad diwpar eru þijnar Under, hvad bitur og beiskur et þiñ Dauđe, Hvad Oumrædeleg er þijn Elska, fyrer hvoria þu hefur sætt og forlijkad oss vid þiñ Fodur, þa þu fyrst i Grasgardenum, wt af þungre Daudans Angist sveittest Bloodenu, og gafst þig Viliuglega i Hendur þeirra Ogudlegu, hvorier þig Omyskunsamlega bundu, og færdu þig fra einum Ranglaatum Doomara til añars, fyrer hvorium þu varst Falsklega aaklagadur, hæddur, spottadur, hræktur, og Saargrætelega sleigeñ og bareñ i þitt Heilaga Blessada Andlit; Avi DROtteñ, Vorra Misgiørda vegna ertu særdur, Vorra Synda vegna ertu sleigeñ, Hwdstryktur, Pyrne-kryndur, med Footum trodeñ, sem añar Madkur, og so Herfelega wtleikeñ, ad þu varst ecke nockrum Mañe lijkur. Pu varst sa Fyrerlitnaste og Forsmaanarlegaste, fullur Saara og Benia, so ad Heidens Mañs Hiarta, kiende i Briooste um þig, og sagde: Siaaed, Hvilijk Mañeskia hañ er. Pu barst vorar Synder, þa þu barst þiñ Kross, Og vorra Synda vegna ertu a medal Spillvirkia reiknadur, og hieckst þar a Hondum og Footum Sundurgrafeñ, so sem ein Bolvan, og ert i þijnum stærsta Porsta, med Edike og Galle Dryckiadur, og hefur þiñ Anda i beiskre Kvol og Pijnu upp giefed, og hefur so bætt vorar Mis-
 giørder

giørder, ſo vier erum fyrer þijnar Under heiler ordner. Fyrer allar þijnar Kvaler, Pijſler og Pijnu, ſeigium vier þier DROtteñ JEſu, af Hiarta, Lof og Heidur og Packargiørd, Og bidium þig, ad þu læter þijna Heilogu Pijnu ecke vera oſſ Gagnlauſa, Helldur ad vier huggum oſſ i heñe, og Hugleidum hana ſo, ad þar med wtſlockne og nidurkiæfeſt med oſſ allar vondar Gyrnder, ſo ad vier deyum fra Syndunum, eñ lifum Riettlætenu. Og ad vier fylgium þijnum Footſporum, þad Vonda og Orietta med Poleñmæde ad lijda, og bijda ſo epter vorre Dauda Stundu, og verda fyrer þig Sæluhvolpner, HErra JEſu, Lofadur og Bleſſadur ad Eylijfu, Amen.

* * * * * *
* * *



## Nockur æglæt og wtvaleñ Vers, ordt af viſſum Authoribus

### 1. Af

# Sal. Porberge Thorſteins Syne.

Ton, Fader vor ſem a Himnum ert, etc.

HJartad feſta og Huga miñ, HErra ſkal eg vid Kroſſeñ þiñ, Og læta nockra Nagla þanakeñ

